# MEDITATIONES
## TRIUMPHALES,
EDUR
# Sigurhroos Hugvek-
# iur,
Ut Af
Dijrdarlegum Upprisu Sigri vors Drott-
ins JESU CHRISTI i Fiorutyge
Capitulum, eptir þeim Fiorutyge
Upprisu-Psalmum.

Samanteknar
Af Saal. Sr.
Jooni Joons Syni,
Sooknar-Presti til Hvols og
Stadar-Hools.

Seliast Innbundnar 15. Fiskum.

Pricktar a Hoolum i Hialltadal,
Af Jooni Olafssyni, 1770.

1. Cor. 15. v. 14.

Ef Christur er ei aftur upprisinn, so er vor Predikun Ontijt, þa er og ydar Trw Ontijt.



# Inngangurinn.

## I. Capituli.

MIJN Saal! Nu er þiñ æstrijki Brwdgumi JEsus af Daudanum upprisinn, og hroosar sætum Sigri yfir Synd, Dauda, Diofli og Helvijti, þvi skulum vid nu og, hvorium þetta Bleßada Sigur-Verk bodast, upprijsa med glødu Hiarta, fagnandi Hugskoti, og hroosandi Twngu, Jaa, allir Innri og Ytri Kraptar ockur af DRottni meddeildir, skulu nu samfara verda i þeßu Andlega og Bleßada Sigur-Hroosi, þvi þad er hinn mesti Saalar Fognudur, Undir-Root og Uppbyrian eilijfs Fagnadar ad hafa (eftir Raadum St. Paals) JEsum i Minni, sem af Dauda er upprisinn. Vid høfum Saal mijn aa umlidnum Tijmum med sorgandi Guds Bornum, maatt sorgandi hørfa aa þann giegnumstwngna, alblooduga, følnada, og sijdann i Grøfina nidurlagda Jesu Lijkama, og minnast vid hañ med Taara-blondudum Koßi, þar ed su skiæra

Riettlætis-Soolinn JEsus, edur hennar stoora Guddooms Byrta yfirskyggdist i ærid miklu Kvala Myrkri, og ood þau sorglegu Sky hinnar saarustu Pijnu, vard lijka so wtlijtandi sem hid raudasta Blood, rañ under med soddañ Litar-Hætte, og huldist i Daudans Hafi um̃ þriar Daga. Þessi Harmur er nu af-þerradur mijn Sæl, þvi nu er þessi hin sama Riettlætis og Gledi-Soolinn JEsus, med fogrum Morgun-Lioomа upprisinn: þetta Blessada Drottins Hiarlprædi, mattu nu fagnandi skoda, mijn Sæl, med odrum fagnandi Guds Bornum. Glediumst ockur þvi af ollu Hiarta, Jaa, þier Himnar gledied ydur, og þu Jord fagna þu, Ps. 96. v. 11. Fagna þu dijrkeypta Jesu Brwdur, þvi skylldt er vssnu ad fagna med Einglunum oss hier yfir samfagnandi. A Krossinum Fridþægdi Jesus oss aumar Mañeskiur vid siñ Himneska Fodur, med sialfs sijns Foornfæringu, eñ nu er, Saala mijn! þessi þiñ Astvinur auglijstur i sijnum mikla Guddooms Krapti, og þetta Leonid af Kyni Juda hefur Sigurinn unnid a Synd, Dauda, Diofli og Helvijti, Ap. 5. v. 5. Hañ byriadi Strijdid edur þessa Hoolmgaungu med Sorg og Veiklegri Asijnd, eñ endadi med Hreistifullum Guddooms Sigri; Hañ doo fyrir Syndir vorar, enn uppreis oss til Riettlætis, Rom. 4. v. 25. Og um̃ þessa hanns Upprisu lystir mig nu ad tala.

Þar til veit þu O JEsu Fulltijngi þijns H. Anda, so eg af þier frelsadur, mætti þvi Frelse med

riettri

riettri Endurminningu fagna, AMEN.

# Textinn.

Og er Sabbats Dagurinn var lidinn, keyptu þær Maria Magdalena, Maria Jacobi og Salome Dijrdleg Smyrsl, ad þær kiæmu og smyrdu Jesum.

Hier af skalltu læra, mijn Saal, ad heidra blessud Bodord þijns Herra, þvi þau eru þijn Lijfs-Regla, eftir hvørri þu skallt þier hegda, og vijkia þar hvørgi fraa til hægri nie vinstri Handar.

Þo nu Logmaalid sie saa deydandi Bookstafur, þa þienar þad þier þo, ef þu þad vel athugar, i þvi ad þad þreingir þier ad leita þijns JEsu, lijka sem saarum Manni þienar Verkur og Slæmleiki Saarsins til ad leita sier Lækningar, eins rekur og Logmaalid þig (af hvøriu þu sier þijnar Jllgiørdir, og þeirra forþient Laun) til Saarana Jesu, so þu finnir i þeim Lækning, Frelsi og Fyrirgiefning Syndana, þvi þinna vegna hefur hann uppfyllt Logmaalid, og ef þu trwir aa hann, er aa þier eingin Fordæming framar meir. Eg er, o þu goodi Jesu, eitt Ohlijdid Barn, og i øllu goodu nærsta ofullkominn, samt finn eg allt þad sem mig vantar i þinni Hlijdni, hun giørir mig af raanglaatum Jllgiørda Manni, riettlaatann: Og allt hvad Logmaalid kann af mier ad wtheimta, þad hefur þu fyrir mig borgad og uppfyllt. Seigi nu Logmaalid til mijn, þu ert sekur, þaa er eg þo i þi-

er og fyrir þig Saklaus; Laat mig i þvi Sakleysi þier ætijd þioona, enn þijn Myskun vægi mijnum Veikleika. Dygda Dæmi þessara Kvenna, sijnir oss enn framar ad oss byrie ad taka vel Vara a Bodordi Drottinns um̃ hanns Hvijldardags Halld, so ad þu halldet han̄ riettelega, epter Innehallde þess Þridia Bodords; þvi þo sierhvor Dagur sie DRottens, þa nefner han̄ þo sierdeiles sin̄ Dag þann Siounda Dag Vikunnar, þess skallt þu giæta, Gud vill ecki ad þu skulir fremia a honum nockurt Naudsynialaust Erfidi, allra sijst þad sem Osæmilegt edur Otierlegt er, og vit fyrir vijst, ef þu hier i mooti giorer, þa vill hann þess a þier hefna; þad þu þarft ad vin̄a Holldlegrar Naudþurftar vegna, þad gior þu a þeim Sex virku Dogum, þar til meiga þeir nægia, þo þu takir ei med hier til þann Siounda Daginn fra Gudi, þvi han̄ a ad þiena Naudþurft Saalar þin̄ar, hen̄ar Gagns og Gooda attu þa hellst ad giæra, i þvi ad heyra og stunda Guds Ord rækilega, og sanna Ydran og Yfir-Bootgiora, fyrir allt þad sem þier hefur aordid a þeim sex virku Dogum. Fordast skalltu og sterklega þan̄ vonda Osid sem nu, þvi verr! erid rijkt yfirgeingur, ad sumir, Ja, allt ofmargir, taka þennann Dag hvad hellst til vanslegs Leikfangs, og skiemta Holldi sijnu a honum med ymsum Leikum, Spilum og Tabli, lijka og med Ohoofi og Dryckiuskap, samt fleiru soddan̄ eftir þvi sem þa lystir, hvorium Lystingum Drott-

lijn̄

eñ hefur fyrirbodid ad eptirfilgia, Ec. 58. 13. Þvi aff-
ar þad saňlega Skada og Hegningar, þo faair vilie
þvi siña: Eda seig fram, hvad fyrir Gud dyrkar þu
med þessu? Andsvar, þijns Hollds og Bloods
Vilia, og þess Giaalfse, hvort þier er þo skipad ad
Krossfesta, enn ei þannig rækia, ef þu villt annars
heyra Christo til: Edur hvorninn villtu skilia þeňañ
DRottins Urskurd? Ef þier lifed epter Holldenu,
þa munud þier deya, enn ef þier deydid fyrir Andañ
Holldsins Gyrnder, munu þier lifa, Rom. 8. 13.
Þessu og ødru fleyra Slijku vill Diøfull Holld og
Heimur læta undir Stool stijnga, enn þad fær uñ
sijdir ad byrtast. J einu Ordi ad segia, villtu þess
lifanda Guds Blessunar nioota bædi hier og sijdar,
stunda þu þa til, ad saa nidur aa þessum DRott-
ens Deigi, sem alltijd, þvi gooda Sædi sannrar
Ydrunar og hreinnrar Trwar, þa munt þu og þitt
Erfide blessast aa þeim sex eptirkomande virku Døg-
um, og Alldin goodra Verka uppspretta.
Goodi JEsu, eg veit eg fæ ecki duliſt fyrir þier,
þu veitst allar mijnar Athafner sem ærid margar
eru, so i giegn þessu þijnu Bodordi, sem øllum ød-
rum; forlaat mier þær minn Gud, og hiaalpa mi-
er fyrir þijna Forþienustu med Krapti og Verkan
þijns H. Anda, so þinn Hvijldar-Dag hallda hier
i Naudenne, ad mier med øllum Guds Børnum
hlotnest ad hallda eilijfañ Hvijldar og Gledi-Dag
i Dijrdenne, Amen.

# 2. Capituli.

Um̃ Tijmañ og hvorium DRotteñ uppreis.

INN ad Morgne Sabbats-Dagsins, saa er hefst hiñ Fyrsti Heilagur Dagur i Sabbats-Døgunum, kom Maria Magdalena, og hin Øñur Maria ad sia Grøfens.

Saala mijn! Hier af maattu siaa Upprisu Tijma þijns HErra, sem var hinn Þridie Dagur epter hanns Dauda. A Adfaangadags Kvølldid var hann af Joseph i Grøfena lagdur og hvijldist hann þar þann Fyrsta Haatijdis Dag allann, ad hvørs Kvølldi ad Kvinnurnar komu ad siaa Grøfena, so sem hier seigist. Og fær þu hier af ad siaa, ad Lausnarinn uppreis ecki aa Gydinganna Sabbats Degi, sem nu er vor Laugardagur, helldur hvijldist þa hin blessada Saal vors HErra i Høndum sijns Himneska Fødurs, eñ hañs heilaga Holld i Grøfiñi, og Guddoomsins Tign hvijldist i Holldenu, Col. 2. v. 9. Mijn Saal, epter þad vid høfum ad Vilia DRotteñs, Eymder og adskilianlegt Anstreimi afstaded hier aa Jordunni, faaum vid fyrir ockar JEsum Eilijfa Hvijld og Roosemi, þar til skulum vid fagnandi og þolinmood hlacka i Þinaningunni. Hitt er og stoor Fognudur, ad Gud siaalfur hefur hier Hvijld i ockur Fridþægdum vid siaalfann sig, og þar fyrir, fyrst Gud er med, hvør kann

kann þa ad vera a mooti? Þu att og mijn Saal Hvijldar-Stad vijsann, lijka vel um þennann ockar Samveru Tijma, i Hiarta og Saarum þijns HErra, þadann hefur hann ockur hryngrud hijngad til alldrei hraked, þo Overdug verid hofum þess Heimkynnis, hans mikla Mijskun mun og hier eptir eins Sinnud vera. Lijkaminn mun og odlast ad Skilnadi, sijna Hvijld i Grofinni, Es. 26. v. 30. Ja, Eijlifanleg, Andleg og Eilijf Hvijld, er Guds Bornum afrekud fyrir JEsum Christum. Ebr. 4. v. 9. Arla Morguns, hin fyrsta Dag Vikunar, uppreis vor HErra af sinni eigin Guddooms Magt, eins sem hann fyrirsagt hafdi; So skulum vier vijst vita, ad alldrei rafkast Ord DRottins, og þad han asett hefur, fær ad hafa sitt Geingi. DRottenn minn! Eg treyste þijnum Ordum, veit og trwe fyrer vijst, ad oll þijn blessud Fyrirheit hafa fullan Stad, Psal. 33. og naa til mijn, hverju sem mier kann synast Ovænlega astanda, i þeim er Efalaus Sannleikur, Otvijlug Raad, Obrigdannlegt Traust, og Endalaust Hiaalpræde ollum Trwudum.
Þess er og hier ad giæta, ad saa Jlmsæti Sigurvegarinn JEsus villdi ecki undanndraga sijna Upprisu allt fram ad Kvolldi þess Þridia Dags, so ei skylldu hanns saart harmandi Astvinir bijda hans allt til þess Dags Kvolld-Rockurs huggunarlauser, þar fyrer uppreis hann Ardeigis edur um Fyrstu Apturelldíng. So er ad lijsa minn goode JEsu epter þijnu Naadarfulla Hiartalage, þijn

Mÿskun þolir ecki laungann Undañdraatt, i þvi ad hiaalpa aumstøddum Manni i hanns Hrigd og Vesolld, Es.65.24. Þier þreingir þijn Elska til ad hiaalpa oss nærsta Astlitlum, vier drøgum þad opt undañ marga Daga, ad giegna þier og þijnu Kalli, Jaa mørg Ar, lijka vel margir af oss allañ siñ Alldur: O Gud naadi slijkt! eñ so er þessu Ojafnt skipt fyrir þier og oss, ad Vonum, ad þegar vier balstijruger Syndarar loksins kollum til þijn harmande, þo af þijnu eiginn Tilstille tilknwder, þa veitist oss opt þijn Huggun aadur enn vier kunnum ad vænta hennar, og aadur enn vier hrøopum er Eyrad þitt fyrr opid til ad heyra, vid vora Fyrstu Hugars Angist er strax opt til Reidu hiaa þier hin sætasta Hugsvolun, vid þau Fyrstu Taar Jlmandi Huggun, og strax, sem fyrir oss hallast tekur, naakvæm Hiaastod og Vidrietting; Enn virdist oss ad þu þetta umeitt Augnablik undanndragir, er Haalsiñ strax moodur aadur ad hroopa, Syneñ forgeingiñ, og saar Kvortun yfir þvi, ad vier saaum so leingi eptir þier ad bijda. So sem þad nu, minn liwfi HErra, ad Þrijr Dagar voru yfir þier aaliktadir, af hvorium saa Eini var þinn Pijsla-Dagur, Añar þinn Hvijldar Dagur, og hinn Þridie þiñ Upprisu-Dagur; So aa eg og i lijkann Maata Þriaa Daga fyrir Hondum; Saa Eine er nu yferstandande, sem er mijn Hiervist i þessu auma Lijfi, þad er saa Erfidis Dagur, aa hverium Saal og Lijf þiaist, og þo mier Þolgiædis-naumum finnist hann opt

laungur,

læangur, þa veit eg ſamt, ad eg kann ecki aan Hörm-unga og ymislegs Mootgaangs i Guds Dijrdar-Riiki iñ ad komaſt, Act. 14. v. 22. Hier framdregſt mitt auma Lijf med Sorg og ymſri Aſtrijdu, allt þar til þad fær Enda med Daudanum, hverium, nær kiemur, eg vil i JEſu Nafni feiginn filgia, og uppaa þad hann þieni mier þa til goodra Umſkipta, vil eg til þeſs Tijma, eptir þinni Velþocknan, minn ſæti HErra, filgia þier epter, og allt þad þola og lijda sem þu villt aa mig leggia, ſie ad eins þinn Kraptur i mijnum Breiſkleika mæattugur, ſo er eg viſs uñ Sigurinn. Sa annar Dagur er miñ og annara daudra Maña Lijkama Hvijldar-Dagur i Jorduñi, nær þo Guds Barna Sæaler, hvijla i Hondum DROttenns og einginn Pijna ſnerter þær, Sap. 3. v. 5. Hiñ Þridie er vor Uppriſu Dagur, ollum Guds Bornum Eftirlaungunarſamur, aa hverium vor Lijkami ſem hier er ad Dupti vordinn, upprijs i Krapti JEſu Uppriſu, Andlegur, Oforgeingilegur og Vegſamlegur, Lioomandi og Dijrdlegur, 1. Cor. 15. v. 43. Soddañ Fagnadar rijk Umſkipti eru þa feinginn, þar epter læangar opt Hiartannlega mijna Sæalu, ſu Laungun mun og uñ ſijdir uppfyllaſt. Hier ad auk er þad athugandi, ad ei villdi JEſus aa Gydinganna Sabbats-Deigi upprijſa, helldur aa næsta Deigi þar epter, hvar med hann uppbyriadi Sabbats Dag Nya Teſtamentesins, ſem nu er Guds Bornum bodadur, og af ſiaalfs Chriſts Poſtulum tilſkickadur i

Minning JEsu Dijrdarfullrar Upprisu, og er þad nu vor Sunnudagur, edur Fyrsti Dagur vorrar Viku, sem og riettilega kallast DRottinns Dagur, aa hvørium sierhvør Christinn Madur aa sig vel ad vanda, og þeñañ Daghelga Gudi til Dijrdar, og Saalunni til bestu Nota; Og lijka sem þinn og minn HErra, Christiñ Madur, uppreis dijrdlega aa þessum Degi, so eigum vid aa hønum fyrir sanna Ydran og Yfirboot Andlega ad upprijsa, ef saa eilijfi Daudi skal aungva Magt yfir oss hafa.

O minn Elskulegastl HErra JEsu, hiaalpa þu oss øllum riettilega þitt Sabbath ad hallda og helga, hier i þijnu Naadar-Rijki, so ad vor Saal naae sinni riettu Hvijld i þier, og þu hvijlir i vorum Hiørtum ætijd og Æfinnlega, AMEN.

# 3. Capituli.

Uñ Utgaungu Kvennaña til Grafariñar.

EG mioog sneña aa þeim fyrsta Deigi Vikuñar, þa ed eñ var myrkt, komu þær til Grafareñar med dijrmæt Smyrsl, er þær høfdu tilbwid, og nockrar med þeim.

AF þessum Kvinnum maa siaa eitt auglioost Kiærleiks Merki, ad þær Sokum sinnar heitu Elsku til JEsum lietu sig eckert hindra, og aungvann Haaska hræda fraa þvi ad vitia hanns blessada andvana Lijkama, er þær meintu so vera, og þad Ardeigis

deigis aan allrar Qvalar. Vilier þu i sama Meata, mijn Saal, naa Samfundi þijns elskuleg asta Unnusta JEsu, og niota hanns Elsku og Unaðsemdar, enn frelsast fraa Guds Reidi og eilijfri Fordæmingu, þaa skalltu strax aa þijnum Æsku-Alldre leita hanns, hafandi hañ og hanns Bodord i Hug og Hiarta, enn hafna Hollðsins Glaum og Giaalijfi. J añañ Stad, miñstu þess hvorn Morgun aan allrar Gleymsku og Forsoomunar, ad þu af innstu Hiartans Alwd, og yfir allt framm fyrst leitir þijns Guds med Bænahalldi, Matth. 6. 3. Akalli og Þackargiord, Phil. 4. 6. hveriu ef þu eckigleymir, mun þier blessudum blessast Himin og Jörd, og allar Guds Gaafur, samt Verk og Ydni. Eñ framar skalltu leita Drottens, med sneṁgiordri hreinni Ydran og hræsnislausri Yfirboot Syndanna, aa þeim þægilega Naadar-Tijma, medann DRottinn er ad finna, Es. 55. v. 6. og hanns Omælañleg Myskun og Þoliñmædi bijdur eptir þier; Ad ei wtbreidi hann forgiefins til þijn og i mooti þier sinn Naadar-Fadm, þvi ef þu þetta þriootskusamlega undañdregur, kann þier Naumt ad verda Hlid sannrar Yfirbootar, þvi Ydran sein er skialldann hrein, enn þad er vijst ad DRottenns Naad endurnærir þig, ef ei mootstendur hönum og hanns Hiaalpræðis Verki; Nu er saa þægilegi Tijminn, nu er Dagur Hiaalpræðisins, 2. Cor. 6. v. 2. Giæti þess hvor einn, sem finna vill Rwm sannrar Ydrunar. Jaa sierhvor skylldi med sier þeink-

ta, ad torveldt verda kuñi i sijdurstu Daudans Ne-
id, og Angist Andarslitraña ad JEsu riett ad leita,
og hann finna, med þvi þaa kann margt fyrir tefia,
lijka kann Daudinn so hastarlega ad heimsækia, ad
saa saai eckert Svifa-Rwm hier til, sem þad hefur
til þess Tijma hyrdulauslega undanndreigid, so þaa
verdi allt þetta i Raadleisu. O hvad hæpid er þad
þaa O Madur! ad eiga allt þetta Ogiort undir
Bidlund þessa bitra og bræda Dauda, hiaa hvor-
ium ei fæst Frestur um eitt Augnablik! þvi eg vil
hallda ad þad eina Eptirdæmi þess Jdrandi Ræn-
ingia, Luc. 23. v. 43. leidi ecki alla inn i Himnarijki;
Og þvi segi eg enn, ovijs er Dauda-Stunnd, en
skal þier ad treysta þar uppaa ad þu eigir sem Skyll-
du-Skatt alltijd Naad DRottins vijsa, hvad lein-
gi sem þu hana foraktar, og undanndregur hennar
leita; J soddann Sivo sier ad voga, er hid mesta
Haaska-Spil, þvi hvad odrum hefur ad Slisi vord-
id, er uggvænlegt þier verdi ad Slisi, DRottenn
lætur ecki ad sier hæda, Gal. 6. v. 7. O þu Astrij-
ki HErra JEsu! Margar og hardar Harma-
Skwrir dynia yfir þijn Born i þessum Heimi, i
hverium þau hroopa til þijn; O hvad miög laang-
ar þa Hiartad eptir þinni Naavist! Þad er Þol-
giædisleysi mijnu ad kienna, ad so laangvinn finst
Bidinn, og þo mier syniſt edur finnist sem þu þeigir
vid mier, og læter sem þig vardi ecki um Trega
mijns Hiarta, þa er þad meir enn verdskulldad, þvi
mijnar Odygder og Illsku-Verk hafa maklega gi-

ort Adskilnad a millum þijn og mijn, Es. 59. v. 2. Þar fyrir maa eg grenta, og ecki hef eg ad vænta nockurs Fagnadar edur Hugfroua, Ja, aungrar Gledi-Stundar, fraa eg þig ecki aftur fundid, þvi bid eg þig audmiwklega, min Hiartans Herra, laat þu mig ecki til Laangframa forgiefins eftir þier leita i mijnum Mootgaangi og Mannraunum, þvi so er þijn Milldi nærgiætinn, ad þu veitst best hvad saart þad Sverd bijtur, eftir þvi þu ert siaalfur a allan Haatt freistadur, þu veitst hvorsu ad allt Þol og Þrek vill þaa i burt renna, þu veitst hvad Magnlaus Trwar-Hondinn vill þaa verda, einkannlega hiaa mier hinum vesælasta Ormi, sem aadur er nærsta snaudur undir, af ollum goodum Dygdum so þessum sem odrum, kom þar fyrir þu goodi Hyrdir, kom og leita eftir mier, tak þu mig ad þier, aadur enn eg verd þeim illu Vorgum olldungis ad Braad og Herfaangi, þvi hvor er saa i Helvijti ad þier seigi Þackir?

Þad er hin hærsta Gledi ad finna til Naadar Naalægdar þinnar, O JEsu, og faa af þier For-Smeck eilijfs Lijfs, en hvad er hryggilegra en missa aftur þad sættsmackandi Saalar Hunaang? Ad vera so gott sem uppnumin med Sancte Paali i hin þridia Himin a einni Stundu, enn sockva nær þvi til Helvijtis a annarri, 2. Cor. 12. v. 2. Drottinn minn JEsu, eg leita, nær þess orka, eftir þier af ollu Hiarta, leita þu aptur eftir mier minn Gud og Fadir, og laattu oss þijnar harmandi Unga-

Sklepn-

Skiepnur alldrei Sioonar missa a hier, þu Astrijk-asta Moodir, hvorki hier nie sijdar, Amen.

# 4. Capituli.

Um̃ Kvenana Eyrendi til Grafarinnar.

## Peirra Eyrendi var ad smyrja JEsum, (sem Textiñ adur skijrir).

PEssar Gudhrædду Kvinnur fylgdu DRottni, fyrst eftir wr Galilæa til Jerusalem, wt af Jerusalem, til Aftoku-Stadarins, þær voru vid hans Andlaat, og ad sijdurstu fylgdu þær honum til Grafarinnar, saau hvar og hvorniñ hans Lijkami var lagdur. Nu færa þær med sier fullar Krwsir af Smyrslum, enn samt voru þeirra Hiortu fyllri af Elsku og Ast til JEsum, sw var Orsokinn, ad þær sporudu aungvan Kostnad, og toldu hier a aungvar Tormerkiur, hvorki i Smyrsla Utvegan-inni nie Umkostnadinum: Soddañ Art og Natturu hefur Kiærleikurinn, þar sem Muñ-Elskararnir telia a allar Tormerkiur, lijka sem hinn lati asletur Verknadinn og Ydnena. Ei kunnu þessar goodu Kviñur añad ad Jgrunda, enn þad Frelsarinn væri nu Andvana hvijlandi, og sijst þeinktu þær hann mundi lifa, samt lifdi i og hia þeim Kiærleikurinn og Elskann til JEsum, soddann Kiærleiks-Dygd var ein sw hin mesta; Þu Madur, skoda þig hier so sem i odrum Speigli. Vier erum fullfroodir ordnir um̃ þad, minn JEsu, ad þu siert

fraa

fra Daudum upprisiñ, lijka med sætum Sigri til Himins uppfarinn, og siert þar vor Aftrijkur Fyrirbidiari, ei ad sijdur er nu Elskann til þijn vtslokinn a medal margra, Matth. 24. v. 12. O þad hormulega Stand! O þessa vondu Tijma a hvorium vier nu lifum! Eg skamast mijn þo ei sem vert er, nær eg Hugleidi Dygda-Dæmi þessara Kveña, þvi þo eg med Ordunum lætist tala nockud um þijna Elsku, og rædi ødrum hana ad stunda, þa vill hun nælega i aungvu goodu Verki sig auglijsa a mier: Hvada Nafn tilheyrir mier þa, annad enn heita eirn Hræsnari? Hvors Doomur i þijnu Ordi mier er og til Eyrna kominn. O JEsu, væg þu þessum mijnum hormulega Veikleika, sem øllum ødrum, og fyrirgief mier slijkt allt af þinni Myskun. Þo þessi straxnefnda Dygd skijni fagurt a Kvinnunum, þa var þo hia þeim Breiskleiki i Bland, Ja, soddann eitt Ljoos sem dapurt logadi, og þurfti Adgiordar, sem var, ad þær meintu Jesum enn þa Andvana i Grøfinni, eñ giættu allt ijtt hañs sialfs Orda, sem þær hofdu þo adur af hañs eigiñ Muñi heyrt, ad hann mundi a Pridia Deigi upprijsa. Matth. 16. v. 21. Ad hvoriu þær gaafu sig eckert hvort helldur þvi hefur Gleymskann ollad, edur sw Meining, ad ei mundi af þvi verda. So er enn þa ad lijsa eftir oss aumum Vesælingum, þvi erum vier so yfirfallnir i Mootlætingunum, samt þess i milli hardhnackadir i Synda-Idiunni, ad annadhvort eru gleymd Guds Ord, edur vier trwum

þeim

þeim ecki, hvorttveggia er vondt, þad sijdara þo verra. Þad sijnist, so sem hier halldi a medal vor Tveir Kappar sijfellda Orustu edur Holmgaungu hiaa sumum, af hverium annar heitir STIRKUR, enn annar VEIKLEIKI; so gieck þad og þessum goodu Kvinnum, Elskañ þeirra vard sterk, enn Trwinn harla veik, og so sem i odru Omeigi. Mun þetta ecki lijkt þvi sem Paulus talar um Utvortis Strijd og Baraattu, eñ Iñvortis Otta og Hrædslu, 2. Cor. 7. v. 5. Enn vid þad er sig ad gledia, ad JEsus hefur lofad ad sundurbriota ecke brakadann Reyr, og wt slocka ecki lijttlogandi Hor-Kveik, Esa. 42. v. 3. Þad er honum nær ad hiaalpa enn Utskwfa, so hefur hañ reynst, so mun hann reynast, hier uppaa skal sig forlaata. Drottinn minn JEsu, sem veitst hvad naumt þijn Born eru opt stodd a Trwarinnar Veigi, so og hvorsu ad i ai sigtandi Diofull forsoomar sig ecki ad leggia ymsar Snorur i Veg fyrir oss, O hiaalpa þu oss ollum ad vor Trw til þijn, bili ecki, og þaa sijst nær tæpast er komid vorum Efnum, þvi þar wti augliosist best þitt Meistaralegt Mijskunar-Verk.

Framar, athuga þu Saala mijn, hvar þu kunnir ad faa þau Smyrsl, sem þinn liwfi Lausnari, nu i Hætigninni verandi, vill af þier wtilaatandi þyggia hier a Jordunni: Laattu honum fyrst i Tie hrein og Hræsnislaus Yðrunar Taar, og set þig med bersyndugri Mariu ad hanns Footum med þetta Offur, og so hefur þu smurt hanns Fætur, Luc

7. v. 38. Og undir eins þitt Hiarta, hvoriu þa verdur liettara at eptir; Þar nærst skalltu hanns Hefud smyria med ydugleg u Lofi og Þackargiord, ansamt odrum Guds Bornum er hanns Nafn vegsama, Ps. 150. v. 2. og huxa ad þetta er þijn Skyllda, þvi so marga og stoora Myskun, Ast, Vernd og Velgiorder hefur hann veitt þier, ad slijkt verdur ecki talid, Ps. 50. v. 15.

J Þridia Maata, laat þu þier umhugad vera, af trwudu Hiorta Tregdulaust wti ad laata eptir þijnum Esuum, þa Smurning þijns DRottens, sem heitir Myskun og Medaumkan, med þægilegu Olmusu-Verki vid hanns Volada og þurfandi Limi, hvorier ad eru aller aumstadder riettchristner Meñ, þvi slijka kallar Skriftenn Guds Sonar Andlegann Lijkama, fierdeilis Eph. 12. v. 23. Þad þu nu þessum gott giorir, vill JEsus reikna sier sialfum giort, Matth. 25. v. 40. 46. Tel þad þvi ecki epter, og halld þad ecki glatad, sem þu so vid JEsum wtilætur, og hanns Volader medtaka, þvi slijku er aungvannveiginn i Siooinn kastad, og ei verdur þitt fyrir þessa Smurning neitt minna, þvi DRottinn vill þier þad goodu endurgiallda, þvi þessarar Smurningar Ylmur uppstijgur i Himininn, Act. 10. v. 4. Enn Blessan Guds ofann til þijn aptur a Jordena, medann þu hier dvelur; Enn a sijdarsta Deigi i Uppriſu Riettlaatra færir soddann Smurning þier hin bestu Nyt, nær JEsus verdur til þijn segiandi: Hv-

ad þier giordud einum af þeſſum enum minnſtu ſem eru mig trwa, þad giordud þier mier, gaangid inn i eilijft Lijf, Matth. 25. v. 34. Þu hædſti HErra JEſu varſt ſmurdur, edur þijn Mannddoomleg Naattura, æn Mælingar, Pſ. 45. v. 8. Med þvi Himneſka Oleo Heilags Anda, fyrir þvi kuñi ecki þinn Manndoomur nie ſw Edlis Art, ad hindra þijna dyrdlegu Uppriſu, og ei hafder þu Smurningar Þorf, til ad aptra Forrotnunenni, hvoria þu ætter ecki ad ſiaa, Pſ. 16. v. 10. Þu hreſſir miklu framar þijnar Skiepnur med þeſſum og þvilijkum Gaafum, Jaa þu veitir oſs voludum þa Smurning, fyrir hvoria vier kunnum Andlega ad uppriiſa. Veit oſs ollum þaa Naad, minn Gud, ad vier audſynum oſs, eptir þijnu Bodi, Good-Hiartada og Giafmillda vid þijna Naudlijdandi Limi, og faaum ſijdann af þijnum bleſſada Munni ad heyra þetta Gledi Tal; komid bleſſud Born mijns Fodurs, og eigniſt þad Rijki ſem ydur er fyrirbwid fraa Upphafi Verallbar, AMEN.

## 5. Capituli.

Uñ Jardſkiaalftañ.

OG ſiaa, ad þar vard Jardſkiaalfti mikill, þvi Eingill DRottins ſtie nidur af Himni, gieck þar ad, og velltti Steinenum af Dyrunum, og ſetti

ſig

sig þar uppaa, og hañs Asynd var sem Eilding, og hañs Klædi hvijt sem Snioor, Eñ Vardhalldsmeñerner skielfdust af hañsOtta, og urdu lijkasem væru þeir daudir.

ÞEgar vor HErra liet sitt Lijf aa Kreſſenum, þa skalf og hristist Jordinn, Matth. 27. v. 51. so sem af Ofbodi hinna beisku Kvala er hennar Skapari hlaut ad lijda, so sem hun kynni ecki Oharmandi slijkt af sier bera; giordi þvi med hinum odrum Hofudskiepnunum þessa Sorgfullu Lijk-Hrijnging. Enn sem vor HErra uppreis af Dauda med hinum dyrsta Sigri, skalf Jordinn, so sem hun lieki fyrir sijnum HErra af Fognudi, þa var og burtu Sorgar-Klædi Soolarinnar, Jaa oll Natturañ var þa gladvær, hvar um ad þeinkia mier er alltijd eirn stoor Fognudur: Edur þvi skylldi ecki mitt Lijf og Saal glediast i mijns DRottinns Sigri, og yfir honum, er mier er til eilijfs Hiaalprædis skiedur, og aungvu sijdur enn Hofud-Skiepnurnar stilla eirn fagrann Fagnadar Dans? Þeir Lijflausu Hlutir hafa eckert Gagn af þiñi Pijnu, miñ HErra JEsu, enn mier aumum Syndara stendur Huggun og Hiaalpradi af þiñi Forþienan, þvi mijn vegna hefur þu allt Fullkomnad, so sem þu siaalfur yfirlijsir undir þitt Andlaat, Joh. 19. v. 30. Þvi maa eg nu ollu framar Jordunni, minni Moodur, eñ þo aamiñtur af henni, Hiartannlega fagna af þijnum sæta Sigri, yfir Illsku Hoop miña Ovina, Synd,

Dauda, Dioſli og Helvijti, 1. Cor 15. v. 55. af hvorra Oki og Yfir-Drottnan, Jaa, eilijfum Kvolum og Pijnu þu heſ mig leyſt og frelſad. So fadmar þa mijn Saal þig fagnandi, minn fæti Sigurvegari, lijka er mitt Holld hier yfir gladvært, þvi þegar þrotinn er Armædu og Eymda full Hiervist þeſſa Lijfs, mun þad gladvært uppſtanda af Grofinni, til ad lifa forklaarad med þier Eilijflega. Af þeſſu giefſt mier enn framar Orſok ad þeinkia um Tilſtand minnar Hierviſtar, hvor og hvilijkur eg ſie og hvad DRottenn veiti mier. Eg er i Sannleika Molld og Þreckur, og tilheyrer mier maklega ad ſkiaalfa og titra, ſo opt ſem riett verdur ad mier H. Haaverdugt Holld og Blood DRottinns i Kvolldmaaltijdarennar Sacramento; undir þa Medtekningu loſa eg ad giora Boot og Betran mijns Syndafulls Lijfernis, enn, Gud naadi, þetta vill i aungvann Maata ſo af mier efnaſt ſem vera ſkylldi, og þad ſem þo er verra, ad Vidleitninn þar uti er ærid doſinn og dopur; Þeſſu velldur ſu forſpillta Naattura, Rom. 7. v. 18. 19. Sem mier heſur þad eckert eptirlaatid, er i nockru goodu Gylldi ſie. DRottinn væg þu mier aumum og ſyndagiornum.

Þad maa leſa Act. 16. þegar Paall og Silas voru af Hofdingium Borgarinnar Philippis i Macedonia innſettir i Myrkva-Stofu, ad nær þeir i Faangelſenu um Midnætti baaduſt fyrir, þa hafi þar ordid eirn mykill Jardſkiaalfti, ſo ad Grundvollur Myrkva-Stofunnar hrærdiſt, og allar Dyr opn-

opnudust, enn þeir urdu lausir af siinum Fiotrum. Eins skiedi og i þiñi Upprisu, miñ JEsu: Vid þañ Jardskialfta sem þa varð, urdum vier Daudans Fangar lausir af Myrkva-Stofu þess Eilijfa Fangelsis og Andlegum Anaudum, Zach. 9. v. 11. Eñ i Stadinn veittur farsæll Inngangur til eilijfs Frelsis og Drottinns Dijrdar-Rijkis: Eñ þo oss beri med riettu til Packlætis Minningar, vid vorn HErra, til hanns wtgaunga af Herbwdum þessa Heims, og bera hier hanns Vanvyrdu, Ebr. 13. v. 13. þaangad til hanns verdur fullkominn Afhending. 1. Cor. 15. v. 24. Lijka og maa þad lesa Exod. 19.1 þegar Gud DRottinn Allsheriar wtgaf sitt Heilaga Lögmaal a Sinai Fialli, ad þad sama Fiall hafi þa skolfid og titrad, enn Foolkid fullt Felmturs og Otta, flydi og foor i burtu.

Lögmaalid er Sendibodi Hefndanna og Bölvunarinnar, verkandi Hrædslu og Skelfing i Samvitskum allra Yfirunarlausra Manna, sem fast aafram hallda a Veigi Vondskunnar. Hier i moot er Jardskiaalfti Drottinns Upprisu, Gladværdar og Fagnadar Sendibodi öllum Riettrwudum, Utdrijfandi fraa þeim allann Otta fyrir Lögmaalsins Bölvan, þvi nu er Lögmaalid uppfyllt, og þess Bölvan i Blessan snwiñ, Gal. 3. v. 13. i Jesu vors Drottinns Sigurvinning; þetta maa eitt Guds Barn ödru fagnandi kunngiöra, og þessum eilijflega Lofsverda Guds Velgiörningi af Hiarta hroosa hier i Naadinni, enn þar fyllilega i Dijrdinni

Vaktararnir skielfdust, og urdu lijka sem væru þeir daudir: þad kiennir, ad fyrir Krapt Jesu Upprisu kunni sierhvor Guds Vinur med alvarlegu Framhalldi Andlegrar Upprisu, ad nidurbriwota alla þaa Hæd, sem sig upphefur i giegn Gudleaum Vijsdoomi, og burtreka alla þaa Satans-Vaktara, sem hindra vilia i nockru slijkt Andlegt Saaluhiaalpar Verk, þvi þeir formeiga alla Hluti fyrir JEsum sem þa maattuga giorir: enn þo þetta faai ad kosta Strijd, þad fær og so ad vera, þvi hver fær Coronuna, nema saa, sem berst og yfirvinnur? enn swoslegum Adburdum Mannsins i þessu, samteingist hinn mikli Guds Kraftur af Himnum, hvar fyrir slijkt verdur ad Verki og Framkvæmd: Er hier og, þu Madur, ecki um neina Smaamuni ad tebla, fyrir hveria Menn þo Stundum mikid vinna, helldur um Hnoss eilijfrar Æru, hlaupid þvi so þier høndlid þad, 1. Cor. 9. v. 24. Siaa hier og aa Vokturunum Ímynd illra Manna, og þann Oræka Vott þeirra Verka, Samvitskuna, sem meir maa enn Þusund adrir, og naa þar næsta vel til Ord hinns Vijsa, þa nockur er, segir hann, so Efabiandinn, þaa giorir þad hanns eiginn Illska, sem ber Vitne yfir honum, og fordæmir hann, og ein hrædd Samvitska væntir ætijd hinns versta, þvi ad Hrædslann kiemur þar af, ad eirn treystir sier ei til ad forsvara sig, og veit sier aungva Hiaalp, enn hvor sem lijtid Traust hefur i sijnu Hiarta, han giorir Vijlsemdina stærri enn Plaagann sialf,

þessi

þeßir eru siaalfum sier þijngri, helldur enn siaalf Myrkurinn. Sap. 17. v. 21. Hier af sier þu mijn Saal, ad Daglegt Sælgiæti sie ad hafa gooda Samvitsku, og saa Riettur er ecki giefandi fyrir allar Veralldar Kræsingar.

Minn JEsu, vilie mijn Samvitska fordæma mig, þa skal eg flya til þijn fyrir Taarinn, vitandi, ad þu ert meiri mijnu Hiarta, og villt þad Fridstilla. Hrædi mig Logmaalid, skal eg og flya aa þinn Fund, sem Logmaalsins Bolvan hefur i Bleßan snwid, þinn Betalingur er miin Borgun, hana hefur Gud giefid mier, hvors Verks hann ecki ydrar, nie þad aftur tekur; enn hitti mig saa Harmur, ad eg i þeßari Før til þijn, minngoodi JEsu, taki til ad sockva sem Petur aa Sioonum Fordum, þa mun þijn Myskunar-Hønd, sem alldrei verdur stutt, taka til mijn sem hanns, so sem þad hefur hijngad til verid, so mun þad hier eftir verda; þeßari Bæn, Trw og Huggun laat oß þijn Born alldrei sleppa, AMEN.

# 6. Capituli.

### Um Samtal Kvekaña aa Veiginum til Grafariñar.

OG Kviñurnar sogdu sijn aa milli, hvør mun vellta fyrir oß Steininum af Grafar-Muñanum? Þvi ad hañ var næsta mikill, og þa þær litu vid,

saau þær Steininn afvelltann, og fundu ad Steininum hafdi verid vellt af Grøfinnl.

ÞEgar þessar goodu Kvinnur fooru ad heimann, giordu þær einginn Raad fyrir þvi, ad nockur Hindran mundi uppaa fyrir þeim falla i aaformudu Verki, enn aa Veiginum fiell þeim inn þessi Ottans Þaanki umm Steinsins Afvelltingu, og giættu þaa hid fyrsta sijns Vanmaattar hann burt ad hræra; samt hielldu þær aafram Ferdinni, hvar vti Elskann sijndi sitt Audkienni, sem ei lætur sier neinar Hindranir aftur snwa, hellldur er þolinmood, og hefur alltijd gooda Von ad sinn Vegur muni greidast. Og er þad hier vt af vel athugandi, ad nær eirn og annar Guds Vinur vill eitthvad gott Verk vinna, falla oft fyrir i þvi Aformi og Verki ymislegar Hindranir: Stundum onaada oss vorar eiginn Innbirlingar, og Kviijdi fyrir einu og ødru okomnu, þar þo hvorium Degi nægir sinn Þiaaning, Matth. 6. v. 34. J hveriu ad siaa maa Lijking þess Strijds sem er aa milli Holldsins og Andans: Stundum koma i Veiginn Utvortis afraadandi Hindranir margvijslegar; og hvor kann i stuttu Maali upptelia alla þa Steina, sem hier falla i Veg fyrir oss? suma leggia adrir, þvi ærid margar eru Hneixlanir Veralldarinnar; Suma vier siaalfir, oft bannar Ottinn oss ad vera aa Ferd i biortu, sem Nicodemo, Joh. 3. v. 2. Dramb, Agyrnd og Leti,

skwa-

inwa 'morgum fraa Dygdaña Veige, Iz Einu Ordi ad segia, saa goodi Vegur er opt med ymsum hoggnum Steinum til-mmradur. Hier fyrir utann hlioothum vier Steina margra Eynida og Erfidis ad bera, undann hvorium opt verdur saart kveinad. Logmaalsins Steirn liggur nærsta þrongt aa veikum Manni; hvor mun lietta þeirri Byrdi? Hvor mun honum burtvellta? Þessi Steirn hootar margri Bolvan, fyrir þad hann verdur ei borinñ so sem ber, enn vorkieñir ecki Maattleysid, nie giorir Raad fyrir þvi: Hvor er þa Vorn vid þessum Voda? Eirn Jesus, og einginn annar, þvi hañ hefur þessa Steins þrongri Bolvan burtvellt, edur Logmaalid uppfyllt; þad eigum vier honum ad þacka. Þa er enn þa annar Steirn, sein margañ og þiaair, sem er Krossins Steirn, og ymsra Mañs Rauna, Matth. 11. v. 29. Ecki vill oss greidt veita, med vort Eindæmi þessum burtvellta; Þad siiniist og sem þessi Steirn sie ecki eins þrongur aa allra Herdum, og trwi eg ad einginn skamti sier slijkt allt siaalfur, Gudhrædddir Meñ saa opt ad bera hiñ mesta Þwnga af honum med ymsu Mooti, Eirn Dag eptir Annann; þegar adrir hlæia og leika lystugt fyrir med miklum Spreitingi aa Hiooli Luckunnar, meiga þeir graata og taka til Þacka ymsar Mann-Raunir, sem noog eru Dæmi til, Forn og Ny. Sooddañ Kross-Steirn er med morgu Mooti, enn situr þo hvor ein hanns Tegund fyrir Mannlegum Kroptum, sem hvorki eru a

Kopar nie Steinum: Þolinnmædiñ giorir þeirra Byrdi liettbærari. Stundum finnst hier Hrongurjins Steirn, hvorium sa Forsiaali Joseph ei gietur fraa ollum burtkastad. Stundum Strijdsins, hvorium Kongurinn, þo hann komi til med sijna Magt, fær ecki alltijd fraahrundid. Stundum Steirn næmra Smokdooma, sem Læknirinn gietur ecki alltijd mijkt. Stundum Fangelsesins, sem Vinirnir faa ecki jafnann bætt. Stundum Skipsreikans, fraa hvorium Segl og Arar hiaalpa ecki alltijd. Stundum Elds-Vodans, hvorium Vatnid fær ecki alltijd burt-fleytt. Stundum Steirn saarra Freistinga adskiliannlegra, og ymislegs Bols, sem morgum verdur þelgi-liettur, hvorium fagrar Fortolur ecki faa jafnann burthrundid. Hvor hellst Mootlætis-Steirn, sem þreingia vill mijnu Hiarta, þa veri hann mier i Jesu Nafni velkominn, honum er ecki um Megn ad hiaalpa mier ad bera hañ, hañ veit af hvoriu Verk-Efni eg er skaptur, og ætlar ollu sem nærst, hañ sikrar þad beiska, snijr Vatni i Vijn, og hefur noogar Dyr, fyrir hvoriar hañ kañ mig burtleida, þegar hañs Milldi þocknast, nu fraa þessu, nu fraa odru, og loksins ad ollu Leiti; hier uppaa skal vona; hier vid sig gledia, og honum ætijd med Taarum tilsegia, þvi þessarar Moodur Cyra heyrir fliootast i Neydinni, og huggar best i Freistinguñi, hann hefur þær aadur reynt, hann veit best ad vorkienna þær, hann giorir farsælañ Enda aa þessu ollu sam-

añ. Medal allra hiernefndra og hvilijkra Steina, er ecki ad eins Syndarinnar helldur Priootskunnar i henni ad blijfa, hinn versti og stærsti, Es.48. v.4. Ezech. 11. v.19. Þvi hann spyrnir fraa þeim Edla Læknirnum JEsu, sem oll Mein og Saar kann og vill græda, aa þeim sem til hañs koma; þessi Steirn steipir Saal og Lijkama i Eilijfa Eymd og Vesolld, nema sonn Yoran komi aa milli, Joel. 2. v.13. Þessi Steirn heitir og Ydrunarleysi, hvorn Diofullinn opt iñsiglar med Priootskuñi, er sig auglijsir Offialldann a hanns Prælum, hvorier ad sialfsir eru so hardir Steinar, s.d aa þaa vinnur ecki Vidsmiõr Guds Velgiorda, Lainglundar-Gieds nie Polinnmædi, ei helldur Vijn Guds Bendinga, Hootana nie Amiñinga, þeir laata allt hanns Raad fara, enn Sathan maa rijda þeim hvort hann vill. Vara þig, aumur Madur! ad þessi Steirn verdi þier ecki ad Meini, vellt þu honum burt i Guds Nafni og Krapti, med Hondum hreinnrar Ydrunar, so fær hañ þig ecki skadad. Eingill þess mikla Raads, JEsus Christur, er i þvi Verki alltijd til Reidu ad veita þier Fulltijngi, hvad stoor og morg sem Syndinn er aadur verdinn, Jaa, hvad sem þig hendir, þaa snw aptur sem skiootast med Taarum, þvi ecki vill JEsus þijna Glotun, þar um maattu vera noog sannfroodur af Guds Ordi.

O HErra JEsu, hardt þreyngir Syndinn ad minni Saalu, þvi eg hefi so margt illa giort, mijn Vondska er ætijd mikil, þad segir mier mijn Sam-

vitska,

vitska, hun hefur þad uppaa Reikning skrifad, so vill og Satan opt hindra mig aa minni Ydrunar-Reisu til þijn, og leida mig i Efasemd um̃ þijna Myskun og mijna Velferd. Sæti JEsu, feinginn kann þetta Biarg i burt ad taka nema þu alleina, Þvi skrijd eg syndugur Ormur ad þijnum Footum, og bid þig Hiartannlega, ad taka þad allt i burt fraa mier, sem mig kann i nockru ad hindra til þijn ad koma: Gior þu, sæte Myskunar þinnar, Oveigi mijna ad Vegum, og Myrkurinn ad Liooſi, so eg hwngradur eptir þier, meigi þig alltijd finna, þvi nær eg sie þig, fagnar Saalinn, og auglijsir þann Fognud heimuglega og opinnberlega, Amen.

# 8. Capituli.

## Um̃ Grofina.

DOg Kvinurnar stigu iñ i Grofinaꝛ og fundu eckí Lijkamañ JEsu.

Sw eina Sorg Kveñanna var nu bætt, Steirninn var afvelltur, fyrir hvorium þær þo kvidu. Þu skallt ecki kvijda stoort fyrir þvi Okomna, christinn Madur; Ad Ovorum̃ Abraham tilsetti Gud Offrid i Stadiñ hañs Sonar fordum, Gen. 22. v. 13. Treystum Gudi, hann kann ollu vel til Vegar koma. Enn falli þier einhvor haſtarleg og oforvaraňdis Sorg uppaa, þa vertu

þo ecki Vonlaus, legg þig i Faang DRottins þolinmoodlega, so hiaalpar hann þier; ef þu bidur og bijdur hanns, so tekur hann ecki leingi, hafir þu JEsum i Minni, so man hann til þijn, leita þu hanns fyrir sanna Ydran, og drag þad ecki leingi undann, Þvi leitir þu hanns af ollu Hiarta, so lætur hann þig finna sig. Enn vilier þu nu spyria, hvar aa eg ad leita? Edur: Hvar mun eg finna JEsum, sem bædi vill og kann hugga mig, og bæta allar mijnar Meinsemdir? Þu heyrir hier af Textanum ad þessar Gudhræddu Kvinnur hafi leitad Guds Sonar i Grofinni, þar sem þær vissu ad hanns Lijkami hafdi lagdur verid: Ad sönu kant þu ecki ad komast til þeirrar somu Grafar sem hier er um̃getid, edur giora þier Reisu til þeirrar wthoggnu Josephs Grafar, hvar Lausnarin̄ Andvana hvijldi, og þo þu villdir hafa Erfidi og Um̃kostnad þar fyrir, hvad ad sonnu med Tijmanum vinnast kinni, þa giorir þad þier þar eckert Gagn i þessari Grein, þvi soddann Pilagrijms Reisur eru þier ecki bodnar i Guds Ordi, miklu helldur vijkur þad fraa riettri Trwarinnar Reglu, ad forma slijkt i hier sagdri Meiningu, edur ad Saalinn skuli þar nockurt Gagn af hafa. Þu skallt, christinn Madur, athuga þetta odruvijsi, og snwa þvi aa gagnlegr Veg, og vitia soleidis andlega Grafar þijns blessada JEsu, so þu siert þo aa einhvorn goodann Veg samferda þessum Kvinnum.

Þu skallt fyrst, i Grof þijns DRottins, athuga

sialfs

ealfs Þijns Dauda, og Burtferdar Stund fraa
siessum Heimi, þvi nær þu hier vid skilur, er þier ad
Guds Vilia i Grøfinni Vist og Vera ætlud, (hv-
er einu goodu Guds Barni verdur farsæl Roose-
mi) þvi þad er tvijl-laust, eptir Guds Orda Fyrir-
sogn, ad allir vier saum þessari Daudans Vita-
Skulld einhvorn Tijma ad giegna, vid þessu meig-
um vier allir bwast. Ad hupa þar um Daglega,
og med Gudrækilegum Undirbwningi i sannri Yd-
ran oss þar til ad reida, hiaalpa oss øllum minn
goodi JEsus; so þegar þetta auma Lijf eitt sinn endar
i Daudanum, þaa meigi og øll vor Eymd og Neyd
wti og endud vera, og vier mættum i þier, þu lifanda
Lijf, lykta þetta Lijf.

J annann Stad skalltu, Guds Barn, so huglei-
da þier til Huggunar Grøf Þijns blessada HErra,
ad þu vitir og vidkannist, ad hann med sinni Grept-
ran hafi helgad Grøf þijns og mijns Lijkama, so
hun er nu ordinn fyrir hann eitt sætt og eptirlaung-
unarsamt Svefn-Herbergi þreittum Manni, Esa.
26. v. 20. Og þo vor Lijkami, sem er Orma og
Madka Fæda, kolni þar, fwni og for-rotni, þa
gioristi einginn Þorf ad kvijda slijku, þvi Holldid
hvijlist þar i Fridi til þess sijdarsta Dags, hv-
adann þad, forklaarad af DRottins Almætti,
uppreist verdur, og Saalunni aptur med ædsta
Fognudi samteingt. Enn nu a medann eg lifi,
minn DRottinn, til farsællegs Daudans Undir-
bwnings, þegar hann kiemur, hefi eg giort, og vil
fram-

framveigis giora mier Grof, Hæli og Hvijldar, Stad fyrir mijna Sorgfullu Saal og Hiarta i eirnri Biarg-Skoru, sem er i þijnu blessada Sijdu-Særi; Þetta Verk hefur mijn Trwar-Hond fyrir sig tekid, og þu sialfsur hefur giefid mier Leyfi þar til, þvi vil eg þar um̃ mig bwa, og þar feiginn optast hvijla meiga Hug og Hiarta, þvi þar er Lykn og Værd Saaluuni, þar er Svolun og Sætleiki Omælaňlegur, a þessu blessada Mood-ur Briosti vil eg gladur sofna, og þau sijdustu And-artok hafa; so er allri minni Eymd, og sialfsum Daudanum, i besta Sætleik snwid. Þegar þu, minn DRottinn, varst laatinn a Krossenum, lagdi Joseph þig i sijna eigiñ Grof, og wr þeirri Grof Josephs ert þu upprisiñn: Þar af giefst mier ein good Amiuning, sem er sw, ad eg tilreidi sem best eg kann Grof mijns Hiarta, og Herbergi þig þar minn liwfi Endurlausnari; Þu hefur kosid þier sialfsur þennann Hvijldar-Stad, þu hefur noogu dyrt keypt hann, hann skal og verda þinn, eg vil feig-inn þiggia þar þijna Vistar-Veru, hier skal Hiar-ta i mooti Hiarta, og Hiarta fyrir Hiarta giefast. O ein blessud Bijti! Og nu so ad þessi Grof sie ein nij Grof i Lijking þinnar, vil eg Daglega fyrir þij-na Hialp nya hana edur hreinsa med heitum Taar-um hræsniislausrar Yðrunar. O Gud giæfi þad giæti so verid! uppaa þad hun mætti og verda ein stadfost Stein-Þroo, hvoria einginn Orvænting-arsemi kunni fraa þier ad hræra, minn Gud, eing-

eñ

enn Synd i burt ad fæla, eckert Mootlæti bila edur yfirbuga, Rom. 8. v. 37. seq: Helldur faai i þier, ad ollu Striidi, og ollum Ovinum, sætann og farsælann Sigur, þier sialfum dyrdlegann, mier Saaluhiaalplegann, 1. Tim. 6. v. 12. I einu Ordi, snu þu mier DRottinn, so er mier snwid, Jerem. 31. v. 18. Lækna þu mig, so verd eg heilbrigdur, og hvijl þu i mijnu Hiarta ætijd og æfinnlega, Amen.

# 8. Capituli.

Um Einglaña Opiñberan og Bodan Christi Upprisu.

ÞAr fyrir, þa Maria Magdalena sier Steiniñ burt-tekiñ af Grofiñi, hleipur hun, ad hun kuñgiort þetta Postulunum. Og sem Kvinurnar efudu hier uñ, Siaa, stoodu Tveir Meñ hiaa þeim i leiptrandi Klædum, eñ þær urdu hræddar, og sloou siñi Asioonu nidur til Jardar; þa sogdu þeir til þeirra: Hvad leited þier Lifanda hiaa Daudum? Hañ er eigi hier, helldur er hañ uppristñ. Hugleided, hvorniñ hañ taladi vid ydur, þa hañ var i Galilæa, Seigiandi, þad Mañsins Syni byriadi ad seliast i Syndugra Maña Hendur, og Krossfestur verda, og aa Prid-

-ia

ka Deigi upp ad riisa. Og þær Endurmintust hans Orda.

GUD teblir lijka sem Forkiæring vid Manninn i þessum Heimi; þvi lijka sem þar er ymist uppaa Teninguum, so ellder hier og ymsu: Nu er Gledi, nu Sorg, og þad Stundum sitt aa hvorri Stundu. Gud hefur þessu so nidur radad, þeim sem hann Ottast, til Reynslu og Proofunar, hvorninn þeir vilie skicka sier i hvorutveggiu. J Velgeingninni skal Mann hallda sier i Stilli, þvi saa sem nu er saddur skal þo hugleida, ad aptur ad nyu kann hann hwngradur ad verda, og staata þvi mogulega. J Mootlætenu skal Mann og ecki Orvænta, helldur lijda Þolinnmoodur, þad aa vill driisa, og bijda DRottens Atkvæda; þa mun hann snart snwa Graat i Gledi, so saa sem i Dag nidursaair i Taarum, hann meigi aa Morgun med Fognudi uppskiera, og gleyma so siinu fyrra Angri, Es. 65. v. 16. Og þa er þad, sem hefdi þad ecki verid, nema til Vidurhallds vorum riettu Christinndoom. Jeg minnist aa þar Fyrri Dagana, seigir David, og tala um þijnar Daasemdir. Mun þad ecki enn lijkt vera fyrir Guds Bornum, nær Eirn af þessum finnur Annan, kvedur hvor odrum siin Harma-Kvædi, og þad stundum graatandi gladir, þvi þa er og opt i Talenu, hvorninn Gud hafi Myskunsamlegann tiaad sig i þvi og þvi Efni, og snwid þvi undarlega, og huggar so Eirn Annann med þeirri somu Huggun sem

C Gud

Gud veitti honum, Seigiandi: So foor Gud med mig, hañ man og til þijn; Motlætid er Skierfur Guds Barna, laat þu þad þvi ecki undra þig, Gud Hugsvalar þier um̃ sijdir.

Minn goodi Gud, hondla þu vid mig sem þier lijkar, mier geingur alltijd vel, þegar mier geingur eptir þijnum Vilia, grætir þu mig, so huggar þu mig snart aptur, Gief mier med Þogn og Þolinmædi ad bijda þinnar Urlausnar, Job. 13. v. 15. C. 14. v. 14. Allt Angur mijns Hiarta mun þijn Moodur-Hond hin mivkasta, hier aanægiannlega, þar fullkomlega um̃ sijdir af þurka, Thren. 3. v. 32. Tveir Einglar byrtust hier Kviñunum, Añars hafa Sex Einglar DRottins af Himnum komner sig opinberad vid Grofina HErrans. Saa sem velltti Steinenum af Grafar-Munnanum: Þesser Tveir er stoodu hiaa Kvinnunum, enn adrir Tveir til Hofda og Foota sitiandi i Grofinni, hvoria Maria Magdalena saa: Og saa Eini sem sat i Grofiñi til Hægri Hlidar, skrijddur hvijtu sijdu Klædi, hvorn Kvinnurnar saau til samans.

Þessa sijna blessada Eingla sendi hinn goodi Gud til Huggunar þessum Harmþrungnu Kvinnum, og ad boda þeim Fagnadar-Tijdindiñ JEsu Upprisu. Hann lætur enn sijna Eingla þiena sijnum Utvolldum, enn þo vor Augu sieu ei so upplijst, ad vier siaaum þessa Daasamlega Verndan, so sem þessar Kviñur, þa þreifum vier þo naalega aa þeirra Giætslu. Þad var stoor Gledi-Bodskapur, sem

Jacobs

Jacobs Synir færdu sijnum Harmþrwngna Fødur, nær þeir kunngiordu honum ad Joseph lifdi med Heidri i Ægyptalandi. Gen. 45. v. 26. Enn miklu Ædri er þessi Einglanna Bodskapur, Kvinnunum og oss undir eins færdur, ad JEsus, med Ædsta Guddooms Heidri og Himneskri Sigurvinning sie oss Daudvona og Faarædum Saudum sijnum til Riettlætis uppriisinn, Rom. 4. v. 25. hafi oss opnad Dyr Himnarijkis, sem apturlukt ust oss i Adams Falli, frelsad oss fraa Helvijtis Anaud, og øllum Daudans Voda. Þetta er þad blessada Evangelium, sem oss maa Hiartannlega kiæta. So meigum vier nu i DRottins Naadar-Rijki, lijfgadir af H. Anda, i Trwnni leita þess lifanda JEsu, hvørs Manndoomur uppriisinn er med Saal og Lijkama, og nu lifir, rijkiandi i sinni Guddooms Hætign, hvor oss mun hier i sier lijfgada og Andlegu Lijfi giædda lokkins vr þessum Harma-Dal Heimsins, til eilijfs Lioos og Lijfs med sier innleida. Þessi lifandi HErra hefur oss fyrst þad Naatturlega Lijfid meddeilt, samt allt Eitt og sierhvad, sem þvi sama er til Viðurhallds þienandi, þvi i honum erum vier, lifum vier, og hrærumst vier, Act. 17. v. 28. Jaa, hvad sig nærir, hrærir og bærir, lifir af þessari Lijfsins Uppsprettu. J honum hefur og sierhvør Sann-Christinn sitt Andlegt Lijf hlotid, fyrir Verkan hins H. Anda, og þad fyrst i Skiirninni, hvar vier Hiaalp, Lijf, Boot og Heilsu feingum af hanns Guddooms

Giædsku og Almætti, Ezech. 16 v. 4. 5. Hañ lijfgar oss og Daglega, af Syndunum fyrir sanna Yðran uppriisandi. Cap. 18. v. 21. Af þessari Lijfsins Lind verdur oss og, eptir afstaded þetta Lijf, veitt og giefid þad Eilijfa Lijf, hvar oll vor Hrygd snijst i fullkomna Gledi an Enda. Og nu, minn HErra JEsu, eptir þvi þu ert þad lifanda Lijf, hvort mijn Sæl i Trwnni umfadmar, þa giør þu mig lifandi i þier Lifanda, med Lijfgunarfullri Adstod og Upplijsingu þijns Blessada H. Anda, sem alltijd stioorni mier og stijri, og leidi mig so sijdann af þier Lijfgadann til eilijfs Lijfs. HVAD LEITID ÞIER HINS LIFANDA HJA DAUDUM, segia Einglarnir hier til Kvennaña: Hvorier munu giøra þad nu a vorri Tijd? Sañlega giøra þad allir Munn-Christner Hræsnarar, Ebr. 6. v. 1. sem lætast heita Christi Vinir, enn lifa þoo i ymsu Ranglæti, og leika sier ad Syndum og Løstum, hafa forbrendar Samvitskur, hata Lioosid, og eru fyrir utann þad sanna Lijf, i Christo, Eph. 4. v. 18. J hvorium ad er eitt riettilegt Athæfi; Þessir hallda sig ad lifa, þo þeir gangi daudir, ef þeir ad eins heyra Ordid og brwka Sacramentinn: þad hvorutveggia er ad sonnu til Vidurhallds Andlegu Lijfi, og Huggunar Sañydrandi Guds Bornum, so þau i Christo eilijflega lifi: Enn hinum þad Ydrunarlauslega vanbrwkandi, er þad Ylmur Daudans til Daudans.

Þu sæti JEsu ert vort einka lifandi Lijf, Þu ert

ert vort Lijf i Hormungunum, vort Lijf i Daudanum, vort Lijf i Upprisunni, vort Lijf um̃ alla Eilijfd; lꜳt þu ofs, O HErra JEsu, lifa i þier i einni lifandi Trw, og ꜳ þig, þu sem ert sw rietta Lijfsins Book, innskrifada vera, Phil. 4. v. 3. Opinb. 21. v. 27. Fullvissa um̃ Eilijfs Lijfs Arftoku i Dijrdinni, Opinb. 3. v. 12. Amen.

# 9 Capituli.

Um̃ Utgaungu Peturs og Johan̄is til Grafarin̄ar og hvad þeir sꜳu i Grofin̄i.

OG þær geingu frꜳ Grofin̄i aptur, og kun̄giørdu allt þetta þeim eilefu, og so øllum ødrum. En̄ þetta var Maria Magdalena og Johan̄a, og Maria Jacobi, og þær adrar med þeim, sem þetta søgdu Postulunum, og þeirra Ord virdtust þeim, sem være þad Hiegooma Mꜳl, og trwdu þvi ecki. En̄ Petur stood upp og hlioop til Grafarin̄ar, skigndist in̄, og sꜳ Lijnklædin̄ løgd einsømul, foor burt, og undradist med siꜳlfum sier, þad er skied hafdi, þviad Maria Magdalena hafdi komid til Simonar Peturs, og til hin̄s an̄ars Lærisveins sem JEsus elskadi, og sagdi til þeirra, þeir hafa tekid burt Herran̄ wr Grofin̄i, og vier vitum ei hvar þeir hafa

lagt hañ. Pa gieck Petur wt og sa añar Lærisveirn og komu til Grafariñar, eñ þeir tveir hlupu bædir ærsamt, og hiñ añar Lærisveirn hlieop vakrara fram eñ Petur, og kom fyrri til Grafariñar, og er hañ giægdist þar iñ, sæ hañ Lijnlokiñ løgd þar, eñ hañ gieck eigi iñ. Pa kiemur Simon Petrus eftir hønum, og stijgur iñ i Grofina, og sier ad Lijnlokiñ eru løgd þar, og Sveita-Dwkurin, sem var um JEsu Høfud, ei lagdur med Lijn-Klædunum, helldur sierdeilis samañundiñ i einum Stad. Pa stie og hiñ añar Lærisveirn iñ, sæ er fyrri kom til Grafariñar, sæ þad og trwde þvi, þviad þeir kuñu ei eñ þæ Ritningarnar, þad hønum hefdi byriad upp ad rijsa fræ Daudum.

PAd sierlegasta sem þu, christinn Madur, merkia skallt af þessum Textans Ordum, er þad, ad vera ecki torvelldur ad trwa Guds Orda Sannleika, og draga ecki undanu þæ andlegu Ydranar og Bænar-Leit eptir þijnum Herra, helldur, so sem eirn andlegur Johannes, hradir alltijd þessari þinni For, þvi ei veitst þu hvad leingi þier endast Kraptarnir þar til, nie nær Nædar-Dyrum Drottins er aftur lokad, og merk Dæmi þeirra vforsiælu Meya, Matth. 25. v, 10. et seqv: Ad ei hendi

hendi þig hid sama. JEsus leitar eptir þier Daglega, Daglega wtriettir hann til þijn, og a mooti þier, sijnar Naadar Hendur, Es. 65. v. 2. Kom þvi, Barn Guds, sem hradast, og vird alltijd mikils Herrans Sendiboda, fyrir hvoria hann skickar Bod eptir þier, og þo þier þyki þeir lijtilsiorleigir sumir fyrir þijnum Doomi, þa hefur þu þo alltijd ad virda Gud og Sannleikañ, og hyra þanniñ: minn JEsus kallar, þvi skylldi eg þa ecki koma? So vill hann þa heyra þig nær þu kallar, og, nær þu leitar, af þier fundinn verda. Hier er og ad merkia eina Hugguuar-Grein a Petri; hann komst a fram til Grafarinnar, þo seirna færi. Hafi þier christinn Madur tilfallid Seinleiki, edur Undanndrattur samrar Yfirbootar, þa skalltu þo samt alldrei orvænta þier Naadarinnar, lijka vel þo þvi verdi ecki neitad, ad soddann sie voveiflegt Hætta-Spil, þad stendur þo samt alltijd stødugt, ad ecki vill Drottinn Syndarans Dauda, Ezech. 33. v. 11. Laat vera hann vilie mæla þier þad aptur i þiñ Barm med Hrigdum þessa Heims, ad þu hefur so illa breitt, Es. 65. v. 7. Enn seig mier, hvar til mun þad skie? Til þess, segi eg, ad þu halldir þig ecki saklausann, og þeckir betur hvad adur er skied, og takir so hier wt þad vonda i Lijfi þijnu, med þessum Guds Doomi yfir þier, so ei fordæmist þu med þessari vantrwadri Verølldu; Enn þier byriar ad taka þvi þa vel, og segia med Spamanninum þolinmoodlega i goodri Von, eg vil

bera Reidi DRottinns, þvi eg hefi syndgad a mooti honum; og þa midt i þijnu Harma Floodi, skallt þu umfadma med þijnum Trwar Ormum þetta Huggunar rijka Guds Fyrerheit: nær sem sa hinn syndugi snijr sier og giorir riett og vel, skal hanns fyrri Synda alldrei framar minnst verda, Ezech. 18. v. 21. seq: Jaa, þu skallt Jhuga Sancti Pauls Ord; þad er dijrmætt verdugt Ord, ad JEsus er kominn i þennann Heim syndug Menn Saaluhoolpna ad giora; og ber so allt þetta samann vid JEsu Vidhondlan vid þann ydrandi Ræningia, samt Fodursins vid þann fortapada Son, og muntu þaa sannydrandi finna, ad þu hafir ei Orsøk ad ørvænta. Þad er hier ad auki athugandi, ad þeir Hlutir sem beviisudu Christum sannarlega af Dauda upprisinn vera, og þessum Guds Astvinum þiena mættu til eins Gledifulls Huggunar Teikns, sem var Grafarinnar Opnan, og Christi Burtfør wr henni, þad giordu þeir sier, þo sierdeilis Maria Magdalena, sem þar fyrir harmadi, ad einu Sorgar Teikni; og skiedur slijkt oss eirninn optlega: þvi þegar Kross og Hormungar mæta oss, þa meinum vier þad Reidi-Teikn Drottinns, og so sem eitt Skilnadar-Bref vid hann, lijka sem hafi hann sijna Naad og Huggun innibyrgt i soddann Tilferlum, og forgleimt leingur Myskunsamur ad vera, Thr. 5. v. 20. Þar þo Krossinn er eitt gott Teikn: edur eru þad ecki lioos Ord, og øllum skiliannleg sem þar standa,

Ebr.

Ebr. 12. v. 6. og 7. Ad hvørn þann sem Drott-
inn elſki, þann ſama agi hann; Og aptur: Ef þier
værud aan Tiptunar, þaa værud þier ecki Born,
helldur hiaa-Born: og ſaa ſem ſlijks giætir, og ber
þolinnmoodur þeſſar Kroſs-Reynſlur DRott-
inns, hann hefur ſoddann eitt Fyrirheit af honum:
Med þvi þu hefur vardveitt Ord minnar Þolinn-
mædi, mun eg vardveita þig aa Freiſtingar-Tijm-
anum, Apoc. 3. v. 19. Hyggium ad þeſſu,
þier Guds Vinir, og laatum oſs ei vera ſo fram-
andi og Þeckingarlauſa i ſoddann Kroſs-Skoola,
hvørier þo vilium heita JEſu Læriſveinar. Edur
hvørninn maa vid Sælkiera Heimſins, og ſijhlæ-
andi Menn, ſegiaſt þetta ſijdar meir? Þetta er ſa
Madur ſem komiñ er wr miklum Harmkvælingum
og hefr yfirunid ſyrir Lambſins Blood; þo nu Holld
og Blood vilie ecki laata ſier þetta ſegiaſt og þvilijkt,
þegar nockud ber ad Hondum, þa munum vier þo
ſanna Kroſsinn ſijdar meir ad hafa verid Aſtar Te-
ikn lifanda Guds. Ad ſijdurſtu hygg ad, mijn
Saal, ad hier voru Drottinns Nar-Klædi eptir
i Grofinni, hvør hañ took ei med ſier nær hanu upp-
reis, hann var aa Kroſſenum nakinn pijndur, þar
maattu allir ſiaa hanns al-Blooduga og Beniumt
þackta Lijkama, enn hanns Klædum ræntu hanns
Kvalarar, þau liet hann eft r i Heiminum: Eins
ſkiedi og hier; Hanns Lijk-Blæa maatti eftirligg-
ia. So veit eg og, ad eckert ber eg i burtu wr
Heiminum, eg kom hijngad nakinn, eg fer og bur-

tu nakinn; og hvad skulu þa þau stooru Veralldar Manna Umbrot? Þetta skal kienna mier ad vera ecki of-gijrugur eftir skamvinnum Aud þessarar Veralldar, liika og ad reisa ecki Holldid med ofmiklu Eptirlæti; Eptir Himneskum Rijkdoomi vil eg sækia, og eilijft Sælgiæti þreygi eg hwngradur, og sein komid er ad þvi þraungva Hlidi sem þar til liggur, og hin sarkalldi Dauda-Sveiti vill sundra Samvister Saalar og Lijkama, vil eg þaa sijdustu Daudans Skaal so afswpa, ad eg sijnge undir eins yfir henni mijns JEsu Minning, og i hanns Sveita-Dwk innvefia mitt Hofud og Hiarta, þar med vil eg minn Veg hiedan giora wr þessum aumu Veralldar Herbwdum: leggist þaa þijn Lijk-Blæia, minn goodi JEsu, þad er, þitt Rietlætis Klædi, i þeim sijdurstu Strijds-Lokum yfir mijna mædda Saal, og taki so þijn Hond full Lyknar og Oumrædilegrar Myskunar vid ollu samann, mier deyandi, og mijnum eftir þreyandi; Bænheyr mig hier um minn Gud, Amen.

# 10. Capituli.

Um þad hvorninn Englarnir og sialfur JEsus Opinberudust Mariu Magdalenu.

Þa geingu Lærisveinarnir burt heim aftur, en Maria stood vid Grofina og gret þar wti fyrir, og er hun gret, þa giægdist hun i Grofina, og saa tvo Engla hvijtklædda sitiandi

þar;

þar, eirn til Hofda, og añañ til Foota, þar sem þeir hofdu lagt Lijkamañ Jesu, og þeir søgdu til heñar: Kona, þvi grætur þu? Hun sagdi þeim: þeir hafa tekid burt Herrañ miñ, og eg veit eigi hvar þeir hafa lagt hañ. Þaa hun hafdi þetta sagt, snerist hun vid, og leit JEsum standa þar, og vissi þo ei ad þad var JEsus. JEsus sagdi til heñar: Kona, þvi grætur þu? Ad hvørium leitar þu? Eñ hun ætladi Jurtagards Mañiñ vera, og sagdi til hañs: Herra, ef þu barst hañ burt, þa seig þu mier, hvar lagdir þu hañ? Og eg vil sækia hañ.

SÆlir eru þeir sem Harma, segir JEsus, Matth. 5. v. 4. Þvi þeir skulu huggadir verda. Harmurinn er med margt Slag, ollum Guds Barna Harmi eftirfylgir Huggun af Drottni, annadhvort hier edur sijdar, Jaa, lijka vel hvørtveggia. Margur grætur leingi sijna Elskulega Astvini; Abraham griet Saram, Isaac sijna Moodur, Jacob Rachel, David sinn unga Son, Jeremias Josiæ Kongs Afgaang, og Maria hier JEsum siaalfann, af þvi hun fañ ecki hañs Lijkama; og hefur margur sem grætur miñna Graats-Efni, ef eftir Mannlegum Plagsid skal tala, hvørium Guds Myskun lijka vægir og vorkieñir, sem best

þeckir

þeckir vora Vesölld og Veikleika, þad mæ medal annars siea af hañs Raadar Vidhondlan vid Eckiuna i Naim. Maria var einfolld og vissi ecki Ritningarnar, hun skilldi ecki af þeim þetta Guds asetta Hiælpar-Raad, og þvi var henni nærst ad hallda JEsum burt-tekinn.

Myrkrid er Ovidkunnannlegt, Liooßinu fagna þess Elskendur, þetta styttir Stundirnar, hitt eykur Laangsemina. O hvad sært Harma-Spil er þad, ad finna ecki nie fornema JEsu Huggunar Byrtu, og hanns Raadar-Nalægd, Lofkv 3. v. 1. Hvilijka Huggun skal sæ hafa, hvad kann hann ad gledia? Enn, min Saal, giæt þu ad þijnum Eymdarhætti, opt hendir þig verra eñ Mariam hier, ecki taka þijnar Syndir þig allttijd sært til Hiarta, hvoriar þo Adskilnad giora milli Guds og þijn, Es. 59. v. 2. Medann þu ert i Utriettingum Gyrnda þinna, þa giorir þu ecki Raad fyrir þvi hvad æ eptir muni koma; Þu vegur ecki æ medann hvad þwing su særa Hrygd sie ad tijna Jesu, og siea hañs æ Bak, lijka vel hendir þig opt sw Blyndni, ad þu meinar hann i Ferdinni, sem Maria hañs Moodir, og geingur so fram marga Tijd, ad þu giorir þier ecki añt um hanns Eftirleit, enn eptir æ seirna maatt þu leita hanns med beyskum Tarum og Hiarta-Sorg, hvorium þu tijndir fyrir Glalijfis og Gleimsku Sakir medann þu elskadir meira Myrkrid enn Liooßid, Joh. 3. v. 19. Þa segir þu, þeir hafa tekid burt Herrañ minn, og eg veit ei hvar þeir

hafa

hafa lagt hann: Enn hvor took hann burt; Nema Synder þijnar? Þu siaalf, mijn auma Saal, hefur burt rekid hann. Mich. 3. v. 4. Jaa, þann sem er þitt Lioos, þijn Heill, þitt Riettlæti og þinn einka Fognudur: hvorium villtu þa um̃ kienna nema siaalfri þier? Joel. 2. v. 12. Enn, mijn Saal, hast þu slykt einhvorn Tijma skorid þig saart, leik þier ecki ad þvi optar, fyrir Guds og þinnar Velferdar-Sakir; Haf hier eptir betri Vakt a þijnum Herra, graat þu beisklega Syndir þijnar, kalla eptir þijnum HErra, og þar hann hefur bedid marga Stund eptir þier, Ezech. 16. v. 6. So bijd og þolinmood eptir honum, Ps. 27. v. 14. Og giæt þu Sakarinnar, gior þu þetta, þa, so sem Maria fann loksins JEsum, so fær þu og med Fognudi hañ fundid, hvar um̃ allmorg DRottins Oraskanleg Fyrirheit þig hughreysta.

Þeirri leitandi og hryggvu Mariu byrtust hier Fyrst Tveir Einglar henni til Huggunar. Ord Guds og Sacramentinn, med Fiolldа þeirra, sem þad frambera, og wtrietta, byrtast þier hier eirniñ opt: þad þacka þu Raad Guds: fyrir þessa Sendi-boda talar DRottinn til þijn, aamiñir þig og huggar, hlijd þvi fyrra, kiæt þig vid hid sijdara, so sem grætid Barn vid goodrar Moodur Ord. Og lijka sem þesser blessudu DRottins Englar voru hvijtum Skrwdaskrijddir, auglijsandi þar med Dijrdar-Vegsemd vors HErra, so ættu sijdarmeir a Himnum i Ædstu Vegsemd Einglunum

lijk

lijk ad verda; eptir þad þu hefur þañ svarta Hrigdar Brýning borid hier i Utlegdinni, att þu þar fyrir Hendi, a Landi Lifandi Manna, hvijtann Riettlætis-Skrwda, Opinb. 7. v. 14 J hvorium þu ætt ad liooma eilijflega. Þetta og þvilijkt skal nu lietta þinn Harm, og kiæta þitt Sorgfulla Hiarta, um a medann þessi Fognudur er þier ecki til fulls afhendtur, þa hefur DRottinn klædt þig skiærum Riettlætis-Skrwda i Skijrninni, Tit. 3. v. 5. Hvorn hann og endurnyar i Kvølldmaaltijdarinnar Sacramento, og hafir þu gooda Voktun a honum, eru DRottins Einglar alltijd til Reidu ad hiaalpa þier, vernda og vardveita hvar þu ert edur fer, hvort þu Sefur edur Vakir, Ps. 34. v. 8. Soddann allt odlast þeir, sem a DRottni Vakt hafa. Hier ad auk seigir Textinn, ad su Sorgfulla Maria hafi Loksins feingid ad siaa þad sem hun so miøg þraadi, og eptir hvoriu hun leitadi, edur siaalfann JEsum, hvorn hun hugdi Jurtagards-Mañenn vera. Hier fær þu nu þad sannad, mijn Saal, ad hvor sem harmandi leitar JEsu, hañ fiñur hann. O hvad stoor Hiartans Gledi er soddañ! þo verdur siu Gledi þvi stærri, sem Hrygdarsullrar Eptirleitunar Varaunlegleiki hefur meiri verid ad undañsornu, Jaa, hvi sætari verdur þa Funduriñ.

Eptir þier, minn JEsu, þraai eg marga Stund, O hvad miøg langar mig ad meiga sem fyrst koma til þijn wr þessu leidigiarna Lijfi! Eñ, mijn Saal, vert þu til Frids, laat þier ei leidast ofmiøg þessa

Bid-

Bid, þu sœr so opt ad siaa JEsum þig glediandi nu i Tijdinni, og þo saa Huvangs Sœtleikans Smeckur verki i þier Leida Hiervistarennar, og Laungun i Himinum, hvad villtu þo annad, enn bijda þolinmood Brwdgumans Tilkomu, Matth. 25. v. 5. etc. Kannskie Bidinn sie styttri enn þu ætlar, og þo hun eñ laung vera kynni, þa er hun samt stutt fyrir Gudi. Hugleid enn framar, ad þo Maria særi hier villt um Persoonurnar, þa er JEsus þo samt eirn Urtagards Vordur, hann bætti þa vondu Gard-Voktun Adams, so og lijka þijna, mijn Saal. J Alldingardenum byriadi JEsus Pijnuna, og i honum endadi hann hana, J Alldingardenum uppreis hann fraa Daudum, og sialfur er hann hinn besti Alldingards-Vaktari sinar Christni, sem friofgar oss sijna Kvisti. J Alldingardi vors Hiarta hefur hann innrætt sitt H. Ord, af hvoriu Sædi ad vaxa hiaa Guds Bornum sætir Dygda Avexter, Elska, Trw, Þolinmædi, Hoogværd, Lijtilæti og meyra soddann, hvörier Avexter hann sialfann gledia. Nu þo mitt Hiarta, O HErra JEsu, sie af þier eirn vokvadur Alldingardur, so ber þad þo, þvi verr, opt eirn slæmann Avoxt, Devt. 32. v. 32. og marga Illgresi, hvort upp ad ræta mier torveldt veitir, nema þinn Kraptur sie þar til minn Styrkur, og verki ad þad vinist.

O JEsu mitt eina Traust, hvors Inndæli þad er, ad hialpa naudstoddum, væg þu mier aumum, og formæl mier ecki sem þvi Avaxtarlausa Fijk-

iu-Trie, Marc. 11. v. 14. Veit mier Vanmaattugum og alls þurfandi Fulltijngi þinnar Naadar, og Fødurlegrar Adstodar; samt øllum mijnum sam-christnum, Amen.

## II. Capituli.

Um Samtal Christi vid Marin hiaa Grøfiñi.

JEsus sagdi til heñar: Maria; hun sneriſt vid, og sagdi: Rabbuni, þad kallaſt Meiſtari. JEsus sagdi til heñar: Snertu mig ecki, þvi eg er eñ eigi uppſtijgiñ til mijns Fødurs. Eñ far til Brædra miña og ſeig þeim: Eg fer Upp til mijns Fødurs og ydvars Fødurs, til mijns Guds og ydar Guds. Þetta er Maria Magdalena, fraa hvørri JEſus hafdi wtrekid Sio Diøfla, hvørri hañ birti ſig fyrſt, eptir þad hann hafdi ſneina Morguns Uppriſid aa Fyrſta Degi Vikuñar. Og hun foor, kom og Kuñgiordi Lærisveinunum þeim ſem med honum høfdu verid, ſem hørmudu og grietu: Eg hefi ſied HErrañ, og þetta ſagdi hañ mier; og er þeir heyrdu ad heñ lifdi, og hañ væri Siedur af heñi, trwdu þeir ei.

SAl mijr, hygg þu ad þessu nockud framar, og sia, ad þa hid fyrsta took allañ Harm af Mariu, eptir þad JEsus hafdi kallad hana med Nafni, og hun snerist vid honum, komst til hinnar sønnu Þeckingar, og veitti honum hinn rietta Wrutitil. Þa nefnir JEsus þig med Nafni, þegar þu tekur til þijn i Huganum, nu þessa, nu adra, Aminning, nu þessa, nu adra Hugguñar Grein, enn þo slijkt sie til margra sameiginnlega talad; Jaa, þegar JEsus i einu og ødru Angri talar so i Einrwmi til þijns hryggva Hiarta: Þu ert minn, græt þu ecki; Vert þu gladur i Von goodrar Endalyktar; Þu aatt mig ad, eg skal hiaalpa þier, og leida yfir allt þad, sem þig hrædir og aangrar. Soddann fær þu og opt ad reyna, i Verkum og Vidhøndlan þijns HErra vid þig; Margt gott Meistara Verk hefur hann aa þier giørt; Margann Diøful hefur hann fraa þier rekid, bædi Syndarinnar, med Andlegri Umvendan, og Fyrirgiefningu; So og Haaskans og Olucknnar, med naakvæmri Verndan; Ps. 107. v. 2. seq. Þetta opt þeckiannlega, optar Oþeckiannlega; Opt hefur hann huggad þig, þegar þins Vidleitni annara i þvi, hefur þier ecki hrifid; Opt hiaalpad þier, þegar adrir hafa þad ecki gietad, og stundum ecki viliad hiaalpa þier, og þetta bædi aa Saal og Lijkama, fyrr og seirna, Leint og Opinnberlega. Þu sier hier Haaprysannlegt Meistara Verk aa andlegum Hlutum, og

 þar

þar nærst a Lijkamlegum, hvort sem þu rennir Auguhum, Hugskotsins edur Lijkamans; Rennir þu þeim til eins hardsvijrads Syndara (hvors Yfirlitur nu mædir margra Sioonir) þa sier þu hanns mikla Langlundar Gied, eptir Syndaranum bijdandi. Og hvor kann hanns Meistaraleg Mÿskunar og Dasemdar Verk upp ad tala? Auk þessa hugleidum, Saal mijn, hvad JEsus talar hier framar til Mariu; Snertu mig ecki, seigir hann: Hvar fyrir mundi hann so tala? Þad vilum vid seirna meir framar skoda, enn vit þo, ad ein sterk Trw hefur ecki Aþreifingar Þorf, Mioolkinn er Barna Fæda, eñ Megn Matur fullkomins Manns, Ebr. 5. v. 12. Hier nærst sendir Frelsarinn Mariu til Lærisveinanna, hvoria hann kallar sijna Brædur, og bijdur henni ad færa þeim þessi sijn Ord; Eg fer upp til mijns Fodurs og ydar Fodurs, til mijns Guds og ydar Guds. Þessi Ord hafa i sier stoora Huggun og sæta Endurnæring. Hann kallar þaa hier sijna Brædur, sem þo hofdu hneixlast a honum, hann yfirgiefid og afsvarid; Þessar brotlegu Skiepnur sijnar, kallar saa hædsti HErra og eilijfi Gud sijna Brædur, þar þo opt auglijsist, ad einn Syndugur Jardar-Ormur bistist vid, og þykir Osæmd i, ef einn Vesælingur nefnir annann sier Ædri, Gal. 5. v. 26. sinn Broodur eda Systur. So hatt er varinn Mannanna Drambsemi, ad þeim þikir þad Læging sem Gud sialfur lætur sier linda;

Skamast meiga Menn sijn optsinnis, ef þess være giætt; Von er þvi til þess, mijn Saal, þo JEsus bioodi þier ad læra af sier Lijtilætid, Matth. 11. v. 29. þar hanns astwdleg Audmijkt skijn so lioost og berlega; og enn hefur hann sama Gied slag: Hañ kallar þa enn og vill þeckia fyrir sijna Bræður, þo Syndugir sieu, sem ei mootstanda Heilogum Anda, P. S. 7. v. 51. helldur laata hann rada sier og stioorna, giorandi sanna Ydran og Yfirboot; Þad maa sia af Matth. 12. Capitula. So er eg þa, minn JEsus, og so þinn Broodir, Ebr. 2. v. 11. þo nærsta syndugur sie; vona eg mig samt ad vera eirn af þeim Bornum sem þinn Fadir hefur þier giefid; Þu hefur samteingt þier mitt Holld og Blood, þvi er eg med þier Erfingi þijns og mijns Guds og Fodurs; Þu ert Guds Eingietiñ og eilijfur Sonur, Heilagur Hreirn og Syndurunum fraaskilinn, hinn frijdasti og fegursti, blijdasti og astudlegasti; Enn eg er ad Arfleidslunni þiñ Broodir, Gal. 4. v. 5. þvi Gud hefur mig i þier, og fyrir þig, Arfleidt til Audlegra og Himneskra Giæda; Minn Broodir ert þu, þu hefur mier allt tijd audsynt allt gott Brooderne i ollri Saalar og Lijkamans Naudsyn; Jaa ollum Mannraunum; eg aa þig fyrir Broodur medañ eg lifi, lijka i Daudanum, og eptir Daudann, Jaa alltijd eirn goodañ nærgiætiñ, milldañ og mysk unsamañ Broodur, og hefi eg þo, þvi midur, þetta Bræðra-Lag Tijdum af mier brotid, þo sleppir þu alldrei þinni Trygd og

Trwfesti. Gen. 45. v. 5. Af þvi nu ad þu ert, O JEsu, minn Broodir, þa er eg fullviss um, ad oll mijn Eymd og Vesolld mijst i Fognud; þar af veit eg þad vist, ad þu kallar hier þinn Himneska Fodur og so minn Fodur og minn Gud: Þvi skulu þad alltijd mijn Urrædi, ad flya i sierhverri Hrygd og æliggiandi Naudsyn, i sannri Trw og Trausti, til þessa mijns Guds og Fodurs, þvi hañ veiter mier Vidtoku; Eñ þad ængrar mig og hrædir, ad eg so þrælega hefi þig styggt og moodgad, miñ Himneski Fadir, med Syndum mijnum; Þvi eg er eitt Oblijdid Barn, og Illskann mijn er so yfrid morg og mikil, ad stundum veit eg varla, hvad eg giori. Hegdi sier þvi þitt blessada Fodur Hiarta vid mig i hvort Sinn, sem hollast og hentast sijnist; Eg vil giarnann beigia mig undir allt bad Hrijs, og sierhvorn þann Vond, sem þijn Myskun vill a mig leggia, og taka mier þad til þacka; fullviss um þad, ad þu ætlar ollu sem nærst: margreinda Nærgiætni þijna og Myskun efa eg alldrei, ad eins bid eg þig, minn Gud og Fadir, gack ecki i Doom vid mig og straffa mig ecki i þinni Reidi, helldur tiæ mier, so hier eptir sem hijngad til, midt i Neyd allri, þitt Myskunar-rijka Fodur-Hiarta, og læt þu ecki, O Rottinn minn, adra lijda fyrir þad, sem eg illur Þræll hefi brotid. Þessara strax nefndu Lausnarans Orda skulud þier og vel giæta, elskuleger Guds Astvinir, sem erud Einstædingar og Forsvars litlir fyrir Monnunum, 5. Mos. B. 10. v. 18. lijka

lijka vel hraktir og Foot-trodnir, ofann a adra Eymd og Sorg, þvi Verolldinn plagar ad brwka ecki sijdst sitt Fals og Flaaradi, sitt Stollts og Stijfsinni med ymislegum Rangendum Myskunarleysi og Spieskap vid soddann Guds Besælinga: Þeim verdur sagt, beig þinn Hrigg, vier viljum þar yfir. Huggist þar vid, þo Verolldinn viisi ydur Dyrnar, þa standa ydur þo opnar Myskunar-Dyr Guds a Himnum, sem er ydar Gud og Fadir; Ja, aastrijkur Elsku-Fadmur JEsu Christi, ydar Brooburs, er ydur opinn, lijka sem hann stood hier opinn fyrir hanns, þa fyrir Heiminum Nunadarlausum, Lærisveinum; Efist ecki, verid Hughraustir, JEsus er eins JEsus og hann var þa. JEsus byrtist hier fyrst Mariu Magdalenu, fraa hvorri hann hafdi wtrekid Sio Diofla; Enn sæ eg hier sied, O JEsu, þitt Myskunar-Hiarta, sem best leitar ad tijndum Saudum, og þa fundnu ber med Fagnadi heim a Herdum þier; Þvi soddann sanniydrandi Syndara elskar þu, og villt ecki fraa þier reka, þvi þu ert ecki kominn ad kalla Riettlaata, helldur synduga, til Yðrunar og Yfirbootar, Matth. 9. v. 13. Og þar sem þu þessa til þijn komna endurnærir, þaa skrijd eg a medal þessara, hinn stærsti Syndari, ad þijnum Footum, minn Frelsari, þær fadmandi, fullviss um Vidtoku, og kroptuga Saalar Endurnæring eftir þijnum O-raskannlegum Loforðum. Amen.

# 12. Capituli.

Um Kvenāña Utgaungu i aňad Siñ til Grafarinar, og um Engelen sem þær sau þar og heyrdu.

Og Kvińurnar geingu iñ i Grefina, og sau eitt Ungmeni sitia til hægri Hlidar skrijddañ sijdu Klædi hvijtu, og þær urdu hræddar.

Hvorninn ad Elskunnar Eiginlegleikum sie varid, nær hun er heit, hrein og stadfost, þad auglijsir Ord Drottinns: Hun blijfur og þreytist ecki, 1. Cor. 13. v. 4. Og Daudinn kann ecki ad slijta hana, edur slockva hennar Glædur, Cant. 8. v. 6. Þetta sannadist mikinn Part a þessum goodu Kvinnum; Þeim leid JEsus ecki wr Minni, hañ var þeim Jnnsætur og elskulegur i Lijfinu, elskulegur var hann þeim og eirninn daudur: Þær fylgdu honum eptir a medann hann umgieckst, eirniñ þa hann pijndist, doo, og var greptradur, þær leitudu hanns Harmþrwngnar eftir þad hañ var uppriśiñ, og eckert kunni þær fra hanns Elsku ad skilia. O Gud giæfi! Ad þu christinn Madur elskadir þinn JEsum; An hanns Elsku ert þu ecki ad eins, ecke christinn Madur, helldur Bolvaninni undirorpiñ, þvi hvør hann elskar ecki Drottinn JEsum Christum, hañ er Anathema Maranatha (þad er Bolvadur) segir Sancte Paall, 1. Cor. 16. v. 23. Ad Elskann sie sterkari enn Daudinn, þad sie eg a

sialfs

sialfs JEsu Elsku, er hann hafdi til mijn, hañ lagdi ecki fraa sier þessa Eilsku, þo hann legdi af sier Lijfid, þeir megnu Kvalaña Straumar kunnu ecki ad wtslöckva Elld Elskunnar i mijns JEsu Hiarta; þvi ætti eg eins ad elska þig, miñ Herra, i Krossi sem Kiæti, þviad i Krossinum er ad marka eins Elsku til þijn; Þad maa kalla Matar Ast, ad elska þig ecki nema i Velgeingninni, enn falla fraa þinni Elsku aa Freistingar Tijdinni. Eñ med þvi, Herra Jesu, ad nu er su Tijd yfir oss komiñ, a hvorri virdast ma, ad Elskañ til þijn sie nærsta miog koolnud, þaa virdstu, vegna þinnar heitu Elsku, og Heidurs Nafns þijns, ad styrkia oss, þijn veiku Born, i þiñi hreinni og Omeingadri Elsku stödug ad standa, so vier ecki i henni kolnum med þessari kolnandi Verolldu, helldur upptendrast mættum i heñi, fyrir þann himnesta Astar Elldiñ H. Anda, þu sem elskar þijna Elskendur ætijd og æfinnlega, Joh. 13. v. 1. Saa blessadi Engill DRottinns, sem hier byrtist nu Kvinnunum, sijndi sig i eiñi Ungis-Mañs Mind. Hier maa eñ fiña einn fagrann Lærdoom, hvorium þu skallt ecki helldur gleima, mijn Saal. Þeir himnesku Guds Englar ellдast alldrei, helldur er þeirra Æsku-Bloom ætijd sijfelldlegt, og geingur alldrei til Þurdar, hvad Lausnarinn giefur ad merkia, so talandi um Borninn: Þeirra Englar a Himnum siaa jafnann mijns Fodurs Auglit, sem er aa Himnum; Matth. 18. v. 10. Madurinn, so i þessum Fullkomlegleika sem odrum i fyrstunni af

Gudi skapadur, hlijtur nu sijdann Syndafallid til Hrærnunar ad gaanga, og i Alldurdoomsins Veiki opt ad mædast, samt Þvijngun ymislegri; hvar fyrir Dav.d segir: Vort Lijf varir um Siøtyger Ar, og nær þad kiemur hætt, þa eru þad Attatyge Ar, og nær þad er sem kostulegast, þa er þad eintoom Mæda og Erfidi, Psalm. 90. v. 10. Þetta stadfestir og Forfadirinn Jacob: fair, segir hann, og illir eru mijnir Lijfdagar, edur Vegferdar Dagar, Gen. 47 v. 9. Þetta, med fleiri annari Vesolld, eru Syndarinnar Verdlaun; Samt hofum vier i slijku þa Huggun, ad vier eigum fyrir Hendi Englum Drottinns samlijkir ad verda i Dijrdinni, og hvor sa, sem þetta sitt Mædusama Lijf endar i hreinni Trw a JEsum Christum, hann fær fulla Lækning, og Afvending allra Eymda, þar sem er sijfelld Æska, Heilbrygdi, og eilijfur Fognudur; þa eru allar Guds Barna Eymdir wti og forgleimdar. Þreigid þvi þolinmoodir, þier Guds Vinir, sem mørg Hrigdar Ar hafid hier afstadid, og vitid, ad þvi styttra er eptir af Leidinn i ydar Fodur-Land, þar þier verdid ungir sem ønnur Orn, Psalm. 103. v. 5. Þessi Drottinns Engill byrtist Konunum sitiandi i Grofinni; Þar med ysirlijsti hann Sigri og farsællri Endalykt a allri Pijnu og Strijdi vors Drottinns, þvi nu var unninn Sigur a Synd, Dauda, Diofli og Helviiti, enn Lausnarans Hvijld og eilijf Majestatis Stioornan uppbyriadist. So leingi sem vier lifum

lifum hier a Jordunni þa erum vier i siifelldu Striji-
di, hier er ei ad eins vid Holld og Blood ad beriast,
helldur og vid argviitugañ Heim og illann Dioful,
sterka, slæga og siivakandi Ovini, Eph. 6. v. 12.
I mooti hvorium Gud setur suma af siinum Ve-
sælingum, þo i ondverdañ Bardaga edur Fylking.
O Herra! hardt og ordugt er þetta Strijd; eñ hv-
orium þu hiaalpar hañ er hoolpiñ; eftir þetta Strijd
kiemur Hviijld og Sigur aa Himnum hiaa Gudi,
þar dryckiar hañ siina med Himneskri Vellystingu
aan alls Enda. Engillinn sat eckı hier aa Vinst-
ri, helldur Hægri Hlid, avijsandi Hætign hinns
blessada Sigurvegara JEsu Christi, og ad Gud
hefdi honum, eptir hanns Manndoomi, Sess og
Sæti wtvalid til siinnar Hægri Handar, sem
David uñtalar segiandi: DRottinn sagdi mijn-
um DRottni, set þig til minnar hægri Handar, þar
til eg legg Ovini þijna Skør Foota þinna, Psalm.
110. v. 1. Hvor Ord Christi sialfs itrekar i Guds-
spiallsins Ordum, Matth. 22. v 44. Engillinn
bodar oss og med þessum Sessi, hvilijkra Kosta
Guds Viner hafi ser ad vænta hier aa Jordunni,
sem eru, ad eilijfur Gud med sinni Magt og Mysk-
unarrijkri Vernd, standi þeim til hægri Handar i
øllum Mannraunum og Haaskasemdum, so sem og
sialfur Gud hefur lofad i sijnum Ordum og endt vid siina
i Verkum; hvar fyrir þeir meiga med David fagn-
andi siingia aa þennañ Haatt: Þu rakst mijna O-
vini aa Hæl aptur, þeir eru fallnir og fyrirfooerust

fyrir þier. O Drottinn, þu sem betst veitst: hvi-
lijkum Hættu þijn Born eru stodd i þessum hætta
Heimi bædi aa Andlegann og Lijkamlegañ Hatt,
Psalm. 9. v. 4. Slepp þu alldrei af oss þiñi Mysk-
unarrijkri Verndar Hönd, fadmi hun oss og gei-
mi i allri Hættu, so ad vier alltijd gladir i þijnu
Hiaalprædi siingia meigum med Brwdurinni og
segia: hanns Vinstri Hönd liggur undir mijnu
Hofdi, og hanns hægri Hönd umfadmar mig,
Cant. 2. v. 6. Amen.

# 13. Capituli.

Um Engilsins Predikun fyrir Kviñunum.

ENN Engillinn svaradi og sagdi til
þeirra; Hrædist ei, þvi eg veit ad þi-
er leitid ad JEsu af Nazareth, sem
Krossfestur var, eigi er hañ hier, þvi ad
hañ er upprisiñ, so sem hañ sagdi: Komid,
siaaid þañ Stad hvar hañ var lagdur,
gaangid helldur skyndilega burt, og seigid
þad hañs Lærisveinum og Petri, ad hañ
sie upprisiñ af Dauda: Og, siaa, ad hañ
mun gaanga fyrir ydur i Galilæam.

I Næst fyrirfarandi Gudspialls Texta var oss
undirvijsad, ad þessi DRottinns Engill, sem
hier auglijstist Kvinnunum, hafi klæddur verid hvij-
tu Klædi. Ad sönu kañ ecki, þu christinn Madur,
nooglega hier aa Jordu ad vijskijrast Vegsemd H.
Guds

Guds Engla, en̄ þad skynium vier, ad þessir Himneskü Andar hafa ec[illegible] fyrir siaalfa sig; edur slijks Mannlegs Um̄bwnadar og Naudþurftar, þo hafa þeir opt slijkt brwkad fyrir Mana Sioon, nær þeir hafa þeim Opin̄berast, og þad einungis sialfra Mannanna Veikleika vegna, og til ad kynna þeim þar med eitthvad Gott alltijd, so sem hier. Engillinn kienner med sijnum Klædnadi, ad vier alltijd brwka skulum Sidsamlega Hegdan, i ollum vorum Athofnum, sem riettilega vilium Christnir heita, lijka vel þo vier sieum einslega staddir, þvi alltijd erum vier i Guds og Englanna Augsyn, jafnvel þo Menniernir siaai oss ecki, um̄ hvoria og miklu minna vardar; Ei ad sijdur bligdast opt margir meir fyrir þessum, helldur enn Gudi; O þaa stooru Skam̄syne! Enn fierdeilis skalltu geyma gooda Sidsemi, og fylgia hen̄i i þijns Guds Hwsi og Musteri, Pred. 4. v. 17. Hvar þu ætt einkum ad þioona Gudi, kom þu ei þangad nakin̄; a Saalunni, edur þeim innra Manninum, skalltu bera, fyrir sanna Trw, Skrwda Riettlætisins, og allshættadrar Gudrækni; um̄ þetta vardar mest. Þu skallt og, af Dæmi Guds Barna, bera þar og a Lijkamanum Sidsamleg Naudþurftar-Klædi, eptir þijnu Standi, enn giora þig þar ecki til, med nockri Hof-Frækt edur Nybreytni, so sem Daarum Alldar þessarar er tijtt; soddan̄ Heilrædi skylldir þu geyma! Þad Fyrsta Ord Engilsins hier til Kvenan̄a, er HUGAR Hressing.

ing. Hrædiſt ecki ſeigir hann, þvi eg veit ad þier leitid ad hinum Kroſsfeſta JEſu af Nazareth, eigi er hann hier, hann er uppriſinn ſo ſem hañ ſagdi. Mannſins Stirkur er ærid lijtill i ſiaalfum ſier, og hañ er ecki ſtoort ad treyſta, hañ vegur næſta lijtid, jafnvel þo margur mikid læti; Otti og Skielfing er eirn Arfur, med fleiru ſlijku, til vor fraa Adam komiñ, hvør opt aa ſtuttum Tijma hefur Mikil-Mennin fellt, lijka vel og yfirbugad þaa, ſem St. Peturs Dæmi, og fleiri annarra, utviiſar; Þvi giefur Guds Andi þetta Heilrædi, fyrir Muñ St. Paals ollum þeim ſem eptir vilia taka: Hvør hann þykiſt ſtanda, ſiai ſaa til ad hann falli ecki, 1. Cor. 10. v. 12 Enn þar ſem þvi hefur nu þanniñ ſtundum varid verid fyrir mikil-Monnunum, hvørs ſkal þaa Lijtilmagninn vænta ſier? Margir hafa Ottaſteignir vordid vid Englanna Opinnberan, Jud. 13. v. 21. Sem Dæmi finnaſt noog til i Skriptinni. Enn, mijn Saal, hvad ſem þijnu Jſtoduleyſi lijdur, hvøriu þu bid Gud vægia og hægia eptir Þørfinni, ſem ollu kann til beſta ad ſnwa, þa þarft þu þo alldrei ad hrædaſt nær þu ert i ſañri Eptirleit þijns HErra, þvi þa eru þeir fleyri ſem med þier eru enn aa mooti, ef þu leitar af Hiarta, hann mun i þvi Verki þiñ innfallandi Veikleika og Oſtirk Myſkunſamlega uñbera og forlæta, giæt þu þeſs ad þiñ Edla Brwdgumi JEſus hefur bariſt og yfirunnid allann Her þiña Ovina, ſo einginn þeirra fær nockurt Valld aa þier, og ecki eitt Haar

ſkadd-

skaddad a þijnu Hofdi aan hanns Vilia. Dioss-ullinn er ad vijsu skiædur, enn hann kann ad sonnu ad oskra enn ecki ad uppsvelgia, þar er einginn Fordæming a þeim sem eru i JEsu Christo. Rom. 8. v. 1. Logmaalsins Bolvan er bitur, enn Christur er Uppfylling Logmaalsins og vor Fridur, þess Bolvan er i Blessan snwid, og hvor a hann trwir er Riettlaatur. Eph. 2. v. 15. Rom. 10. Daudinn er hardur, enn nu er hann fyrir JEsum Christum sætur ordinn, hanns Broddur Syndinn er brotinn, Jaa, hañ er i Sigur uppsvelgdur, 1. Cor. 15. v. 54. So eitt Guds Barn kann i Trwnni og sællri Von goodra Umskipta ad segia til hanns: Kom þu Sæll þegar þu villt.

Heimurinn er falskur og slææ, enn laat þu hann brasta mikid og segia: Vier vilium hann med Hadsung heimsækia. JEsus svarar og seigir til þijn og mijn, þu Guds Barn, verid Hughraustir, eg yfirvann Heiminn; Og til Heimsins segir hann: Hier skulu þijnar stolltu Bylgiur lækka sig. Allt þetta ætt þu i Trwnni ad þeckia og þacka þijnum Blessada JEsu, mijn Saal, og vera Ohrædd, nema þu skallt Ottast þinn Gud med Sonarlegum Otta, sem er med Hiartannlegri Elsku blandadur, þvi Otti aan Elsku er aimars Præls-Otti, og varastu ad styggia þinn Gud. Þannig er nu em sonn Gudhrædsla a hreinum Trwar-Grundvelli, og þiena þier þa allir Hlutir til hins Besta, Rom. 8. v. 28. Er þad nu so, þvi villtu þa kvijda? Nu

þeñ-

þennañ Uppriſu-Fognud vors HErra ſkipar Eingillinn Kvinnunum ad boda Læriſveinunum og Petri, hvorn hann hier ſierdeilis med Nafni til-tekur. Alltijd rættaſt ad Vonum, mun JEſus, þijn Bleſſud Ord; Þu ſegir; Heilir þurfa ecki Læknarans, helldur þeir ſem krankir eru, Matth. 9. v. 12. Petur hafdi þig affvarid, þad var eirn hrædilegur Glæpur, ſamt var nu hans Synd gleymd og fyrirgiefinn. So ert þu DRottinn minn nadugur og myſkunſamur, þu hefur meſta Myſkun veitt þeim Stoor-Synduguſtu, meſta ſeigi eg, þvi heñar Mikile kiækiſt þvi betur, ſem ſaa er argari og Overdugri er vidtekur. Eg vil giora Eyd-morkina ad Stodu-Votnum, og þad þurra Landid ad Uppſprettu-Brunnum, ſeigir DRottinn hiaa Spaamañenum, Eſ. 41. v. 18. Þetta nær vel til Stoor-Syndaranna, þadann veitir DRottinn opt beiſkuſtu Ydrunar-Taarum fyrir ſinn Anda upp ad ſijnu Hiarta, enn fraa ſier aptur Himneſkum Svolunar Straumi ſinnar Myſkunar; þa fagna badir, Gud og Syndarinn, eins ſem goodur Fadir fagnar betrandi Barni, og verdur ſo Elſkann opt eptir aa hin heitaſta; DRottins Raad ſannar i þeſſu ſiñ Eydſtaf: ſo ſannarlega ſem eg lifi vil eg ecki Syndarans Dauda, helldur ad hann lifi og leidriettiſt. Ezech. 33 v. 11. Soddañ Guds Myſkunar Særi breiddeſt yfir og hulldi Peturs Meinſæri; O DRottinn, þu ſedur beſt þaa Hungrudu, þar aa byggi eg þa Alyktun, ad eg meina aungvann nær

ſtanda

standa til Arfs Mÿskunar þinnar, enn eina syndugа saunydrandi Saalu, þvi mier virdist, minn Ilmsæti JEsu, ad þu breidir þig yfir slijka, meir enn Hiarta-good Mooder yfir sitt siwkt og sundurkramid Barn, hun vill ad sonnu biarga, enn gietur þad ecki alltijd; Enn þu O JEsu, bædi villt og gietur, þvi er þad Ord ollum Hlutum dyrmætara, ad þu ert komiñ i þeñan Heim Synduga Saaluhoolpna ad giora. 1. Tim. 1. v. 15. Hvad skal þier nu þrijsta mijn Saal til ad elska Elskuna JEsum, ef þad er ecki þetta?

Gud lagdi sialfur eirn Skiñ-Kyrtil aa Adam Fordum, þa hañ stood nakiñ hræddur og skialfandi fyrir hañs Augsyn, falliñ i Synd og Dauda, Gen, 3. v. 21. Eñ Mÿskunar-Hondinn þijn, miñ JEsus, hefur marg Þusund Sinnum breitt sig yfer mig nakinn og skamraudann vegna Syndaña, og meddeilt mier Motli þijns Riettlætis, Es. 61. v. 10. og þanning hulid mijna Blygdan; hvørs eg vil med heitri Elsku og Þacklæti minnast allar Stundir.

Æ miñ Drottiñ, halltu fram vid mig þinni Naad, eg bid þig af dÿpstu Audmijkt mijns Hiarta, yfirgief þu mig alldrei, helldur, nær sem eg aumur fell og hrasa, þa væg þu mier, og þa mijn Yfirsioon er mest, syn mier þa eptir Þorfinni mesta Myskun, so ad eg, hvørn þu hefur so hiartañlega ad þier tekid, endurnært og uppaa-kostad, verdi alldrei Dieflinum ad Braad nie Herfangi. Amen, seig

O JEsu, þijn Bæn er heyrd, AMEN.

# 14. Capituli.

Um̃ Heimfør Kvennanna frá Grøfinni og Christi Opinberan.

EN þær geingu wt skyndilega, og flijdu fra Grøfinnj med Otta og Fagnadi miklum, og hlupu, so ad þær kunngiørdu þad hans Lærisveinum þviad komin̄ var yfir þær Otti og Forundran, og þær søgdu aungvum neitt, þvi þær voru hræddar. Og þa þær geingu ad kunngiøra þad hans Lærisveinum, sia, þa mætti þeim JEsus, og seiger: Heilar sied þier; og þær geingu til hans, hielldu um̃ hans Fætur og tilbaadu han̄. Þa sagdi Jesus t l þeirra; eigi skulud þier ottast, farid og kunngiørid mijnum Brædrum ad þeir gaangi i Galilæam, og þar skulu þ.ir mig sia.

ÞAd mikla Laan og margfølldu Gæfur DRottins, so sem og hans Huggun og Hugsvolun, eru oss eckj þar til meddeildar, ad vier holldum þeim einungis fyrir sialfa oss, helldur, so sem Maginn medtekur ad sønnu Fædunna (þo ecki Einungis fyrir sialfann sig, h lldur og hinum ødrum Lijkamans Limum til Styrks og Hressingar); So eigum vier og ad meddeila ødrum þurfandi af DR ti-

ens

eñs Eigu, ofs i Hendur selldri, sem Raadsmoñum, ef vier skulum ei samlijkir vera þeim illa Þioon, er sitt Pund groof i Jordunni, og sijdañ med honum far Verdlaminn; Þad gooda Verkid i soddann Efnum skulum vier og ecki ofleingi undanndraga, helldur hrada ofs at þessum, sem odrum, Dygda-Veigi, medann Tijminn er. Þetta hvorttveggia kienna ofs þessar goodu Kvinnur i Upphafi þessa H. Texta, og Ord DRottens bijfalar ofs slijkt margsinnis. Stood Kvinnunum eirniñ Gott af Hlijdninni i þessu, hvor betri er enn Offur, þvi at Leidinni mættu þær JEsu med Bodan sijns Fridar og Fagnadar; þa mætti þad uñ þær med riettu seigiast, ad þær hefdu Hnossed hondlad, og þa Edla-Perlu fundid, hia hvorri allir Hlutir eru rijrir, og allt fyrir hana giefandi, hvoria þær og ad Vonum fagnandi fodmudu, og hielldu uñ JEsu Blessadar Fætur. O þa ylmandi Gledi! O þad sætasta Sælgæti! O þad Eftirlaungunarsamasta Hnofs! Hier er nu ad hugleida þad sem ædur er undanngeingid uñ Mariam Magdalenam, hvorri JEsus bannadi ad snerta sig, eñ þessum Kvinnum lofadi hañs Milldi þad. Hvad skal uñ þetta hallda? Þad heyrum vier uñ Mariam, ad hun var bvinn ad medkienna og þeckia JEsum ad vera sinn Edla-Meistara, ædur enn hann bannadi heñi hitt, þess er og ecki gietid, ad hun æangrast hafi þar af, þo hun þad ecki feingi, þvi hun var full-sodd vordiñ af sannri Trwariñar Gledi, og Þeckingu at JE-

su, lifanda upprisnum; Eñ þessum Efablendnu og hrædda Kvinnum losadi hañ þetta: So mætt þu, Guds Barn, liisa eptir hanns Mystunar Hiarta; alldrei syniar hann sijnum Naad-þyrstum Skiepnum þessarar Andlegu Saalar Naudþurftar, miklu helldur biidur hann hana fram, hañ leitar siælfur eptir þeim Vanmættugu Saudum, og leggur Plaasturiñ yfir þeirra Saar, eptir þvi Nakvæmann og Grædslurijkañ, sem Saarid er vidkvæmara og þarf fliootari Adgiorda, og medtekur so hvorn þegar hann kiemur at hanns Fund, Joh. 6. v. 37. og rekur aungvann fraa sier, þvi hann endir alltijd sitt Naadar-Loford, ad sundurbriioota ecki braakadann Reir, og ætslockva ecki lijttlogandi Liin Kveik, Es. 42. v. 3. Alldrei bregdst þad, JEsus ber mesta Umhyggiu fyrir veikri Trw, ad hun megi nærast sem eitt Lioos; hann sem Hwngradur er epter vorri Velferd og Saaluhiaalp, skylldi hann ecki nœra og hiaalpa vid þvi Medali, aan hvors vier kuñum ecki ad komast i Himna-Rijki? Eñ vorri Skylldu skulum vier ei gleyma i þvi ad leita hanns i þessari Veiki, og hinum mikla Trwar-Vanmætti, þvi DRottiñ er Verndan hins Faatæka og Verndan i Neydinni; þar fyrir, þu sem slijkt þeckir af Ordi Guds og fyrir Upplijsing H. Anda, treystu Drottni, þvi hann yfirgiefur alldrei þaa sem hanns leita, segir David, Ps. 9. v. 11. Þier veitist ad soñu, O Madur, ecki Lijkamlega sem þessum Kviñum ad siaa hier JEsum, edur hallda og þreifa um hann

blefs

blessadar Fætur, þvi þu geingur nu i Trwnni enn ecki i Skodaninni, þu horfir a hier sogd Fadmlog med Hugskotsins Augum og Andlegri Jhugan, so sem fyrir Speigil og i Raadgatu, 1. Cor. 13. v. 12. Lat þier, Saal mijn, lynda þad', og þacka þu þinum JEsu, sem so optlofar þier Syndugri ad þreifa a sier og hallda um sijnar Fætr med þijnum Andlegu Trwar-Hondum, hvoriar hann Ostyrkvar og skialfandi stidur, og helldur so sinni Hendi', a þessari þinni Hendi, so hun skuli ecki af honum slitna edur olldungis Mattlaus verda, þangad til þu fær ad sia hañ um sijdir so sem hann er, Augliti til Auglitis. Þvi skallt þu nu, eins sem Jacob, neyta þeirrar Orku, sem Gud giefur, og hallda þijnum HErra, Gen. 32. v. 26. Vitandi ad þar af stendur þier allshattud Blessan. Fyrri er gyllot enn valid er, og so helld eg þad vera i Trwarinnar Efnum; ecki einasta þeir Trwar-Sterkustu Stoolpar, helldur og þeir Trwarveiku Guds Vesælingar munu bædi margir komnir, og komast inn i Himna-Rijki og Eilijft Lijf, þvi mijn veik Trw, sem þo er ecki eptir minni, helldur Lijfgiafarans JEsu, Mælingu, giorir ecki hanns mik-u Trwfesti Onijta edur ad aungvu; veri eg so veikt Barn sem vera vill i Trwñi, medann JEsus giefur Hiartannlegt Hwngur eptir sterkari Trw a sialfum sier, þa reiknar hann mig sitt Barn; og hvad vardar mig þa um añara Dooma, medann þessi fordæmir og wtskwfar mier ecki hvad alldrei skiedur, þar hef eg hanns Bref og Jnsigli

sigle uppaa. Enn framar hier um̃ ad tala, sijnist mier, mijn Saal, sem þu faaer ad þreifa a og um̃fadma þijns HErra Fætur i þvi hæverduga Kvolldmaaltijdariñar Sacramento, hvar hañ riettir ad þier olldungis sialfann sig, Jaa, allañ siñ blessada Lijkama, sitt heilaga Holld og Blood; mun þa þessi DRottins Myskun ecki meiga kiæta þig, og þerra þinn Sorgar-Taar? Sannlega, þar sem þu medtekur þetta sannydrandi i Trwnni, er þier þad so gott, og aungvu sijdur, eñ þo þu hefdir i Ferd verid med þessum Konum, þvi hvor þessa Lijfsins Fædu medtekur, sem strax var mællt, hann lifir eilijflega. Joh. 6. v. 35. Eg meina og, mijn Saal, ad riettilega kallast meigi þijns HErra Fætur, hanns trwlyndir Pioonar hier a Jordu, þvi þeir eru Sendibodar i Christi Stad, sem Paulus vitnar; Og Esajas seigir: hvorsu elskulegir eru a Fiollunum Fætur þeirra, sem Fridinn boda og Hialpræd predika, Es. 52. v. 7. Fadma þvi Saal mijn þessar Fætur þijns JEsu tilbærilega eptir hanns Bodi, og haf þaa i skylldugum Heidri, Syr. 7. v. 31. Eñ varastu ad setia þig Yodrunarlausa ad þessum Footum, þvi þad aflar þier Guds Reidi og Hegningar, sem eilætur ad sier hæda. Matth. 22. v. 6

Minn Elskulegasti Jesu, Eg vil þig, medañ mier Lijf endist, heidra, og heitum Elskunnar Fadmi um̃vefia, og mier hallda um̃ þijnar Fætur, þær kyssa, og skylldugleg a jafnann vyrda, þar til hiaalpi þinn Styrkleiki mijnum Veikleika, og greidi mijnar

Fætur

Fætur fram̃ a Veg Fridarins, so eg Frid-Land Eilyfs Lijfs eptir þetta Lijf ødlast mætti, AMEN.

# 15. Capituli.

Um̃ Vitnisburd Vardhallds-Mañaña af Upprisuñi Christi.

En̄ medan̄ þær geingu i burt, sia! þa komu nockrir af Vardhallds Moñunum i Borgina og kuñgierdu Hofud-Prestunum allt hvad vid hafdi borid. Og þeir sofnudust saman̄ med Pilldungunum halldandi Raadstefnu, og gaafu Strijds-Moñunum ærna Peninga og sogdu: Seigid; Ad hañs Lærisveinar komu um̃ Noott, og stalu honum a medan̄ vær svaafum. Og ef þad kañ ad heyrast fyrir Lands-Doomaranum, skulum vær yfirtala hañ, og giora ydur ohulta. Og þeir tooku Peningana, og giørdu so sem þeim var kent, og þessi Ordroomur er vijdfrægur vid Gydingum allt til þessa Dags.

Hversu aunkunarlega ad Satan forblindi syndugar Manneskiur, a hvorium hann hefur Faang feingid, og leidi wr einni Villu i adra, wr Grofinni i Snoruna, þar til eru morg Dæmi

bædi ritud og siaanleg, aa þessari siidurstu Hausta-Tijd, aa hvorri Gud vardveiti siin Born Naadarsamlega! Menn meiga þad sorgandi vita, ad nær Diosullinn hefur svælt eirn Syndara til eins Illvirkis, kiemur þar stundum eptir annad og hid þridia, og hyggia sier so ad bæta eina Skom med añari nijrri, og verdur so, eptir Lausnarans Ordum, hiaa þessum hid siidara verra hinu fyrra, Luc. 11. v. 26. Þad var stoort Illvirki og hræsdilegur Glæpur, ad þvi Leiti sem Gydingum vidkom, ad þeir, Guds Sonar eigid Foolk, skylldu hneppa hann wt af Vijngardinum og afliifa hann; hitt var þo aungvu betra sem aa eptir kom, ad þar sem þeim var yfirbevijsud JEsu Upprisu Dijrd af þessum Vokturum, og kunnu þar ecki i mooti ad mæla, ad þeir med ærnum Peningum kaupa skylldu af þeim somu nærsta Oaaheyrilega Lijgi, og ollum audsiena Uppdiktan, þvi nær Madur sefur, kañ hañ ecki ad vita hvor stelur þo stolid sie, þvi hefur og þessi Ord-Roomur ecki ad Orsakalausu vijdfrægur vordid; Þad er og lijklegt, ad þessir Peningar hafe þeim ecki friaalsari verid, helldur enn Silfur þad sem Judas vidtook, og aptur til þeirra snaradi; Þad var og ecki meira ad stela þessum hvoruveggiu Peningum wr Guds Kistunni, helldur enn Ærunni fraa Gudi, hvoria þoer ohægra ad fela helldur enn þad Þiooffstolna, so sem þad og gieck þessum vondu Lyganna Kaupmoñum. Lær hier af, þu sem elskar Lygina, og hana giorir þier stun
dum

dum ad Athvarfi, fyrst, hvadañ hun kiemur? Þier svarast: Hun kiemur af Diøflinum, þvi þu munt hafa heyrt þess gietid, ad hann sie Fadir Lygiñar, Joh. 8. v. 44. Þetta er nu Grundvølluriñ þessarar þinnar Jþroottar. Jstañann Stad þeinktu med þier, ad hvilijkum Manni ad Lygiñ giøri þig, hvad miøg hun upphefie þig? Hun giørir þig, hvørt helldur þu brwkar hana þier til Gamans, til fegrunar þinna illu Mæalefna, eda ødrum til Skada og Nidrunar, þa giørir hun þig, seigi eg, þo þu meinir ad koma þier stundum fram med henni, ad Lærisvein Diøfulsins og hanns Barni, og fellur þa ecki Eplid langt fraa Eykinni. Þu mætt og strax i Þridia Mæta siaa, hvørt þitt Kaup muni verda fyrir þetta Starf? Sem er Deyding Saalar þinnar. Sap. 1. v. 11. Lijt þu nu eptir þessu øllu samañ; so muntu siaa, hvad fagurt þetta þitt Leikfang sie, med hvøriu þu hyggur þier þo kañske stundum ad bæta Hag þiñ, edur skiemta þier og ødrum. Vara þig, O þu Madur, vid soddañ Heliar Odygd, sem so margañ hefur i Olucku leidt, af þeim sem hana hafa sier tamid. Lættu ecki helldur kaupa þig til þessa med neinum Fiegiøfum, nema þu vilier kaupa Helvijti til Handa þier, þvi þo Mwtañ glansi i þijnum Augum, þaa skylldi þier þo fegri þykia Saal þijn og Æra. Trw mier, so sem þad Upphafid er siallðañ lijkt Endingunni, so mun þier og synast Fegurdinn burt af so øsludum Peningum, þegar þig, mæaske ælijka og Judam, velgir vid þeim

eptir at seirna, og þu hlijtur þeim ad wtspya, og Gud wtsteitir þat af þijnum Kvidi, þvi hvad Madurinn nidursaair mun hann uppskiera, jafnvel þo ei sie giort Raad fyrir þvi i Upphafi þessarar og þvilijkrar Kaupહondlunar. Læt þu ecki, seigi eg enn, Gaafur, 5. Mos. 16. v. 19. fleatt Tal, Vinættu, Uppheſd, Magt nie Hootanir, edur nockurn Hlut añañ giora Twngu þijna Mættlausa edur Maallausa i Sannleikans Opinberan, nær sem Þorf og Skylda krefur, hann i Liooſi læta, 5. Mos. 17. Þvi þad er þier einginn Boot, þo þad hendi marga, so sem þad hægir einkis Kvolum i Helviiti, þo margir pijniſt þar; Eda muntu nockud vilia segia ad þad sie ecki verra fyrir þig enn adra? Wvstu vid þvi, ad ef þu tijdkar ad fiska i þessu Lyginnar Neti, Act. 5. v. 4. sem ridid er af Andskotanum, og hættir ecki, þa giefur þad uñ sijdir Bolvan og Olucku i Avinningiñ; og vinna þo sumir so mikid til þess Avinnings, ad þeir, lijka sem þessir Vards-Meñ, liwga uppa sialfa sig ymsum Skomum og Odygdum, þvi sijdur ad þeir vid adra hlijfiſt, og sinna aungri Samvitsku, enn Satan losar þeim a medann ad giora þa tryggva edur orugga, lijka sem Hofud-Prestarnir Vard-Monnunum. O þu eilijfi Gud, sem ert sialfur Sannleikurinn, vyrdstu med þijnum Sannleiks Anda, Joh. 15. v. 26. ad geyma oll þijn Born fra Villu og Svikum Diofulsins, og a medal þeirra oll christinn Yfirvolld, ad þau hvorki þyggi Mwt-

ur, nie odrum giefi til ad spilla þar med i nockurn Maata; Riettinum og Sannleikanum, helldur ræki hvorttveggia i alla Stadi eftir þijnu Bodi, hvort helldur giora er um̃ Rijkañ edur Fatækañ, so alltijd meigi saa saklausi behallda Sakleysisins Alyktan, og Doomendurnir meigi alltijd med Samuel, taka til goodrar Samvitsku, hvad sem hvor vill tala, 1. Sam. 22. v. 3. Allir vier meigum riettilega reiknast Andlegir Boku-Menn og Baktarar yfir Grøf vors Drottinns, enn þessi hanns Grøf er vort Hiarta: 1. Cor. 3. v. 16. Lyndiskarnir, i hvø rium vier eigum hann ad geyma, er hrein og omeingud Trw, þvi Christur bijr fyrir hana i vorum Hiørtum; Einginn stelur honum wr þessu Herbergi, þo hann missist, nema vor Svefn, vorar eiginn Syndir og Odygdir, þeim meigum vier þar um̃ kieña, og sialfa oss þar fyrir skullda. Vilier þu nu hiaa þier hallda, mijn Hiartkiæra Saal, þijnum Elsku Unnusta JEsu, þaa maattu ecki sofa med þeim morgu aa þessa Heims Kvølldi; Andlegum Dofinnleika verdur þu, fyrir Hiaalp Drottinns, fraa þier ad kasta, ef þu villt ecki missa þinn Herra; Þad synist nu sem hann ofti þvi ad vijkia i burtu, af þvi ad Menn festa nu Svefninn og hafa fest um̃ Stundir. Hvad sem nu hier af vill verda, veit Gud. O mijn Saal, I Guds Nafni vak þu og tak Vara aa þijnum Herra, þvi hier er um̃ aungva Smaa-Muni ad tefla, so mun þier vyrdast aa þvi sijdarsta alls

heriar Þijngi. Vak þu i Daglegum Tarrum, sañri Yoran, og heitri Hiartans Bæn; bid Gud ad veita þier Hiaſtod og Fulltijngi, þvi aun hanns formattu eckert gott ad giora, og þar sem synaſt maa, ad Lijk-Bondinn sieu allareidulogd aa þennañ Heim, hefur þu Orſok ſtyniandi (med Dwfunni) so ad andvarpa sem Simeon, nu laat þu Drottinn þinn Þioon i Fridi fara, Luc. 2. v. 29. Og vilie JEſus enn teigia Tijmañ, so ad þu siaair Fiorbrot Veralldarinnar, i hvorium ad allt uñ Koll keyriſt, so hallt þu þier þo vid þinn Jeſum, þad maa gyllda hvad gyllda vill, Lijf edur Dauda, hañ vill þa allri Beiſkiu i bleſſadann Sætleik ſnwa, burthrinda ollu Diofulſins Vardhalldi, og afvenda allri Olucku.

Minn goodi JEſu, eg veit ad ſoñu, ad eg aa ad vera eiñ Vaktari þinnar Grafar, og eiñ af þeim miñſtu Vøku-Monnum þijns Vijngards, aumur og Overdugur; i hvorutveggiu er eg nærſta ſvefnugur doſiñ og ſofandi, so mier hæfir Vligdan mijns Andlitis; Enn væg þu mier, goodi Gud, og haf Medaumkan med mijnum Veikleika, eptir þinni ſtooru Myſkunſemi, hvør ed hylie og mier fyrirgiefi mijn Afbrot, og vaki so þitt Verndar-Auga, sem hvorki ſefur nie ſifiar yfir mier og ollum þijnum Bornum, Pſalm. 121. v. 4. Amen.

* * * * * *
* * *

16.

# 16. Capituli.

Um̃ Utgaungu Lærisveinaña til Emaus.

ANN eptir þad, þa er tveir af þeim ferduduſt, Opiñberadi JEſus ſig þeim i añarlegri Lijkingu, þa er þeir geingu um̃ Porpa-Grundirnar. Þviad ſiaa þu, ad tveir af þeim geingu þañ ſama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fraa Jeruſalem Sextijge Skeidar-vom ad Nafni Emaus, og þeir toludu ſijn aa milli, um̃ alla þaa Hluti ſem vid hofdu borid.

SJE þad þijn Hiartans Gyrnd og Eptirlaangan, mijn Saal, ad naa Fundi þijns aaſtrijka Brwdguma JEſu Chriſti, þa verdur þu ad ſegia lauſt vid þennann Heim, og ſkilia þig fraa Selſkap Ogudlegra Mañа og giora þad af fullri Alvoru, ecki med Ordi einaſta, helldur med Verki og Sañleika, þvi alltijd hefur þu Illt af Verolldinni, hun er fordiorfud i Gyrndum Villudoomſins, þvi Satan er hennar Hofdingi, eptir hvors Pijpu hun danſar, þegar hun bijdur þier Fadminn, og lætur ſem blijdaſt, þa hefur hun Dalilæ Hiarta, fullt Svika og ymiſlegra Flærda; þa vard Samſon hid fyrſta faanginn, er hañ laa i Faangi þeirrar Svikſomu Hooru, hvoria hann elſkadi; Jud. 16. v. 19. So ſem nu þeſsi Hoora var, ſo maattu lijſa eptir Ver-

olldiñi,

ollbinni; þu ſkylldir þvi taka ſterkann Vara a þier, og varaſt Sviki. Þo þu nu verdir ad umgangaſt i Heimi þeſſum, 1. Cor. 5. v. 10. Medann þu fær eck: ad kvittaſt vid Lijkama þeſsa Dauda, Rom. 7. v. 24. (Hvør Dvøl, ſo ſaart mædi margra Gudhrædda Manna Hugſkot, ſem verda i Flocki Ranglaatra ad flækiaſt ſem Loth i Sodoma), þaa ſiaa þu til, ad ei ſamlagir þu þig Ofrioofſomum Verkum Myrkranna, Eph. 5. v. 11. Edur illri Breitni Gudlauſra Hyrdulegſingia, ad ei verdir þu Hluttakari Glæpa þeirra, og ſijdan einnig med þeim Straffſins og Olucknnar. Giør þu, mijn Saal, i Anan Stad, hvort þu aatt ad ſtefna, ef þu villt finna JEſum; Þeſsir Lærisveinar hugdu ſier ad fara til Emaus, hvort Kauptun lærdir Menn hallda ſitt Nafn tekid hafi af Vatni, af þvi ſaa Stadur var allavega Vøtnum umgyrdtur, og var eitt oruggt Vigi fyrir þaa er flija villdu, ef brad Offookn bar ad Hondum. Vort Lijf i þeſsum Heimi er ein Hrakningsfull Vegferdar Reiſa, aa hvørri margir mædaſt þwnglega; ſu Harma Klogun er bædi Forn og Ny. Jacob giørir þvi rietta Yfirſkript þeſſarar Reiſu ſegiandi; Faair og illir eru mijnir Vegferdar Dagar, Gen. 47. v. 9. Og David ſegir: Eg em Gieſtur og framandi a Jordunni, Pſ. 119. v. 19. Þeſsarar Reiſu verdur ſo goodur Endir fyrir ollum þeim, ſem Stefnu hallda til þeſs Himneſka Emaus med Huga og Hegdan, þvi þar er þad rietta

faſta

fasta Slot og Frij-Stadur, i hvorium Ohult-ir bliifa þeir sem þangad komast fyrir ollum Ovina Araasum, og eingum Piina snertir framar Drottenns Utvallda, þar eru Straumar lifandi Vatns framflootandi af Stooli Lambsins, Apoc. 22. v. 1. med ylmandi og eilijfri Sætleiks Svolun: Inn til þess Slots fliyr Hiartad og Hugurinn, nær hann mædist af þessa Heims Eymd og Hormung, og ynnsar Ovina Araasir ardynia, og þad er su Andlega Vegferdar-Reisa, enn hin fullkomna kiemur aa eptir. O DRottinn, veit þu mier þijna Naad og Fulltijngi til þess eg stadnæmist ecki i Raadi Ogudlegra, helldur burtvikie fraa þeim vonda Selskap, og hafi eckert Hlutskipti med þeim, og nær mijn Vegferdar Reisa er aa Enda kliaad, þa gled þu mig i þijnu Eilijfa Dijrdar-Rijki. J Þridia Maata hugleid þu mijn Saal, hvor og hvilijk þu skallt vera ef þu hyggur þier ad finna JEsum. Þesser Reysu-Menn voru JEsu eiginn Lærisveinar, og þeir somu voru hriggver og harmande. Þu maatt og mijn Saal vera JEsu Lærisveirn, annars verdur Bid aa Fundenum, þu maatt vera þad, seigi eg, i Sannleika enn ecki Eintoomu Nafni, med hvort marger vilia nu laata sier duga: Þu ert þad i Sannleika, ef þu elskar JEsum mest allra Hluta, og virder allt Þreck hiaa honum, Phil. 3. v. 8. Ef so er, þa elskar þu og hanns Ord, utbreidir þad og medkiennir, lætur þier stioorna af honum, og lynda sierhvad sem hann lætr vera. JEsus giefr stutta og skijra

Uta

Utskijring hier yfir og segir; Þier erud mijnir Vin-
er ef Þier giorid Þad eg bijd ydur, Joh. 15. v. 14.
Hier aa sskalltu leggia alla Krapta, mijn Saal, med-
ann Lijfid endist; hanns Bod hefur Þu, hañs Bod
skalltu eirninn geyma; Þad er, stunda Þad sem Þau
biooda, hata, flij og fordast Þad Þau banna, og ver-
ia ollu Þvi Pundi sem Þiñ JEsus hefur Þier i Hend-
ur feingid, Þessum Þijnum Unnusta til Þocknun
ar og Avinnings i a..a Stadi, og aa ollum Tijm-
um: so elskar Þu JEsum, og so ertu hanns Vinur.
Enn framar; sie Þetta Þijn Hiartans Gyrnd og aa-
stundan bædi Haatt og i Hlioodi, Þa er Þad Eitt
Merki Þar til, ad Þu talar Þa ecki einasta vid JE-
sum i Þijnum Bænum, helldur rædir Þu og um hañ
vid adra, vijdfrægir hanns Nafn, og wtbreidir
hanns Lofstijr med Þinni Twngu, Þvi Þad er henni
tamast sem Hiartanu er kiærast, Þu lætur Þier Þa og
eirnuñ lynda hanns Kross, og hañs Ok verdur Þier
sætt og elskulegt, Þvi Tryggver Menn plaga ad lijda
Liwst og Leidt med sijnum Astvin. Lijt nu til, og
skoda grant hvad Þu kunnir ad sia af Þessu, og Þvi-
lijku i Heimenum. Er nu ecki Krossiñ Christi hat-
adur aa Þessari Tijd? Eru ecki hanns Bod logd til
Sijdu? Eru ecki optast Veralldleger Hluter aa
Twngunni? Hvar er Hoogværd? Hvar er Lijti-
læti? Ad slijku skallt Þu huga, og Þvi Athugalaus-
ari og verri sem Heimurinn giorist nu, Þvi meiri
Uppörvan skal Þad giora Þier i Astundan sannrar
Gudhrædslu, og meigi brijna deigt Jaarn so Þad
bijti,

biiti, so veri slijkt þier ein Skierping, vilier þu annars ecki verda Heimenum Samferda ofann til Sodoma og þadann i Elldinn sem alldrei uppbrennur.

O minn goodi Gud, gief oss, i JEsu Nafni, Styrk. þijns H. Anda, so ad vier elskum þig, og stundum af Hiarta þad sem þu hefur oss bodid, so vier eigum þig alltijd ad eirn Naadugann Gud bædi i Lijfi og Dauda, Amen.

# 17. Capituli.

Um þad hvornin Christur kom i aanarlegri Lijkingu til Emaus Reisu-Manna.

H. G. þad skiedi so, þa þeir ræddust vid, og spurdust aa sijn aa millum, ad sialfur JEsus nalægdist þaa, og gieck Jafnframt þeim, en þeirra Augu voru so halldinn, ad þeir þecktu hann eigi.

HJer wt af Hugleid þu enn, mijn Saal, Elskurijkt Hiartalag þijns DRottins; hann er alltijd nalægur ollum Sann-Gudhræddum, og ecki siist i þeirra Astriidu og Freistingum, so hann endurnæri þa, og er styrkur i þeirra Veikleika, hann vidriettir þa Veiktrwudu, styrkir þa Vanfæru, huggar þa hrelldu, og hialpar þeim follnu aa Fætur; þvi skalltu alldrei efa Hialprædi og Myskun þijns Guds i nockri Neyd, hann bædi vill og kann ollu til Besta ad koma. Hann seigir, hvar sem Tveir edur Þrijr eru

eru til samans komnir i mijnu Nafni, þar vil eg vera midt aa medal þeirra: Matth. 18. v. 20. Slijkt er good Huggun fyrir alla þaa er, Ottast DRottinn, enn fyrst hann er med, hvor kann þa ad vera aa mooti? Fyrst hañ verndar, hvor kann þa ad granda? Þvi sem hann geymir, hvor kañ þvi ad stela? Hanns Hond er Ohullt Hyrdsla.

Þessir Tveir Lærisveinar maattu seigiast ad vera sem burtvilltir Saudir fraa DRottinns Sauda Hwsi. Veik Trw uñ Christi Upprisu, og Otti fyrir Ovina Araasum rak þessi Lomb aa Flootta i hætta Villustigu, so ef sa goodi Hyrdirinn JEsus, hefdi ecki leitad ad þessum tyndu Saudum, mundu þeir hafa hitt Ulfinn, sem þeim hefdi tortijnt; eñ hañs Giæsska veik þeim aptr til Sauda-Hwssens. O DRotten! Opt hef eg aumur burtvillst fraa þinni Sauda-Hiord, og vikid aa vondann Glotunar og Glæpa-Stig ymsra Raanglætinga, og næsta hlijdainn verid Hollosins og Diofulsins Aeggingum, sem mier hefdi Eilijfs Dauda aflad, hefdir þu ecki, O HErra, uppleitad mig Tijndann og Tapadañ, Luc. 15. v. 6. Og viked aa rietta Leid aptur til þiññar Hiardar. Soddañ Myskun hefur þu margsiñis audsijndt mier O-verdugum, Lijfid mier opt giefid, og allt annad Gott aa eg þier ad þacka. Eptir sijna Upprisu byrtist JEsus, ecki ollum, helldur alleina sijnum Lærisveinum, og þeim Gudhræddu Kvinnum, sem hañ elskudu, og eptir honum leitudu; Þessir feingu ad sia hann eñ ecki adrir, hann þeckir sijna

og

og hann þeckist af sijnum, Joh. 10. v. 14. Hann vissi Sorg og Hormung þessara sinna Astvina, er þeir baaru eptir hañ, hañ kom og ad hugga þaa eptir siñi Losan; þier hafid nu ad sonnu Hrygd, enn eg skal siaa ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og þañ Fognud skal eingiñ af ydur taka. Eñ þessa urdu ecki hañs Ovinir niootandi, er ecki minntust hanns nema til Lasts og Vanvirdu, og ei villdu af Illu laata; þvi hvorniñ kañ saa ad vænta sier JEsu Naalægdar, edur saa hana, er hann Þriootskusamlega og Praalega fraa sier hrekur, med Ydrunarlausu Framhalldi Synda og Rangllætis? Ef saa Riettlaati hiaalpast naumlega, hvar mun þa saa hinn Syndugi og Ohrilldi byrtast? Ef Guds Vinir faa ad klaga yfir Sioonar-Missir siins HErra, sem hann þo af Hiarta gyrnast, hvad vill þa hina skie, sem hvorki hafa Leit nie Laungun eptir honum? Enn hvar JEsus er olldungis burt, þar er Diofullinn. Heyr þu Barn mitt! Villtu hafa JEsum i Filgd med þier, so maatt þu Endilega locka hann til þijn med H. Tali og Gudlegum Munn-Rædum, sem þessir Lærisveinar. Klaam og Keskni, Bloot og Formælingar, Baktal og Bryxli, hrygdia og burtfæla hann, Eph. 5. v. 4. Enn inntaka Satan til Herbergis hiaa þier aptur, og hvorsu mun soddann Raadi vegna nema illa! Dwfurnar hrædast Hrafna-Maalid, og Lombinn Ulfsins Hrinur; Eins er og þessu varid; med vondum Muñ-Sofnudi rekur þu Drottiñ i burtu, sa-

mter þessi hrædilega Synd so ydkud af nockrum, ad jafnvel Børninn, sem fyrst fara ad tala, og adur eñ þau kunna FADJR-VOR, eru eptir Olldinni fullfær og snidug i Eydum, Nydi, Blooti og Banni, og rekia so þanmg Ogudleg Synda-Spor þeirra Satans Erindsreka, er slijkt hafa þeim kient og fyrir þeim haft, so vondra Forelldra, 1. Kong. B. 15. v. 3. sem añarra Samvitskulausra Mañа og Synda-Þræla, af hvorium Gud mun um̃ sijdir Reikning heimta; þvi ef saa mætir þwngu Steasse, sem forsoomar ad leida þessa Smælingia til JEsum, med Saalausri Stundan Christilegs Aga og Undirvijsunar, þa mun hinum ei liettbærara verda; hyggi sierhvor ad slijku, og vandi Verk sinnar Kollunar i þessu sem hvoriu ødru, i Guds Nafni; annars mun Barnanna Saalna Klogun, saart svijda ydar Saalum. So vondur sem saa Rijki Madur var, þa villdi hann þo ecki sijna Brædur i Helvijti. JEsu Blessadur Bloods-Kraptur vokve, væge og vardveite oss alla fraa þeim Kvala-Stad! Nær þesser Emaus Reisu-Menn voru aa Ferdinni hryggver, talande um̃ JEsum, kom hann til þeirra i annarlegri Lijkingu. Þo eg gaangi i Myrkvum Dal og Daudans Skugga, segir David, þa hrædist eg aungva Olucku, þvi DRottinn er hiaa mier, Ps. 23. v. 4. Slijks hafa og Gudhræddir Menn alltijd sier ad vænta, hiaa hvorium JEsus er alltijd i Neydinni, hann brigdar ecki sijn Ord, samt eru þeirra Taarafull Augu opt

so

so Sioondøpur a soddann Tijmum, ad þeir þeckia ecki so fliootlega hanns Naalægd; og þar fyrir maa þar Oskialldann heyra soddann Harma-Klögun: O Nottinn, þvi geingur þu so fiarlægt og geymir þig a Hormungar-Tijmanum, Ps 10. v. 1. Þetta er aalijka og þa Eirn er villtur, og þecker ecke þad sem honum er þo aadur kuñugt. Añars byrtest JEsus oss med þrennu Mooti.

1. Andlega i Ordenu og Sacramentunum; þar siaaum vier hann Einasta med Augum Trwarennar, enn ecki odruvijsi, og þvi maa slijkt heita ein hulinn Mynd, eptir Likamlegri Vijsu.

2. Kiemur hann til vor i eirni Framandi Mynd, þegar hann sendir oss adskiliannlegann Kross og Mootlæti; þa þeckium vier hann opt ecki sem oss byriar, þvi Vanmaattur og Veikleiki vor gietur þa ecki alltijd komid þvi syrir sig, ad hañ elski oss i soddann Tilferlum, lijka sem Barnid kann ecki fyrr enn sijdar meir, þa þad er komid til Vits og Ara, ad þeckia Fodursins Elsku af Hyrtingunni.

3. Kiemur JEsus til vor i Eiginnlegri Mynd, nær hann kiemur med sijna lifandi Huggun, bædi Andlega til Saalarinnar, so og einnin til Lijkamans, med naakvæmum Bætir og Linun eirnrar og añarar Eymdar, Ps. 91. v. 15. þa eptir a taka Hiortun vor til ad brenna, edur hugsa þañig, þetta hefur mijnum JEsu geingid til ad græta mig, ad hann feingi þvi betra Rwm hiaa mier med sijna Huggun, Eg vil hiedann af vid soddann kannast.

Þu sæti HErra, Kom i þeirri Asynd til mijn sem þier þocknast, þvi þiñ Tilgangur er alldrei utañ goodur; ef þu kiemur og ert hia mier, hvorneñ sem þu kiemur, þa maa allt verda mier ad Goodu, lijka vel maa þa Helviiti snwast mier i Himnariiki, þvi hvar þu ert, þar er Himnarijki; ætla þo, sæti JEsu, mier ecki meyra enn borid gier, Forþienustañ mijn giorir mig hræddann: þo eg vilie þig feiginn eiga, og þier treysta, þa verd eg samt Mattvana, standir þu siarlægt, eg vil feiginn allt lijda med þier, hialpa þu mier, og þijn Hialp leidi mig lokśins af þessum Harma og Taara-Veigi i Eilijft Eptirlæti; Þa sæ eg fagnandi og frijadur af ollum Eymdum og Hauska þessa Heims, lioomandi sem Sool, i þijnum Liooma, þu blessada Sool Riettlætesins, ad sia þijna Eiginnlega Asynd, Eilijflega þig lofandi, AMEN.

# 18. Capituli.

Uñ Samtal Christi vid Lærisveinana a Veiginum.

Og hañ sagdi til þeirra: Hvad er þad fyrir Rædu sem þid bondlid yckar a milli reikandi og erud hrigger þar af? Þa svaradi eirn, er Cleophas var ad Nafni, og sagdi til hañs: Ert þu alleina so Framandi til Jerusalem, ad þu veitst ecki hvad a þessum Dogum þar

iñi giorst hefur? h iñ ieigir til beirra: hvad er þad? Þeir sögdu til hañs: Þad af JEsu af Nazareth, hvor ed var Spaadooms Madur, maattugur i Verkum og Ordum fyrir Gude og ollu Foolki: Hvørnig ad vorir Hofud Prestar seldu hañ i Fyrirdæmingu Daudans og Krossfestu hañ. Eñ vier vonudum ad hañ mundi endurleysa Jsrael; og yfir allt þetta er nu hiñ þridie Dagur i Dag er þetta skiedi. So og hafa skielft oss nockrar Kviñur af oss til, þær ed aarla høfdu hiaa Grøfiñi verid, og fundu ecki hañs Lijkama, komu og sögdu sig eirniñ sied hafa Eingla sña Sioner, þeir sem segia hañ lifa; Og nockrir wt af oss geingu til Grafariñar og fundu eins lijka sem Konurnar høfdu sagt, eñ hañ saau þeir ecki.

EIrn goodur Læknir giefur ecki Lækninga Medol vid einu Saari, eda Siwkdoom, nema hann saai aadur ad vita Upphaf og Orsok Saarsins edur Siwkdoomsins, i Onvverdu; Noog eru Smyrslinn i Gilead hiaa þeim stoora Læknis Meystara Jsraelis vid ollum Meinsemdum, samt vill hann ad allir opinnberi sier, med Bæn og ydrandi Kvortun, Eymdir og Vesollð sijna, og sierhvad sem angrar aa hvorium Tijma, ef Boot skal gi-

efast og Huggun meddeilast, ei þad ad hann viti ecki allar vorar Naudir, og hvad oss þiakar i hvort eitt Sinn; edur þvi skylldi hann ecki vita hvad hann sialfur aa oss leggur? Sem veit oll Ord aa vorri Twngu, oll Verk og Huxanir Hiartans, Jer. 17. v. 10. So segir hann hier: hvad mædir ydur so miog? Hvad þreyngir ydar Hiarta? Enn hygg ad, Guds Barn! Þegar JEsus syniſt þier ad læta so ókuñuglega, þaa vill hañ læta sialfa oss þeckia vort eigid Ystoduleysi, Vantrw og Oþolinnmædi med fleyru sliku, og tilbwa sier sialfum so hinn Hagfelldasta Aminningar og Stroffunar Veg til vor, so óss sialfir betur þeckium, ydrunst og giorum Boot, þvi nær vier hofum so berlega þeckt vora eiginn Vanvirdu, þaa fleigium vier oss med þvi heitari Taarum ad JEsu Footum, og mænum Augunum uppaa hañs Myskun, leggiandi Saal og Lijf honum i Valld, aalijka og graatid Barn hegdar sier vid sijna Moodur: J einu Ordi: Þetta giorir JEsus, so hann locki til sijn allt vort Hiarta, og ad þvi giordu, sundur brestur eirninn hañs Myskunar-rijka Hiarta af nærkvæmri Vægd og Medaumkan, Jer. 31. v. 20. O JEsu minn, opt blygdast eg ad segia Moñum Mein og Angur mijns Hiarta, eñ þier, þu elsku Moodir, hvoria eg vil hvorki, nie fæ, neins dulid, vil eg hryggur og þo hræddur sie, þad opinnbera; þu giorir vid þad allt, sem nærst er þinu Hiarta; Allogur þijnar vil eg giarna aa lijda! Ef eg er undir þeim saart graat-

andi,

andi, þaa lætur þu mig ecki leingi Huggunar bijda; eg er þier fyrer þaa Trw, sem þu hefur i mier verkad, samteingdur, so ad hvad mijnu Hiarta þreynger, þad þreynger og þijnu Hiarta, og lætur þu þad ecke leinge Bootalaust. Reyndur veit best soddan Sañende skyrast fortelia.

Af Cleophæ Andsvare uppaa DRottens Spurs-Maal lære aller JEsu Pioonar saña Tryggd og Hollustu vid sinn Herra, og þad af sialfs hanns Dæmi; ydur byriar ad vera maattugum i Ordum, med soddann Rædu, so Amiñingaña sem Huggunaña, er þreyngia sier inn til Hiartans kroptuglega sem tvieggiad Sverd, ad þier aavinnid Christo sem fleyrsta, hvor eptir þeirri Raad sem honum er giefiñ, aan Afdraattar; Þvi ef þier hyggid grañt ad, mun ydur osofandi þess Þorf synast nu aa Dogum, bædi sialfra ydar og annarra vegna: Pad þarf og endilega ad vera, ad Maattur þessi auglijsist og i Verkunum, so ad þeir, sem þier med hvorutveggiu lijsa eigid, siaai ydur ecki lifandi dauda, Apoc. 3. v. 1. Edur þau somu daudu Verk ydkandi, sem þier hardlega straffed og straffa eigid aa odrum, þvi ef odruvijsi er, hvad vill þvi eptirfylgia? Annad enn þad, ad þier valldid þvi, ad Gud og hanns Ord er forsmaad, og þier so sialfir ad Maklegleikum vanvirdtir: Er þo sw Vanvirda sem eckert, ef onnur kiæmi ecki aa eptir seirna, hvorrar þeir meiga vijst vænta, sem i slijku framfara, og nidurbriota so hrædilega og Blygdunarlauslega þad med añ-

ari Hendinni, ſem þeir læraſt ſo koſtgiæfilega upp-byggia med añari; Hyggium ad ollum Kringum-Stædum fyrre og feirne hier ad kwtande, ſem þa fyrer ollum oblindum opnaſt munu. Vorer Hofud-Preſtar og Hofdingiar ſelldu hañ i Fyrirdæmingu Daudans og kroſsfeſtu hañ, ſegir Cleophas. Pilatus kroſsfeſti ad ſoñu Jeſum, eñ þeſsir þreyngdu honum þar til; ſæ ſem eggiar og ſtirkir eiñ til þeſs illa, ſæ ſem, ſegi eg, ecki hindrar og afrædur odrum ſem kañ, þad illa, mun hann ecki vera lijkt ſekur, ef ecki ſekari, eñ hinir ſæ vijſu er þad giora? Hvad gioriir þad, ad JEſus og hanns Bod eru nu ſo af morgum Foottrodinn? Andſvar; Þetta ſtrax nefndt er ecki hid minnſta, helldur hellſta Orſok, fyrir utann þad, ad þar finnaſt margir ſem ſtirkia einn i hanns Ohlutvendni, vegna Beidni þeirrar bolvudu Agyrndar, ſem i ſiaalfum þeim rijkir; So eru þeir og eirninn til ſem giora eirn og añañ wt til illra Verka, enn þad þridia ſyniſt nu morgum lijtil Synd, þo þeir gamni ſier ad annarra Vondſku, eñ ad þeigia og leggia ecki til, ſkal nu heita Hoogværd og ſtoor Heilagleiki; Eñ Sooparnir eru hvorki ſamannbundnir, og þar med margir Lim-litlir, og þvi maa þetta gaanga ſo wt, þar til Soopur þeſs Hærſta fellur yfir alla, edur og burt ſoopar olldungis ollu ſoddann Endemi i ſinni Reidi: O Tijd! O Tijd! Sem nu ſyniſt ad bijda þeſſarar Tijdar.

O þu hærſti HErra JEſu, ecki ad eins Selſkapur Gydinga, helldur mijn Bloodug Illſku-

Verk

Verk silldu þig i Kvalir og Krossins Dauda. Einusiñe er þad noog: O ad eg giorde ecke slikt optar! eg vil, eg vil feigenn bæta mig, enn þijn Hiælp styrki mig þar til! Þu hefur med þinni Kvøl oss alla endurleyst, þar uppa skal sig forlaata, og þvi trwa, ad Syndir mijnar muni ecki kunna ad hamla þvi, ad eg næi med þier, min Herra, Jñgaungu i þitt Dyrdar-Rijki; ad fullu sanna eg þad þa, ad þu hafir mig frelsad, nær þu veitir mier oendanlega Unadsemd Fognud og Gledi i þvi eilijfa Fodur-Landi. Cleophas seigir framar, ad Kvinnurnar hafe skielfst þaa med siinu Tali, er þo mætti vera þeim hinn stærsti Gledi-Bodskapur, hefdu þeir þann Tijma samannborid þad vid Jesu Fyrirsagnir æ dur um sijna Uppriisu; en slyks giættu þeir ecki, þeirra Harmur og Trwarveik sliet þeim ecki eptir ad sinna neinum Gledi Sognum. So geingur þad og einnig opt til fyrir oss; vort æingrædt Hiarta kiemur ecki alltijd fyrir sig æ soddann Tiid riettri Þeckingu Hlutarins, Esa. 38. v. 11. Þad verdur þa stundum ad Skielfingu, sem annars piener so til Huggunar, þvi Holldsins Skilningurinn i Mootlætinu er blindur og hindrar fyrir Trwnni, og þeim riettu Skilnings-Augum, 1. Cor. 2. v. 14. Verdi þaa sagt til eins Krossberara: Þier geingur vel, þvi þu ert Guds Vinur: þa kiemur honum þesse Sañleikur so undarlega fyrir, sem sie þad Hardyndi og stoort Vorkunarleysi, jafnvel þo hann meigi vita þessa Bevijsing þar uppaa: þessi Hryad sem

Stundleg og liett er, wtvegar ollum Þolinnmoodum Jesu Kroßberendum eina eilijfa og yfir allan Maata mikla Þijngd Dijrdariñar, 2. Cor. 4. v. 17. ja, Mañins Trw i Hormung Freistingaña er nærsta lijk einu Skipi, sem hrekst i stoor-Bilgium og sterk-Vidri, hvoru þa og þa liggur vid Hvolfi, eñ steypist þo ecki olldungis, Psalm. 107. v. 17. Enn þar fyrir steipist Trwinn ecki, ad Drottinn kiemur so opt i Leitirnar, og helldur sialfur vid, nær allur Mattur og Þol vill til Grunns gaanga, ja, nær sletia ætlar so mioq, ad varla er ad finna eina Hnijfs Eggiar Þickt millum Lijfs og Dauda, þa snijr Guds Vægdar og Naadar-Hond þessu Hreosi aptur til riettrar Raasar. Minn goodi JEsu, sem þeckir og grædir soddann Hættu Saar; Eg trwi ad sonnu, enn hiaalpa þu miñi veikri Trw, og þo mig aumann vilie nu margt mæda, og ett Angur odru filgia, þa vona eg ad þijn Giædska muni snart koma, og þessu Vatni i Vijn snwa, Amen.

# 19. Capituli.

Um Predikun Christi fyrir Lærisveinunum a Veginum.

OG hañ sagdi til þeirra: O þier heimskir og tregir i Hiarta ad trwa þvi ollu sem Spaameñirnir hafa talad; blaut Christur ecki þetta ad lijda og iñganga so i sijna Dijrd? Og hañ tock

## took til fraa Moyse og øllum Spaamoñum, og lagdi wt fyrir þeim allar Ritningar, þær af hønum voru.

ÞEgar Cleophas (sem aadur er um̃gietid) hafdi opnad og auglijst Saarinn| þeim Himneska Læknir JEsu Christo, þaa liet hann eigi leingi unddanndragast ad giora þeim til gooda. Fyrst hellir hann þar inn beisku Vijni, siñar Stroffunar, og kallar þa Heimska og Trega; þvi sannlega er sa Heimskur og nærsta faavijs, sem fylgir Hollds Skinsemińni i Trwariñar Efnum, 2. Cor. 2. v. 14. Þvi hinn sami er lijkur þeim Mañi sem kveikir eitt Lioos midt i Byrtu Soolarinnar, i þeirri Meiningu, ad hann siaai betur til, eins sem Lioosid sie biartara eñ Soolinn, sem þo eckert lijsir i hennar Lioosi: So er og saa nærsta faavijs, sem ecki vill trwa nema þvi Einu sem Lijkamleg Augu siaa, og Hendurnar aaþreifa, þo finnast soddañ Heimskingiar fleiri eñ skylldi, og þad meira er, ad þeir vilia ecki laata sier undirvijsa, og forsmaa Vitskuna, Prov. 1. v. 22. Og med þvi þeir akta ecki um̃ hvad Guds Ord seigir þeim, verda þeir ad Vantrwudum Þussum, Rom. 1. v. 22. Meir elskandi Lijgina eñ Sañleikañ, og falla þvi opt i Orvænting; So geingur þad þeim sem hata Typtun Drottinns, og ei vilia sier til hañs snwa aa medann DRottinn fram̃bijdur Naadina, Esa. 65. v. 2. Þau Ord er eg tala, þau eru Andi og þau eru Lijf, seigir vor HErra: Ha-

miñ

mann Gud, þau eru einasta Huggun mijns Hiarta, og ædsta Lækning allra minna Meina, i allri Afstrijdu mitt Lyf-Akter sem alldrei forgeingur. Eptir þvi sama þijnu Ordi, sem er Jlmur Lijfsins; 2. Cor. 2. v. 16. Verdur þo ad auvilta þeña hardhnackada og hreckvijsa Heim, i Tijma og O-Tijma, og þo han trwi ecki þeirri Predikun, þa hlijtur su ad vera Vidvörunin, Ezech. 33. v. 2. Ef ske mætti ad hønum yrdi snwid fra Helvijti.

Saal mijn, forakta ecki Typtan Drottins, og lat þier þad alldrei mislijka, þo Guds Þionar straffe þinar Synder, elska þaa miklu framar fyrir þad Verk, þvi þeir vilia þar med leida þig fraa Myrkrenu til Liossins, fraa Dioſulsins Rijki til Guds Rijkis, þvi nær þeir hafa leidt þig til Saarsanna Þeckingar og þeirra Tilfinningar wt af Løgmaalinu, og finna þig slijkt hatandi og hafnandi Syndinni, leida þeir þig i Smyrsla-Hws Drottiñs Naadar Fyrirheits og JEsu Forþienustu, sem þig þaa grædir, so þa kiætist Gud og hañs H. Englar, Luc. 15. v. 7. 10. Þaa kiætist þu, þaa kiætast Drottins Eyrendsrekar, og allir þeir sem aa Guds Parti standa; Allt soddann sier þu hier satt ad vera, þvi þegar JEsus hafdi straffad Lærisveinana, huggar hann þaa strax aptur, segiandi: Hlaut Christur ecki þetta ad lijda, og inngaanga so i sijna Dijrd? Sem villdi hann segia: Þad sem Jesus af Nazareth hefur lidid, þad hefur hañ lidid Mannlegu Kyni til Saalunar, og þad af aaliktudu Guds

Raade,

Raadi, sem giordist aadur enn Madurinn var skap-adur, Eph. 1. v. 4. Pad er og allt fyrir-sagt, þvi kuñe þad ecke ad slaa Feil. Miñ Sæte HErra! Eingeñ naudgade þier ad lijda so beiska Kvol og Pijnu, Pijn Elska og Ouñrædeleg Hiarta-Giæds-ka til Mañkynsens, ad þad fordæmdest ecke, kom þier til þessa, hier fyrer gafst þu þig viliugur i sodd-añ Pijsler og hrædelegar Kvaler; Mijn Saal, soddañ Elsku þijns HErra laat þier alldrei gleym-ast, Laat hana, seige eg, vera þier Eina sijfellda Upp vakning ad þiena med Trigd og Elsku þessum þijn-um Uñusta, so og ad taka viliug hañs Kross uppaa þig, sem er þier eirn Heilsusamlegur Kaleikur, Ps. 116. v. 13. O eitt Astar-Teikn Guds! Pu kant ecki ad faa stærri Æru hier i Heimi, helldur enn ad bera Krosseñ eptir Christo, so þu lijkist hañs Hrigd-ar-Mynd hier i Tijmanum, uppaa þad þu faair ept-eraa, hanns Dyrdar Mynd ad bera Eilijflega.

Pegar nu þitt Holld, sem alltijd gyrnist i mooti Andanum, amast vid og mootþægist Krossi þijns HErra, þa þagga þad nidur med þvi ad leida þier i Hug þetta Prent.

1. Guds Raad, sem aalyktad hefur, ad einginn skuli aa Himnum Coronast utañ saa, sem aadur hef-ur Riettilega barist hier aa Jordunni; oss byriar, seigir Postulinn, fyrir margar Hormungar inn ad gaanga i Guds Rijki, Post. G. 14. v. 22.

2. Laat þier i Hug koma JEsu Eptirdæmi, hafi hañ lidid, so maattu og lijda, ef þu skallt lijkiast hon-

honum, Fyrst Elskañ hañs til þijn, þvijngade hañ ad lijda fyrir þig, so skal og Elskann þijn til hanns þvijnga þig ad lijda og giora þad hann þier bodid hefur, 1. Cor. 4. v. 14. so ad eckert skai þig fraa honum og hanns Elsku skilid.

3. Laat þier i Hug koma þaa Eptirkomande Dijrd, sem Krossenum fylgir, og Coronu Lijfsins, sem þu aatt ad faa til Launa (eptir Guds Naadar Lofordi) fyrir þessa Hrygd sem Stundleg og liett er, og ecki hennar Virdi. Rom. 8. v. 18. Athugir þu undir Krossins Oki grant þessar Orsaker, muntu framar fagna Krossinum eñ mootþægast honum, þvi þad er illt Nafn ad heita Ovinur Krossens Christi, og eiga sijdann fyrir Hondum Fordæmingarennar Æfilok: Phil. 3. v. 18. 19. Hugsa þu framar aa þad, ef þier er þijn Velferd kiær, ad vera ecki lijk þeim Selskap sem þessa Yfirskrift hefur, og vit ad faa maa hier nidursaa i Taarunum, sem þar skal med Fognudi uppskiera; Þvi hvørninn skal Gud þerra þau Taarinn sem alldrei hafa runnid, og hvørninn kunna þau ad renna hiaa Sij-glødum Sælkiera þessa Heims, sem hvørki þeckir Gud nie sialfann sig.

Loksins lagdi JEsus wt fyrir þessum Lærisveinum allar Ritningar uñ hann talandi: þa sæ eg best ad þeckia þig minn HErra JEsu, nær þitt blessad Ord undirvijsar mier uñ þig, sem bædi gledur og giørir vijsa þaa Einfolldu. Ps. 119. v. 130. Þu Blessada Sarons Bloomstur, þijn Ord eru sem

Alid-

Alldingardur, i hvorium þaug Alldin spretta, sem kiæta Mannsins Saal og Hiarta, og giefa Saaluhiaalplegann Viisdoom þinnar sonnu Kynningar; J oðrum eñ þessum Alldingardi giefst slijkt ecki. Þu ert, O JEsu, sem eitt Gull-Epli i Silfur-Skaal H. Ritningar, Prov. 25. v. 11. Þad sama Edla-Hnoss er minn Fiesioodur, hvorn mijn Saal elskar, og gyrnist af Hiarta, þvi hann enn eckert annad, er hennar Einka Unun i allri Neyd og Angist; Lattu O JEsu þijn Ord gledia mijna mædda Saal i Lijfi og Dauda, og eptir Daudañ, a þvi sijdarsta Allsheriar-Þijngi, AMEN.

# 20. Capituli.

Væn Lærisveinaña ad Christur væri hia Þeim.

ÞEgar þeir tooku ad naalgast Kauptwnid þad þeir geingu til, og hañ liet þa sem villdi hañ leingra gannga, þeir neyddu hañ og sögdu: Vert þu Hia Oss HERRA, þviad KVÖLL-DAt tekur, og a DAGJNN lijdur.

HVort Ar hefur sinn Utgang, og hvor Dagur sijna Ending, so og eirninn þetta auma og vesæla Lijf, þad fær og uñ sijdir ad sia sijna Endalikt: mijnir Dagar, med öllum Þwnga og allri Armædu sia loksins sitt Kvölld, a hvoriu eg fer alfarinn wr Heiminum, i Himininn, Job. 23. v. 14.

vor Strijdenu i Sigurin, vor Sorginni i Gledina, Jaa, vor allri Veralldar Astrijdu i Hendur Drottenus, Spek. 3. v. 1. Þa er eg kominn i þad Himneska Emaus, til hvors minn Hugur hefur hier opt hvarflad, Hiartad eptirlaangad og Augun mænt, og hvort eg nu til þess Tijma þraai marga Stund, Phil. 1. v. 23. Hier þykir sumum gott ad vera, enn Hiervera laung, er laung Plaaga; hier plaaga Syndir, hier plaagar Verolld, hier plaagar Dioful og Freistingar, fyrir utann Hvors-Daglega Mædu, þvi Eirn Dagur med Odrum hefur sijna Byrdi, og opt er aa Einum Deigi ecki Eymd Ein; Enn i þvi Himneska Emaus er feingin full Boot allra Meina. EJA VERUM VJER ÞAR!

Þegar Lærisveinarner nalægdust Kauptwnid, liet JEsus sem villde hann leingra gaanga. Christenn Madur, Kross og Hormungar eru ad sonnu Hollvenu beiskar, þvi þa klagar margur og seigir: DRottinn hefur aangrad mig, Saa hinn Almaattugi hefur hrellt mig; ei ad sijdur erum vier aa soddann Tijmum nalægri þvi Himneska Kauptwni aa margann Haatt, þvi Hiartad forbetrast vid Hrygdena, þad sem aadur var kalldt og dofid, verdur þa klockt og Tilfinningarsamt, þad sem aadur ecki synti um DRottinn, þad leitar þa DRottins: Enn þad er Hormunginn mest, þegar DRottinn synist ad laata þaa, sem vilie hann forlaata eirn Kross-Berara, so hann hlijtur ad klaga med Job og seigia: Þu ert mier nu umsnwinn til eins, sem er hrædilegur og

audsynir Þijna Reidi aa mier, med Þeim Styrkleik-
num Þinnar Handar, Job. 30. v. 4. So og med
David seigiandi: Þvi geingur Þu so fiarlægt, og
geymir Þig aa Hormungar-Tijmanum. Ps. 10.
v. 1. Somuleidis med Jeremia, ad DRottenn
hegdi sier sem Giestur og Framandi, Jer. 14. v. 8.
Thren. 3. v. 3. Og snwi Hendinni i mooti sier: Eñ
uñ soddañ Guds Vidhendlan vid sijna, skyniar
Mann ecki alltijd, og kiemur Þvi ecki fyrir sig i Hor-
munguñi hvad soddann hafi ad Þijda, helldur verd-
ur opt Oþolinnmoodur; Eñ DRottiñs Tilgaang-
ur i Þessu er saa, ad Þessara Trw Riettileg og miklu
dijrmætari fundinn verdi helldur enn forgeingilegt
Gull sem i Elldi er reynt, til Lofs, Dijrdar og Heid-
urs, nær JEsus mun opiñberast, 1. Pet. 1. v. 2.
Alijka er Þetta, Guds Barn, og nær goodur Vin-
ur sijnir sig afundinn vid Þañ sem hañ elskar Þo heitt,
enn ætlar honum i Huga sijnum mikla Upphefd og
Æru eptir aa seirna. Samt maa Þvi ecki neita, ad
Þessar Raunir sieu saarar og all-vidkvæmar medañ
Þær yfirstanda, og hitti Þær Þig, er audmiwkrar
Bænar Plaastur hin besta Lækning vid Þessu Saa-
ri, sem Dæminn morg sijna, bædi Þetta Lærisvein-
aña og fleiri, hun afrek̄ar alltijd hiaa DRottni uñ
sijdir einhvoria Linun og Lækning, hvorrar Þu skullt
bidiandi bijda Þolinnmoodur; Skoda Þu Dæmid
aa Þeirri Cananeisku Konu, Matth. 15. v. 22. seq.
Sem er eitt hid Ljoosasta hier uppaa: So og Eck-
iuñar, hvorrar Bænar-Naudan kom uñ sijdir
G Þeim

þeim Ranglaata. Doomara aa Stad til ad hiaalpa henni, hvar yfir JEsus giorir soddann Aliktan og seiger: Skyllde Gud þa ecke giora Frelsun siña Utvalldra, sem Noott og Dag til hañs kalla, eñ þo hañ hafe Poliñmædi þar yfer? Luc. 18. v. 7. Þetta er nu þad Ofriiki, sem Christur seigir ad Himnariiki poli, og þeir sem Ofriikid giori, þeir hremi þad til siin med Makt. Matth. 11. v. 12. Jaa, Gudhræddra Bænir giora sialfum Gudi þetta Ofriiki, hvert hañ giarnann lijdur. Þo eirn Fader væri hardhiartadur, þa mætti hann þo Frida sig ef Børninn umkriingdi hañ og grieti; þvi munu þa ecki Guds Barna Taar viña aa Myskunar-Hiarta Guds, so hann heyri og Bænheyri, sem giorir hvad þeir Gudhræddu gyrnast, heyrir þeirra Andvarp og hiaalpar þeim, Ps. 145. v. 19. Eg er viss uppaa, ad alldrei mislijkar þier þad, Drottiñ miñ, þo eg med Bæninni neydi þig, og halldi mier aa þier, þvi vil eg alltijd giøra þad, og mu alldrei missa þig; misse eg þig, þa missi eg Lijfid og allt Gott; Eg er nu opt hrongradur eptir þvi, ad faa ad eignast þig ad fullu Leiti, Ps. 42. v. 3. Og su Dvøl eykur Stundum Hiartanu Trega; og hvad mundi þad þa vilia verda, skyllda eg midt i þessu missa þijna Andlega Naalægd, og siaa þijn aa Bak; O JEsu, laat þad ecke skie, Vert þu mijn Huggun i Hrygdinni, mitt Lioos i Myrkrenu, mijn Hiaalp i Neydiñi, þangad til þu ert allt i øllum. Eg kañ ecki med mijnum Penna, ecki med Tunguñi, og ecki

i Hug-

i Huganum upptelia allar þær stooru Naudsyniar sem oss þriista meiga til ad bidia JEsum hiaa oss ad vera, og hvad mun eg Faavijs þad kunna, sem eg helld ad einginn gieti fullkomlega; Enn þad veit eg sem allir meiga vita, ad Kvölldar nu ærid miog aa marga Vegu i þessum hætta-Heimi, Jer. 6. v. 4. Og fyrir utann oñur hañs Kvöllds-Rockurs Vitni, eru allar Stiettir i hvorium hryggilega Kvölldar; þad giörir morgum Guds Börnum Hrædslu og Hiartans Angur; þad er allt vel þo liidi aa þeñann Veralldar-Vetur, þvi fagna Guds Born, og þeir allir aa medal þeirra, sem Von-goodir ordnir eru uñ snart-lidinn Hörmunga Vetur sinnar Hiervistar med Simeone; Enn hitt er Hörmung ad vita, hvorsu allri Dygd og Dadum Kvölldar i öllum Stiettum. J þeirri Andlegu Kvölldar hreirni Kienningu Guds Orda, eñ Fals-Lærdoom ur og Villur hafa viida Yfirhönd, so alldrei veit nær ad JEsus er, olldungis wtrekinn; og þo hann sie enn aa Twngunni, og hanns hreirn Lærdoomur, drottnar ei ad sijdur Raanglætid, sem ei kañ ad foreinast vid þetta Lioos, utann añadhvort sie reyndar hatad. J þessari Stiett synist Bwksorginn opt wtreka Gudhrædsluna, og trwa Astundan Embættis Verksins; Agyrndinn teingist so vid þessa sijna Systir, Luc. 16. v. 14. Matth. 23. v. 14. Ad Riettvijsi og Myskunar-Verkum verdur gleymt; Hræsninn samlagar sig opt þessum, er sig auglysir i Talenu vid Stoor-Meñeñ, hvorium sþaad verdur

Sigur-For naalega i hvoriũ Verki og Athofn ſem Achab Fordum; Hier vid bætiſt Stroffunarleyſi Syndanna, Ezech. 33. v. 8. ſem nu hefur Hoogværdar Nafn a þeſſu Kvolldi. Soddann og fleiri Odygdir, ſem nu fara i Voxt, ſkarta ſtoor illa a ollum, eñ þo veſt a þeim ſem lijſa eiga odrum, bædi med Lærdoomi og Lijferni i þeſſu Rockri, og af hvorium, nær Dagiñ til fulls byrtir, heimtur verdur Reikningur Saalnanna. J þeirri Veralldlegu Stiett Kvolldar eirninn ſtoorlega, þvi fyrir utaan þad, ad hvor Unglingurinn hleipur uñ añañ þverann i þetta Sæti, og ſoddann Zoans Hofdingiar Eſ. 19. v. 11. ſæka nu ecki, hvar fyrir Loginn verda a Eyrunum dreiginn; þa hafa nu Mutur og Fie-Giolld eitt ſtoort Geingi, hvoriar Ogudleigir Menn þiggia, og begia ſo Veg Riettarins, Ordsk. 17. v. 23. Eſ. 1. v. 23. Þeſſa maa ſaa Aumi og Faatæki giallda, enn til hins Rijka er ſagt: Ydar Þienari, Farid i Fridi. Þier Guds Foolks Doomendur! variſt ſoddann, Ottiſt O Rottinn og vijkid fraa Illu, ad ei verdid ſiaalfir ſijdar i Reidi dæmdir, þvi lijka haſi þier Reiknings ad vænta.

J Hwsſtioornar-Stiettinni Kvolldar og, þvi þar rijkir Aſmodeus, Hatur og Ulfbwd medal ſumra Hioona, Þar ſiaaſt Agalaus Born, med illra Forelldra Uñmerkium, og a þeim Akri erú margar Netlur og Þyrnar Prov. 24. v. 3. Laſtanna, ſem giorir Hiartans Angur. Þar maa ſiaa a ſumum Hiwum Krans Odygdaña, Svik, Ohlijd-

nt.

ni, Agyrni, Ulfbwd, Drambsemi, og adskilianleg Jllsku-Por, sem nu ganga Fiollum hærra. Og hvor kañ i stuttu Maali ad upptelia allar þær Svivirdingar sem nu eru i fullum Proska a þessu Kvolldi Verallbdarinnar. A Sodomæ Borgar-Kvolldi lifdi hun i hrædilegum Skomum, sem hroopudu i Himininn, hun foorst og i Drottinns Reidi-Elldi; Eñ hvad nu Jllsku Kvolld-Verkum Heimsins (og a medal annars þessa Lands) eptir-fylgir, veit Gud, hvor leingi hefur þolinnmoodlega bedid, og eñ bijdur eptir Boot. Gud giæfi ad Meñ villdu þeckia sijna Vondsku! Eñ hvad skiedur? Þeir þurka Munninn med Hoor-Konunni og seigia: Eg hefi eckert illa giort, fyrir þvi mun þar verda Eirn vondur Tijmi. A Kvolldiñ geingur Sooliñ undir; Enn O JEsu, þu Blessada Sool Riettlætisins, haf Þolinnmædi, gack oss ecki undir, helldur lijs hvorri Stiett, so hvor eiñ i sijnu Embætti betri sig og læri rett ad giora, snuw þu oss, so er oss snwid, lækna þu oss, so verdum vier heilbrigdir; Enn þu hugleid, O Madur, ad Kvolldi þijns Lijfs, sem kiemur uñ sijdir, og vert ecki vid þvi varbwinn, þu veist ecki nema þetta Kvolld verdi þitt hid sijdarsta Kvolld. O JEsu! Eg þraai sem Pioonn, epter þessu minna Lijf-Daga Kvolldi, yfirgief þu mig alldrei, helldur vert þu mier naalægur med þijnu Hiaalpprædi i Lijfi og Dauda, AMEN.

* * * * *
* * *

# 21. Capituli.

Um̃ Peckingu Lærisveinan̄a a Christo i Giesta-Herberginu, og Aptur-Snwning, til Jerusalem.

HAnn gieck in̄ og var hiaa þeim. Og bad skiedi þaa han̄ sat med þeim til Bords, ad han̄ took Braudid, blessadi þad og braut, og rietti ad þeim; Pa opnuduſt þeirra Augu so ad þeir þecktu han̄, og han̄ hvarf fraa þeirra Augum. Og þeir søgdu sijn aa milli; bran̄ ecki Ockar Hiarta i Ockur þaa han̄ taladi vid Ockur aa Veigenum, og opnade fyrer Ockur Ritningarnar? Og þeir stoodu upp aa sømu Stundu, og snieru aptur til Jerusalem, og fundu þaa Ellefu saman̄safnada, og þaa sem med þeim voru, hvorier ed søgdu: DRottin̄ er sannarlega upprisinn og hefur byrtſt Simoni; Og þeir søgdu hvad giørſt hefdi aa Veiginum, og hvernin̄ þeir hefdu þeckt han̄ i þvi han̄ braut Braudid.

ÞO ad saa Almaattugi Gud sie i Raun og Sannleika einn Osigrandi HErra, og Oyfirvinnanlegur Gud, þaa verdur hann þo sigradur med Bæn

eins

eins syndugs Mañs, sem mörg sannferdug Dæmi sanna. Nær þeir Heidnu villdu Godum sijnum hiaa sier hallda, giordu þeir sier Gullvidiur og bundu þau med; enn so skallt þu ecki heimsklega imynda þier Almættis DRottinns; þviad eins kannt þu honum hiaa þier hallda, ad þu brwkir þar til trwada Bæn ydugleg a. Eg veit og trwi, HErra JEsu, ad eg er innlæstur i þijn blessud Myskunnar Ydur, i hvorium þu hefur vitiad og fundid mig, eg trwi og ad einginn Haaski, Neyd edur Sverd kañ mig ad slijta wr þiñe Hende, og alldrei yfer giefur þu mig; þegar eg hefe til þijn kallad i mijnum Bænum, þa hefur þu alltijd giegnt og hiaalpad mier, mig mun og hier eptir ecki helldur neitt Gott bresta af þinni Hendi; þvi þu ert Stirkleikur Lutilmagnans, Stirkleikur hins vesæla i Hormunginni, Eitt Skiool fyrir Stormvidrinu, og Eirn Skuggi fyrir Of-Hitanum, nær ed Vijkingurinn Olmast, so sem Eitt Hretvidri aa mooti Einum Vegg. Esa. 25. v. 4. Jaa, mijn Bæn til þijn i Neydinni bindur þig betur hiaa mier enn nockur Gull-Vidia, þvi Bæn hins Faatæka heyrir þu giarnann, og aangradann Anda fyrirlijtur þu ecki. HErrañ blessadi hier og braut Braudid, og fieck þad Lærisveinunum. Þetta var ein Almennleg Maaltijd, þvi ecki er hier (ad mijnu Viti) neitt talad um Sacramentid, og ber sliikt ollum vel ad hugleida nær þeir medtaka Guds Gaasur edur Fædslu sijns Lijkama, þvi allt vort Uppheldi þigg-

sum vier af Mÿskunar Hendi Guds, hvorri hann upplijkur, og sedur allar lifandi Skiepnur med sinni Blessan: Psalm. 145. v. 15. Þvi skal og sierhvor, fyrir audmiwka Packlætis Hond, rietta slijkar Gaafur Guds i JEsu Hond, eñ gleipa ecki Braudid sem Gijrugur Hundur, helldur med Bæn og Blessan medtaka þaa Fædu, sem Lijkamañ skal sedia og endurnæra; Þu skallt og, hvor sem þu ert, vakta þig, ad snara ecki dreyssuglega fraa þier, nie undir Fætur, þeim smaau Braud-Mólum, hvar med Skaparinn verdur foraktadur, enn þvi Forakti fylgir aa eptir Hwngur og Olucka. Hondla þvi alltijd vel med Guds Gaafur, og nær þu ert mettur, prijsa hann, so munt þu ei Skort hafa aa hanns Hiaalp; Vert ei Svijnunum lijkur, er þau nidurfallandi Epli af Eikunum upptijna, eñ til Triesins reña þau ecki Augunum; Þeim Svijnum er þo saa Madur lijkur sem þyggur og þackar ecki: Soddañ Svijna og Hunda Art fordast þu. Medtakir þu nu Gaafur Guds, sem þier er sagt, og aflir þu þeirra i Sveita þijns Andlitis, froomlega i þinni Stiett, þaa rietrir Jesus ad þier og brijtur þier þad Braud, sem hañ vill blessa; enn hvor sem stelur, ruplar og rænir Braudinu wr annarra Hendi, hann maa med riettu segiast ad medtaka soddann Braud wr Satans Hendi, hvoriu ad fylgir Bolvan eñ ecki Blessan. HErrann hafdi nu ecki Þórf þessarar Maaltijdar, og ei hyrdti hann um hana; þu skallt þo biooda þijnum HErra til

Bords, Guds Barn, hvad þu og giorir, so hann er so gott sem þinn Bord-Giestur, ef þu sedur hans þurftuga Limi eptir hanns sialfs Bodi, hvoriu Myskunar-Verki þijnu ad þa eftirfylgir rijkugleg Tijmanleg og Eilijf Blessan, þvi þad þu þessum giorir, reiknar hann sier giort vera. Es. 58. v. 7. Matth. 25. v. 34. seq.

Vid hier greinda Drottinns Hondlan opnudust Lærisveinanna Augu, so ad þeir þecktu hann. Af Blessan Drottins maattu og, christin Madur, skynia Guds Naadar Naalægd alltijd, þa skylldu þijn Augu opnast til ad þeckia Guds Hatign og þinn Audvirdilegleika og Overdugleika, ja, Guds allt, og þitt eckert. Ef so være, mundir þu audmykia þig, enn ecki vestna i Drambi og Oddygdum, sem margur blindur nu giorir, giætandi þess allijtt, ad Guds eru allar Eigur, enn vier erum Raads-Menn þeirra margra, er þar af skulum Reikning HErranum standa a sijnum Tijma.

Ritninginn segir, ad Adams og Evu Augu hafe opnast eptir þad þau voru i Syndina fallinn, þa saau þau hrygg og hrædd sijna Blygdan, Gen. 3. v. 7. og Missir þeirrar sonu og Blessudu Guds Myndar, þeynkiandi einasta a Kvolina og Daudann, enn saau aungva Linun nie Harma-Boot. Og þessi Synda-Arfur er so rijkur med odru Illu, lijka vel i morgum sem þo eru af Gudi endurfæddir, Luc. 8. v. 13. Ebr. 3. v. 14. ad þeir vilia ecki þeckia Gud ef hans Gæsku, edur audmyk iast vi

hañs Lauglundar-Gied, margfalldt Eptirlæti og Velgiordir, ecki heyra talad um̃ Syndina, þvi siydur þeckia hana, þar til þeir eru um̃ Koll dottnir, og Guds Vondur Hwdflettir þau, og siaa þeir þaa stundum so hryggver sijna Blygdan, ad þeim verdur varla Trw talinn um̃ Guds Raad i Christo JEsu. Psalm. 38. v. 4. Eckt so, christinn Madur! Helldur þar sem Drottiñ fuijr so opt ad þier sijnum Myskunar og Velgiorda Fadmi Eina Tijd eptir adra, bædi Andlega og Lijkamlega, þaa læt hier segiast i Þeckingu þijns HErra aa soddann Naadar-Tijd, sem þessir Lærisveinar, hvorier hier i Emaus, vid Braudsins Brotningu, þecktu hann uppriſinn vera, og glødduſt Hiartanlega, sannandi þar med, ad JEsus hefdi fyrir sijna Uppriſu ollum trwudum Guds Bornum andlega uppriſandi afrekad eilijfa Blessan og Skrwda Riettlætisins, so þau skylldu alldrei framar meir nakinn finnaſt. Gal. 3. v. 17. Opinb. 3. v. 18.

Medañ þessir Lærisveinar voru aa Reisunni, og JEsus taladi fyrir þeim af Ritningunum, brann þeirra Hiarta i þeim, sem þeir hier sijdar auglijſa. So skal og saa andlegi Guds Orda Elldur, hvorn JEsus einnig fram̃bijdur þier aa þessari þinni Reisu, upptendra i þier, þu Guds Barn, andlegann Elld Trwarinnar, Gudhræddslunnar, Fagnadarins og Kiærleikans, þvi þar sem Guds Ord, er Guds Ord, eñ ecki Mañaña Ord, so hefur þad og

Gudlega

Gudlega Verkan i þeim og þeirra Hiortum er þad medtaka riettilega, og er þeim sem ein Leidar-Stiarna, hvor þeim lijser, so sem hid fegursta Lioos aa dimmi Veigi þessarar Villugiornu Syndi-merkur, Psalm. 119.v.105. vermandi þau Is-kolldu Hiortun; Jer. 23.v.29. Jaa þad bless-ada Ordid Drottinns er Sædi allra Dygda, i hv-orium hellst Akri sem þad fær Rwm og Rætur.

O Herra JEsu, hvad kallt og dofid er optsinn-is mitt Hiarta! Þar eru inni margfolld Synda og Sorga Myrkur, sem þiaa og aangra mijna Saalu, og þau andlegu Auguñ eru opt ærid Sioon-dopur; Söddann Eymd mijna aalijttu i Naad minn Hiartans HErra, verm þu og gled mitt Is-kallda og sorgandi Hiarta med Himneskum Astar-Elldi og Huggun þijns H. Anda, og laat so þitt Ord og Liooma þijns Andlitis, sem upplijsir Aug-unn og þerrar Harmiñ, lijsa mier wr ollum nu yfir-standandi Mootgaangs-Bylgium og Syndanna Skugga til eilijfs Lijfs, Liooss og Gledi. Læri-sveinarnir stoodu strax upp, sooru og kunngiordu sijnum Med-Brædrum sier meddeilldann JEsu Opinnberunar Fognud. Þegar þu snijst, þa stirk þu Brædur þijna, sagdi JEsus fordum til Pet-urs, Luc. 22.v.31. Þegar vier medtekid hofum Sætleika DRottinns Naadar og Myskunarrijk-ustu Velgiorda Andlegra edur Lijkamlegra, þaa eigum vier ecki ad hallda slijku fyrir oss einsamla, helldur so sem þægg eptirbreitandi Born, giora

odrum

ødrum hid sama gott af Elsku og Kiærleika, sem vier i Trwnni finnum ad JEsus hafi oss giørt: Saa sem af honum er upplijstur, upplijsi einn annañ i Myrkrum og Villu sitiandi: Saa sem huggadur er, huggi aptur i móot þaa hryggvu, og so i sierhvøriu; Þvi hid tendrada Lioos, skal ecki setiast undir Mæli-Ask, helldur aa Kierta-Halldinn, so þad lijse øllum þeim i Hwsinu eru, Matth. 5. v. 15. og christnum Manni byriar ad vera sem fagri Roos, er gledur adra i þeirra Hrygdum, þvi søddann skartar vel. Miñ Gud, giefmier þad Hiarta og Sinni, ad eg, af þier huggadur, huggi adra sorgandi, med hvørt Slag sem eg megna, og þier er Dijrdleaт, enn þijnum Børnum þarflegt, so þinn Prijs af mier wtbreidist alltijd, og i alla Stadi, AMEN.

## 22. Capituli.

Um̃ Tijmañ aa hvørium JEsus kom til Læri sveinañа, þaa hañ byrtist þeim fyrst i Jerusalem.

ENN seinast, er þeir Ellefu saatu til Bords, byrtist hañ, og þa er þeir tøludu þetta, var Kvølld þess Dags sem fyrstur er Vikuñar.

ÞEtta Kvølld, sem JEsus byrtist fyrst Sameiginnlega Lærisveinunum, var þess Dags, aa hvørium hann hafdi sneiña Morguns upprisid, hvør

or Dagur nu er vor Sunnudagur, sem adur er umgietid. A þessum sama Deigi hafdi hann byrt sig Mariu Magdalenu, so og Kvinnunum til samans, þar næst þeim Emaus Vegfarendum, og siidann Petri, enn siidarst ad Kvolldi byrtist hann hier Læri-sveinunum til samans, ad ei skylldu þeir hanns til Morgundagsins biida Harmþwongnir; og er slijk DRottins Adferd einginn Nyung, hanns Vani er ad koma hvad hellst til sinna þegar þeim liggur mest aa; Nær i oll onnur Skiool er fokid, opnast þeim þetta Skiool, þvi þess verdur þa og eirninn hvad Hiartannlegast leitad; þegar Medlætis og Fridar Dyr þessa Heims eru Guds Bornum byrgdar hid Ytra, liwkast þeim upp Mystunar Dyr DRottins hid Jnnra, med Fridi og Huggun H. Anda; Þegar Sorg og Daudi striidir aa Utvortis, þa er hann med Gledinnar Fortolum Jnnvortis. Haf þvi i Minni, þu Guds Barn, Kvolld-Veniu Tiima Guds Hiaalprædis, enn þa er Kvolld komid nær mest aaliggur. So byrtist þa Gud ad Kvolldi vorum fyrstu Foreldrum, og gaf þeim i saarri Synd og Dauda stoddum þa sætustu Hugsvolun umm Kvinnunnar Sædi, sem þau, og oss alla siidann endurnærir, Gen. 3. v. 15. Nu syndi JEsus þetta Fyrirheit Guds uppfyllt vera, med Sigri sialfs siins Uppriisu a þessari Kvolld-Stund, er hann kom til Læriisveinanna; þa var Hoggormsins Hofud sundur marid, og hann ollum siinum Herklædum svipt, samt hanns Armleggur sundur brotinn, hvar

vid Saalinn sig fagnandi gledur, því JEsu Christi o rs Herra Lijf og Sigur, er vort Lijf og vor Sigur eilijflega. Á Kvollds-Tijma kom Dwfañ aptur i Orkina med eitt afbrotid Oliu Lauf-Blad, af hvoriu Noe fagnandi formerkti, ad Flooded væri þverrad a Jordunni, Gen. 8. v. 11. Frelsarinn JEsus (yfir hvorn sw himneska Dwfañ H. Andi kom fyrri i hanns Skijrn) kom hier og a Kvollds-Tijma til siña Lærisveina og færdi þeim hid ylmsætasta Oliu-Lauf-Blad sinnar Fagnadarfullu Fridarbodunar: Saa blessade H. Ande kiemur enn i Nafni JEsu Christi i Hiortu Guds Barna med margt eitt Oliu-Blad Guds Naadar Orda og Fyrirheita, samt Hiartans Hugsvolunar, og þad a Kvolldi Hormunganna, synandi þeim þar med, ad Flood Guds Grimdar Reidi sie med Floodi JEsu Bloods-Kraptar og dyrmæta Sigurs af þerrad, so og ad þeirra Taara og Kross-Mædu Flood skuli hier, med Gudlegri Huggun, kriddast og yfirdreifast, enn sijdann til fulls af þurkast i þvi eilijfa Fodurlandi. Um̃ Kvolld edur Nætur-Tijma kom JEsus til Lærisveinanna, þegar Skipid hraktist um̃ Bilgurnar i Mootvidrenu og huggadi þa, Matth. 14. v. 24 seq. So mattu eñ þa, kiæra Guds Barn, vænta þijns Jesu Naalægdar, a Noottu edur Kvolldi þinna Mootlætinga, nær Bilgiur Freistinganna og Mootvidri ymsra Mannrauna mætir þier; Þegar þu nu sveyma þykist i Byrleysi Luckunnar og Hollt[illegible]as

Midlætis

Medlætis aa soddann Sorgar Hafi, enn sier adra sigla fullum Seglum, þa kiemur JEsus til þijn, huggar þig harmandi og segir: Eg em hiaa þier i Neydinni, eg vil þier þadann wtrickia og þig vegsamlegann giora, Ps. 90. v. 15. Þvi ad þrotinñ Veralldlegri Gledi, uppbyriast sw Andlega og Himneska, sem ecke er fyrir alla Veralldar Glede missande: Þad munu þeir sijdar saña satt ad vera, sem hier hafa hleigid, enn þar graata.

Þegar Lijfsins-Kvolld var komid fyrir hinum H. Stephano i Grioot-Hrijdinni, þa byrti JEsus sig, fyrir Opnan Himnaña, standandi til Fødursins Hægri Handar, so sem wtbreidandi Fadmiñ i mooti hanns Saalu, hvoria saa Guds Astvinur honum eirniñ afhendti. Eins lijka, Christiñ Madur, aa þijnu Sijdarsta Kvølldi, byrtir JEsus sig þier, so sem Reidubwinn, ecki einasta ad taka þig wr Grioot-Hrijd allra Veralldar Anauda, helldur og þa wr dimum Daudans Hondum iñ aa Land Lifandi Manna: So bijd nu þa DRottins, sem komandi kiemur og ecki tefur, Hab. 2. v. 3. Medann hañ dvelur ad koma, er hann ad tilreida þig ad medtaka sig, so yckar Samfundir verdi þvi farsælli og bædum Gledilegri. Seint og Snema, Jaa, ad Morgni, um Middag og Kvølld Opinnberadi JEsus sig aa sijnum Upprisu-Deigi; Hinn sami JEsus wtbreidir enn Hendur sijnar allann Dagenn, Es. 65. v. 2. So hann medtaki alla þaa, sem sier villa til hañs snwa; Um Kvølld, Morgna

og

og Middeigi vil eg Kveina og grænta, þa mun Drottinn heyra mijna Rauſt ſegir David, Pſ. 55. v. 18. Eñ, O HErra JEſu, þu ſem ſo heſur tiæd fyrri þiina Myſkunſemi, þeim ſem ad þier hafa leitad, hvad opt meiga Sálir þinna Turtil-Dwfna kvaka eptir þier og bijda þijn, fra einum Deigi til annars, fra Morgni til Kvollds-Rockurſins, og fornema ecki þijna ſætu Huggunar Rauviſt? Ohvad ſaart vill ſoddann Strijd meda Hiartad! Ad ſiaa þig ecki, er hid þijngſta Mootkaſt, ofann a adrar umkrijngiandi Mootlætingar. Eñ, mijn Saal, hvar fyrir forundrar þig þeſsi Bidinn eptir þijnum Herra? Orſokinn er hiaa þier ſiaalfri; hann heſur ſo opt til þijn hroopad eina Tijd eptir adra, fra Morgni til Kvollds, og bodid þier ad betra þig, og bæta Illverkinn, enn þu heſur daufheyrſt, og ecfert Yorunar Andſvar gieſid, hallded afram i Syndena i Glaum og Gledi, og audſynt þannig Prioot-ſku og Fiandſkap i giegn þijnum Gudi og HErra, Eſ. 22. v. 12. Róm. 8. v. 7. 8. Þvi er þad nu meir eñ verdſkulldad, O ſæti JEſu, þo eg uñ nock-urn Tijma meigi þijn eirniñ bijda i mijnum Hormungum, Jaa, þo þu laatir mig hroopa eptir þier fra einu Kvolldenu til annars, þa ſkal þo ei orvænta, þvi þar med geingur þu þo ecki i fullann Reikning minna Misgiorda, hvorn Reikning eingiñ fær ſtadiſt, Joh. 11. v. 6. Þijn Myſkunſemi er ſo mieg brennheit, ad þu gierir ecki eptir þiñi Grimdar Reidi, og ſnijr þier ecki til ad fordiarfa alideilis,
hvad

Hvad mundi añars verda af einum Jardar Orme, sem inndruckid hefur Syndena sem Jordiñ Vatned? Jaa, O Drottenn, þu sem sagt hefur til vor; vidurkienn ad eins þijnar Synder. Eg vidurkieñi þær miñ Gud af Hiarta, og bid um Naad i JEsu Nafni, þar fyrir veit eg og, ad þu villt ecki leingi ofsækia þetta visnada Haalm-Straa, þvi þad er einginn Prijs þijnu Nafni nie þinni stooru Myskun þo þvi burt feikir med Stormi þiñar riettferdugu Reidi i eilijfar Pijsler, þu sem svarid hefur, ad ei vilier Syndarans Glotun, Ezech. 33. v. 1. Eg skal nu vona og bijda, þijn Dvøl er eingin Naadar Afneitun, helldur minnar Bænar og Trwar Upporfvan; O ad eg kinni þessu alltijd riettilega fyrir mig ad koma! Þa mundi mijn Ønd þreya audmiuk og þolinmoodari, helldur enn opt skiedur, eptir Kvølld-Stund þinni, minn HErra; þvi komir þu ecki fyrri, þa kiemur þu þo a heñi, þessi þiñ Tijmi er og hinn besti Tijmi; besti seigi eg, þvi þa verdur Mañs fegnastur, nær hann'er sem þurftugastur, þiñ Koss verdur mier þa sætastur, þegar eg er sem særdastur. Eñ, O þu Mooder Myskunsamasta! þegar Kered er ordid af Hormungum fullt allt a Barma, so mijnum Veikleika tekur ad ofbiooda leingur af ad swpa, laat þu mig þa ecki leingi bijda þinna Naadar-rijku Uñskipta, Joh. 2. v. 9. Eg vil seigenn hier eptir tilstunda fyrir þijna Hiaalp ad draga ecki leingur undañ mijna Ydran til Kvollds, helldur ꝏ medann þar kallast enn i Dag vil eg hvort

Dags Kvolld væta þijna Fætur med Taarum, samanblendudum vid þitt Blood i Trwnni, og midt i þvi Verki wt af sofna, þar til eg skal umm sijdir, hiedann af þier kalladur, til fulls sofna, og Dauden a mijnu sijdarsta Lijfs-Kvolldi stormar at þetta vesæla Bein-Hws, so hann þad nidur brioti og Saalunni þadann wthysi; hugsvala mier þa, O. JEsu, med þinni Fridar Naalægd, og dreip þa a Saalu mijna þessu Hunangi: vert þu hughraustur Sonur þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar; So maa Kroppurinn fara i Jordena, enn Saalinn falli i þinn Fadm, minn JEsu, sem ert vort Lijf og Upprisa, Joh. 11. v. 25. Amen.

# 23. Capituli.

Umm JEsu Komu ad luktum Dyrum.

**O**G Dyrnar voru apturluktar, þared Lærisveinarner voru Samankomner, Fyrir Hrædslu Sakir vid Gydinga.

SO sem þad hefur optast verid Venia Guds Almaattugs, ad koma til sinna a Kvolld-Tijmanum, edur ad undirgeinginni Sool Veralldlegs Medlætis, Mannlegra Urræda og Huggunar, þvi Heilir þurfa ecki Læknarans; So er þad og Eirn hanns Tijdkannlegur Haattur ad koma til þeirra ad luktum Dyrum, lijka sem hier til Lærisveinanna. Sa lifandi Gud, sem skapad hefur allra Hluta

Edli,

Edli og Natturu, er ecki Natturunni undirgiefinn eda vid hana bundinn, honum er eckert Ord Omattugt, og eingiñ Hlutur kann hindra edur hamla hanns fullkomeñe Fyrirætlan; þess byriar Guds Bornum ad giæta, i hvada Oefnum sem þau eru stødd, þa nær Gud alltijd til þeirra, þvi hañ er allstadar, og uppfyllir Himin og Jord: Þad bevijsadi vor HErra med sialfsu Verkenu, i þvi hann kom hier med Ond og Lijkama i giegnum læstar Dyr. Hann sem adur fæddist i Heiminn af Osaurgudu og Ospiølludu Meyar-Lijfi, og uppreis af til-luckttri Grøf, med Innsiglüdum Steini, hañ kañ og ad þreingia sier þar iñ, hvar Mañleg Skynsemi sier aungva Vegu, sem er medal annars i þær iñstu Hiartans Rætur, hvadañ hañs Kraptur sier wtdreifir: Slijk Ihugan er alla Tijma Ein stoor Gledi og Saalar-Svølun. Hier faaum vier auner Menn ad dragast med þwngbærann Daudans Lijkama, medañ Saaliñ hefur þar iñi siñ Bwstad, hvor eptir hennar Vidskilnad fær ad snwast i sitt fyrra Verkefni, þvi hañ er Molld, og ad Molldu skal hañ aptur verda og Madka Fæda, hvoria Job kallar siina Moodur og Systur, Job .7. v. 14. Enn þessi O-asiœleigi Saur verdur sijdar i Upprisunni, af Guds Almættis Krapti, fyrir JEsu Upprisu, Endurnyadur, Fegradur og Forklaradur, og Saalunni samteingdur, til ad lifa i Gnoogt Fagnadarins hia Gudi Eilijflega: Matth. 13. v. 43. Soddann meiga kallast luktar Dyr fyrir

Mannlegri Skynſemi, enn er þo Hindrunarlaus Vegur fyrir Guds Almætte, hvar til ſonn Trw ſeigir ſitt Amen.

Auk þeſſa eru margar til-lucktar Dyr ad finna, giegnum hvoriar JEſus kiemſt og kiemur þo alltijd til ſinna Aſtvina, æ þægilegum Hiaalpar-Tijma: Opt virdiſt veikum Manne, einkum i Freiſtingunum, ad Guds Hiarta-Dyr ſieu hardlega apturlæſtar, ſo þadann fæeſt varla Einn Huggunar-Dropi, og ſeigir þvi med ſijnum HErra: Gud minn, Gud miñ, hvar fyrir hefur þu yfirgiefid mig. Enn innañ ſkams, þa minſt varir, upplijkur JEſus ſoddann Dyrum, ſo Maduriñ vidlijſgadur, hreſtur og endurnærdur, ſeigir aptur: Pad er Fullkomnad, Gud hefur minn Hrigdar-Seck i ſundur ſlited, og hiartannlega ad ſier tekid mijna Saalu; Eſ. 38. v. 17. Og hvorſu unnunarſamlega med Tvofolldum Bætir eptiræ, ad JEſus upplwki þeſſum læſtu Dyrum veit Reynſlañ giorſt ad ſeigia. Opter Mañaña Hiarta-Dyrum i Grimleika apturlokad fyrir þeim, er i Eymd, Veſolld og Sorgum velkiaſt, ſo þar er eckí ad fæ Eirn Vægdar nie Vorkunar-Dropa, helldur eñ Vatn af hordum Hellu Steini; Og hvorrar Vorkunar ſkal Maun vænta hiæ þeim, ſem meir hæda eñ vorkieña, meir brygsla eñ bæta um añarra Mañ-Rauuir, og giefa Mootlætingum þeirra Olucku Nafn? ſoddañ Satans Nodrur, firdtar ollum Kiærleiks-Taugum, Fiera ſæarara enn nockurt Sverd, þvi þeir hafa lært

af

af sijnum Fodur ad Deyda og Drepa, Særa og Stijnga; Þetta giora þeir Daglega sinni eiginn Saalu, og hælast um þad eptiraa; og þvi munu þeir þa hlijfast vid adra? Enn med soddann Adferd þeirra bætist opt Eitt aa Añad ofann. Lijka verdur Stundum Vina og Naaunga Stodinn vollt aa Mootgaangs-Tijmunum, Ps. 38. v. 12. So hier er nærsta faatt sem fulltreysta meigi, Jaa, eckert nema Blessad Myskunar-Hiarta Guds, hvørs Hønd ad medtekur nær Mannaña Hond burt hrekur: Þegar Verølldinn hefur aalyktad og sagt: Eg hefi eckert med þeñañ Mañ ad bestilla; þa seigir JEsus: Mier ert þu Velkominn, þu ert minn, eg þecki þig med Nafni, og þu hefur fundid Naad fyrir mijnum Augum: Ad þessu Skiooli opnu, maa fara um hinar Dyrnar sem fara vill; JEsus hefur noog Skiool, noog Raad, lijka vel ad upplaata hvoriar Dyr sem hann vill fyrir sijnum, so saa Ogudlegi maa Stundum þiena Einu Guds Barna aa moo-ti sijnum Vilia. So hefur Jesus þessar Dyr upplaatid! Vorar eiginn Hiartans Dyr eru optsinis hardlæstar bædi fyrir siaalfum Gudi med Ydrunarleysinu, so þo hann aa þær tijdt klappi, Opinb. 3. v. 20. fær hann þar ecki inni: So og fyrir hanns Voludum, þvi maa Lazarus so opt Kaunum vafinn liggia fyrir Dyrum uti, Luc. 16. v. 20. Ad bædi er Hiartad og Hwsid lokad. JEsus kiemur ad luktum Dyrum, og kreinur med Krossins Hamri so þad Ydrunarlausa Hiarta, ad þad

verdur sundurmarid, og þad Medaumkunarlausa maa læra af Svida sinna eiginn Saara, ad kienna i Briooste um adra, og vita so hvad þeir hafa ad bera, graatandi siidann med Graatendum. Vort Hiarta, seigi eg eñ, er so hardlæst, ad þar finst eingiñ Taara-Dropi, einginn Andakt, einginn Andvarpan, og einginn Huggun, þo Huguriñ hwngradur vilie þetta odlast, hier af kiemur þad þa opt, ad Vonar og Trwarennar-Dyr verda ærid naumar, so Hiartad veit ecki hvad uppaa skal slaa, edur til Bragds taka; Midt inn i þetta Volundar-Hws, kiemur Meina-Bootinn Blessadur JEsus, mykir, vokvar og huggar Hiartad, so þad Endurnærist af Jl hanns Astar og Anda, og kiemst so til Róolegheita. Jaa, minn JEsu, þig kañ ecker ad hindra, og ecki Syndir mijnar, ad koma til mijn, Rom. 8. v. 38. seq. Þegar eg fæ þa Naad ad eg gyrnist þig af Hiarta, og hvoriar hellst Dyr sem mier opnast til Lyfs edur Saalar-Nota, til Tijmannlegra og Eilijfra Giæda, þa eru þær mier af þier opnadar, þu Blessadi Liossins og Lijfsins Fadir, hvors Elsku Elldur ad alltijd er brennandi, hvors Huggunar-Brunnur aldrei þrytur þeim hryggvu, Es. 55. v. 1. Og þo allir adrir gleymi mier, þa gleymir þu mier alldrei, og ei muntu nockurn Tijma fyrir mier læsa þijnum Myskunar og Naadar-Dyrum; J hvorium hellst Þreyngslum sem eg er staddur, þaa nær þijn Naadar-Hond alltijd til mijn: So hefur þad verid, so mun þad verda eins

a Noott sem Deigi. Og so sem þu hefur marga Hialp og Medaumkan veitt mier, so bid eg þiñ H. Andi stioorni mier, Myskun ad veita þeim eg a og kañ ad biarga med Ord edr Verk, so hvorki finnist Hendur, Hws, nie Hiarta, læst fyrir þijnum Volnudum Saudum, helldur hier eptir alltijd opid fyrir þynu Bodi og Blessudum Vilia, enn hardlæst fyrir Diøfli og hreckviisum Heimi þessum, samt Hollds og Bloods Gyrndum. Þu gafst mier þitt Myskunar-Hiarta, þier gief eg aptur mitt Hiarta; soddañ Bijti eru hin betstu, laat mier so opnar Dyr Eilijfs Lijfs a Dauda-Stunduñi, ad eg med øllum Utvølldum ødlist þad Himneska Dijrdarinnar Heimkynni. Þess skalltu og giæta mijn Saal, ad þa JEsus var innkominn ad luktum Dyrum til Lærisveinanna, þa stood hañ. Adur felldu hañ Syndir vorar i Pijnu og Pijslir, i Daudann og lokstns i Grøfina, nu er hann med Veglegum Sigri uppstadinn, og stendur sem Hetia hia þeim hræddu, Huggarinn hia hryggvum, Vidriettarinn hia føllnum, Læknirinn hia siwkum, Lærimeistarinn hia favvijsum, Verndarinn hia Offooktum, Hirdirinn hia Saudunum, og Lijfid hia Daudum. A soddann Haatt vill Jesus enn standa hia øllum þeim sem a hann trwa, þvi hañ er med þeim alla Daga allt til Enda Verالldar, Matth. 28. v. 20. Falli eg nu aumur eitthvört Sinn undir Krossins Byrdi, edur (sem opt skiedur) i Syndina, jeg skal þo gledia mig vid minn Jesum, sem hia

mier stendur og vidriettir mig, Jaa, þo Diøfull og Heimur bindi sijn Raad samann mig ad fella, og mier fyrirkoma, eg vil þo samt Okvijdinn vona aa JEsum, hann mun mig aumann styrkia so eg faai sigrad i hanns Krapti. Hitt aangrar mig og hræ-dir optlega, ad eg hefi aukid þier, Drottinn minn, Mein og Mædu med mijnum Illgiordum, og þad eg enn so tijdt styggi og hryggi þig, miñ Frelsari; Eg vil feiginn raada Boot vid slijku, eñ mijnum Veik-leika og Vanmætti vægi þijn Giædska, sem veit af hvoriu Verk-Efni eg er; Eg vil af ollu Hiarta i Trw og Packlæti þier þioona; Eg vil gledia mig midt i mijnum Eymdum vid þinn Sigur aa Diøf-linum og ollum hañs Her, hvorn þu hefur Footum trodid: Þar fyrir Lof syngi þier Englar og Menn, og allt hvad er og heitir aa Himni og Jordu,

AMEN.

## 24. Capituli.

Uñ þad, ad JEsus stood i Midid.

OG JEsus kom sialfur, og stood i Midid þeirra, og midt aa medal þeirra sagdi hañ þeim.

MJdid hefur alla Tijd veglegur Stadur verid halldiñ og hid hæsta Tignar-Sæti, þañ Sess hafa optwtvalid þeir mestu Magtar-Menn, einnig hafa þeir Ypptirstu Hlutir þar Stadar numid: A Festingar-Himninum er Soolinn i Midid hiaa,

Planetunum: J Midid var Lijfsins Tried i Edens Alldingardi: Alltijd er Manndygdinni Midid: Hiartad Mannsins er midt i Brioostinu; Og Medalhoofid ær alltijd ad aktast og vardveitast, þo ofs þad nærsta erfidt veiti; þad hindrar Satan sem mest hañ mæ: J Syndiñi leitar hann vid ad giora ofs añadhvort of-Hughrausta, edur of-Orvæntingarfulla, so ad æ einhvorn Hætt skuli Þænkarnir plæga ofs lijka vel til Dauda; Þetta vill hann, annadhvort vier giora skulum ofmikid edur oflijtid af flestum Hlutum. JEsus hefur ratad fyrir ofs alla Medalhoofid, bætt og uppfyllt med sirni Fullkomnan allañ vorn Ofullkomlegleika; Hvar sem vor Saal sier til hanns, edur skignist eptir honum, þæ er hann alltijd i Midid. Ef þu skignist eftir honum æ Himnum, þa er hañ þar Mid-Persoonañ þeirrar Hæblessudu Guddoomsins Þreñingar i þeim eina og eilijfa Guddoomi, þvi þrijr eru þeir sem Vitnisburdinn giefa æ Himni, Fadirinn, Ordid og H. Andi, og þessir þrijr eru eitt, 1. Joh. 5. v. 7. Þar æ Himnum er JEsus einn Medalgængari milli Guds og Mañа, 1. Tim. 2. v. 5. Þar er hañ sa Himneski Aaron med Reikelsis Kier siñar dijrmætrar Fyrir-Boonar; vilie Gud med Reidinnar Sverdi Syndaranum nidur hrinda til Helvijtis, þæ fellur JEsus i Fodursins Fæng med sinn Betaling og bidur Vægdar, þar med fær Syndarinn Lausn. Enn skignist þu eptir JEsu hier nidri æ Jordunñi, þa sier þu

hann þar eitninn i Midid. Midt a m.llum Betle-
hems Borgar Jnbyggiara fæddist hann. A mid-
ri Nottu vard Fiarhyrdurunum bodud hanns
Fæding af einum Engle, Luc. 2. v. 8. seq. Mid-
li marg-Þusunda Himneskra Her-Skara; aud-
synandi, ad hann sie midt i Myrkrunum Boot
Syndanna, Mær fyrir Haaskanum, og saa er
Hiartanu hægi, þvi lysi, og þad huggi, nær þad
sveimar a Sorganna Hafi, og Auguñ væta Sæng-
ina med Taarum: Tolf Ara var hañ i Midid hiaa
Lærifedrunum i Musterinu, hvar hañs Guddooms
Vitska lioomadi med Forundran adra uppfræd-
andi, Luc. 2. v. 46. Hvar med hann helgadi og
blessadi sooddañ Lærdooms og Menta Samkvæmi,
og syndi sig ad hafa a þvi alla Velþocknan, nær þad
þienar hanns Dijrd, og Uppbyggingu hañs Christ-
ni. Johañes saa og JEsum midt a medal þeirra
Sio Gull-legu Liioosa-Stiaka: Apoc. 1. v. 13. So
er hann og enn midt i Samkundum Guds Barna,
þvi hvar tveir edur þrijr eru samannkomnir i hanns
Nafni, þar vill hann vera midt a medal þeirra,
Matth. 18. v. 20. Hañ, su blessud Riettlætis So-
olinn, er a þeim Andlega Festingar Himni christi-
legrar Kyrkiu midt a medal Stiarnaña, siña Ord-
sins Þienara, hvorium hañ ecki ad eins helldur i siñi
Hægri Hendi, þad er, Verndar og Vardveitir, so
hvor þaa snertir, snertir Sia allður hanns Auga,
helldur og leggur þeim sitt Ord i Munn, Es. 51. v.
16. Og hañs Andi talar fyrir þaa, so Lijfsins Food-

ur

ur meddeilt verdi hañs Saudum, er afvendi eilijfu Hwngri. J Pijnunni var JEsus kvalinn, midt a milli tveggia Ræningia, Joh. 19. v. 8. Nær hañ afskoof þa Handskriptina sem i mooti oss var, og i Setningum var hulinn, og oss gagnstædileg, og festi hana med sier a Krossinn, Col. 2. v. 14. Og fann eilijfa Endurlausn øllum þeim sem a hann trwa.

Hier eptir sijna Upprisu stood hañ midt a medal Lærisveinanna, aungvum of-siærri, helldur øllum so nærri ad allir þeir mættu hafa Hlutdeild i hønum og hañs Forþienan: Petur hafdi ad sønnu mest syndgad med sinni Afneitan og Eydi, enn þess miñtist nu JEsus ecki, hann var hønum eins nalægur sem hinum Lærisveinunum. So ert þu, O miñ JEsu, mier aumum eins nalægur, þo eg sie hinn stærsti Syndari, ef eg ad eins fny mier til þijn fyrir sanna Yðran, so sem þeim heilagri og betri eru; þvi þu leitar giarnann ad tijndum Saudum, og ert komiñ Saluhoolpid ad giora þad sem tapad var, þijn Vægd bregdst ecki veikum, og Myskun þijn sneidir ecki hia þeim aumu, þvi þessara Glotun villt þu ecki; Þvi skal þad mijn Huggun hvar sem eg er staddur: Hafi eg þig miñ O Drottinn, þa hirdi eg hvørki um Himin nie Jord, eda hvad þau boda mier, Ja, þo ad einninn mitt Lijf og Saal vanmegnist, ert þu, O Jesu, alla Tijma mitt Hiartans Traust og Hlutskipti, Ps. 73. v. 26. Minn Ovinur er Syndinn, hvoria eg (æ þvi verr)

giert

giori mier ad Vin; opt vitanlega, optar ovitanlega, hun vill fyrst træda ofmiog, enn sijdañ fordæma; Þar gengur þu a midli, og tekur mig wr þessum hördu Böndum, synir mier ad soñu Guds Reidi i giegn henni, enn þo strax aptur þitt Riettlæti, sem sie minn Betalingur: Skyllda mijn er þad þvi ad elska þig, þar þu hefur mier so margt og mikid Jllt uppgiefid, og ecki geingid i Doominñ. Eñ nu ad þessum Odin yfirunnum, er oll Magt annarra miña Saalar Ovina wti og endud, bædi Logmaalsins, þvi a mooti þess Bolvan ert þu, JEsu, mijn Blessan; Daudinn er beiskur, eñ mooti hanns Beiskleika, ert þu, JEsu, minn Sætleiki; Diofullinn er falskur og a sækinn, eñ mooti honum ert þu, JEsu, mijn Vernd og Voktun; Verolldinn er hörd og Hreckvijs, enn moot henni ver mig Almattur, Vitska og Sætleiki mijns JEsu. Soleidis er nu JEsus millum mijn og þessara; Og þo so langt og vijdt villdi koma, ad einginn Madur villdi edur kyñi koma mier til Hialpar, nie hræra sinn minnsta Fijngur mier til Adstodar, so mijn Saal og Hiarta væri olldungis af Hormungaña Vatni umflotid, Jaa, þo Menniernir, þar a ofann, legdi allt mitt Maalefni wt a falskann og rangann Veg, so sem Job yfir klagar, Job. 13. v. 4. Þa er þo Jesus mijn Hialp, hann bædi kann og vill samt vera hiaa mier, so slijkt allt hafi aungva Neyd, þvi hvad sem angra vill, þad verdur þo ei ad Angri þegar JEsus huggar, lijka sem þa Elldurinñ villdi breña

þar

þar þriar Sveina i Babilon, enn gat ecki brent; Soddan Sikur sætir allt Mootlæti, þvi hvar Gud er med, hvor kann þar i mooti? Rom. 8. v. 31 Minn Gud, mitt Hiarta er Mid-Partur mijns Lijkama, eg bid þig af þess Justu Rootum (þu veitst þad er mijn Alvara) ad þu vilier þar bwa, þvi bwer þu þar, ottast eg eckert, og vil aungvu kvijda. O þu Lioomanda Lioos! O þu Unnustenn fætaste Saalarennar! O þu Athvarfid elskulegasta, oruggasta og trwfastasta i ollum Naudum! O þu blessada Lijfsins Eik! Lys þu oss i þeim sijdurstu Daudans Myrkrum, fadma oss i þeim Fiorbrotum, hlijf og vernda oss i þeim hætta Bardaga, lækne þa Lauf-Bloden þijn oll Andar Saaren, og leid oss af þijnum Sætleikans Sadning endurnærda i eilijfar Tialld-Bwder Fridarens wr þessa Heims Her-Bwdum, Amen.

# 25. Capituli.

Um Christi Fridar-Bodan.

## FRIDUR SIE MED YDUR.

Þad Foolk sem gieck i Myrkrunum sier Eitt miked Lioos, og yfir þeim sem bwa i myrkvu Lande skijn þad klaart, seigir Spaamadurinn Esajas, Es. 9. v. 2. þo hann tali hier sierdeils um Heidingianna Uppbvrtingu og andlega Kallan til Trwarinnar a JEsum Christum, þa meiga þo lijka þessi Ord naa til hier greindrar blessadrar Fridar Bodunar DROttins; Hier kveikte saa blessade Lioossens

Skap-

Skapare, og sialfst Lioosid JEsus Christur Eitt hid mesta Stoor Lioos hia sijnum Lærisveinum i Hrygda Myrkrum stoddum.

A JEsu Pijnu Tijma, og þar epter, mattu þeir i Veikleika sijnum seigia sem Job; eg vonade epter Lioose, og sia þar var Myrkur, Job. 30. v. 26. hvoriu og samsinntu þeir Emaus Reysu-Menn, seigiandi, VIER VONUDUM AD HANN MUNDI ENDURLEYSA ISRAEL. Nu satu þeir i Sorga og Vantrwar-Myrkrum, Ja, i þessu Kvolld-Rockurs Hwmi sveimudu þeir einnin i Hrædslunnar Dimu, meinande ad sier mundi þa og þa Vopnlausum Vode og Offsookn bwenn af Hende sinna Ovina; þeir høsdu og adur i Naattmyrkrenu, þa JEsus var fangenn, hann yfirgiefid og fra honum flwid, so mattu þeir nu og i sarum Kvijda Samvitskunnar sijta og grata, midt i øllum þessum Myrkrum, so hier voru a Ferdum Andleg og Lijkamleg Myrkur undir eins, Ja Myrkur mattu hier sijnast Innvortis og Utvortis, Yfir, Undir og a allar Sijdur, so sem þeim sijnist opt enn, sem vidlijka eru stadder og þeir voru nu, þvi nær so er astatt, heitir þad so sem David seigir: Einginn Heilbrygde er i mijnu Hollde fyrer þinne Ognan, og eigi nockur Fridur i mijnum Beinum fyrir sokum Synda minna; Ps. 38. v. 4. Hier vard og einginn til ad lietta þessum Myrkrum fra med neirne Fridar-Bodan, so þeir giæti sier þad i Nyt fært vegna Veikleika Trwar

ennar,

enn..r, og Hrygdarennar Yfirgnæfanlegleika, so þeir sem þar til sender voru urdu þeim Mædusamer Huggarar, so sem stundum er lijka tijtt vor a medal, so hier er (ad mijnu Vite) hin lioosaste Spegill sorgandi og aumstaddra Manna Ymyndar.

Til þessara so aumstaddra og faaraadra Sauda kom nu Læknarenn, DRottenn JEsus Christur, ecki særande þad særda med nockrum Hardendum edur Straffe (sem opt er tijtt i þessum Heimi) helldur med sætri Fridar-Bodan til þeirra Fridlausra, af hvørre hans Myskunarrijkre Hondlan, nær sem mier hun i Hug kiemur, mier alltijd stendur ein lifande Huggun, þvi JEsus er hinn same og hann var þa, Jaa hinn sami allt til Eilijfdar, Ebr. 13. v. 8. hann giefur ad sonnu allan riettnefndann Frid og Farsælld, so Andlegann sem Lijkamlegann, so Jardneskann sem Himneskann, hann lætur sitt Fridar-Bod i Fridarens Evangelio Skiært hlioo-ma, og frambérast af Fiollda sinna Fridar-Bodara, hvort (ad sonnu) alla christna snerter, en þo sierdeilis hryngrada, edur sturladar Samvitskur i þeirra Sorgar-Bondum, en samt hrlifur þad þeim ecke nema JEsus prediki Jnvortis i Hiartanu, nema han bode þar Fridinn, og huggi sialfur þad sorgande Hiarta; 1. Joh. 3. v. 20. Þessu er alijka vared og fyrer Jacob, þegar Syner hanns sogdu honum ad Joseph lifde, hann huxade allt annad, og kom þvi ecke fyrer sig ad þad væri svo, þar til

hann

hann heyrde Josephs Ord og sa Vagnana, þa lifnade hanns Ond, so hann sagde: Þad er mier noog ad minn Son Joseph lifer. Gen. 45. v. 28. So og vid JEsu Innvortis Fridar-Bodan sierdeilis gledst Hiartad, og Saalinn Endurlifnar. JEsu Fridur er siw Hyrdsla, sem oll Himneskt Audæfe hefur ad geyma, hann lietter af oss Syndanna Byrdi, hann stiller Oroosemi Samvitskunnar, hann dyrfer oss ad forakta Diofulinn, hann gledur oss i Hörmungunum og Offooknum Heimsins, hann giorir Daudann sætt smackande, hann flitur Hiartad, medann þetta Lijf varer, til JEsum i Hædena, enn Saalena sijdann inn i Land lifendra. Þegar nu þar fyrir þesse Tvo Hioon, Sturlan Hugarens, og Fridur DRottens, sænga samann, þa verdur þar nærsta Fagnadarsom Hioona-Sæng, þvi JEsu blessadur Bloods Kraptur, sem er allra Meina og Mædu Boot, laugar, blessar og hresser þa þesse Hioon, hvor hann hefur samann vijgt med þessare agiætu Vijgslu-Predikun: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir skulu huggader verda. Matth. 5. v. 4.

Þad sorglega Synda-Brot vors fyrsta Fodurs Adams fyrdte oss ollum Fride, Blijdu og blessadre Vingan þess eilijfa Guds, þar af hafa sijdann sprotted oll Synda og Sorga-Myrkur, Ytra og Innra yfir oss diniande: Þad Dauda Mein matti einginn bæta, nema blessadur Fridar-Hofdingenn JEsus, Es. 9. v. 6. af hvors Fyllin-

gu

gu vier hofum feingid Lausn, Nææd og Frid vid Gud aptur, Rom. 5. v. 1. Enn þad mætti hañ so dijrt kosta, ad hann vard sialfur þar fyrir Fridlaus ad verda, og af Gudi Yfirgiefinn, Marc. 15. v. 34. so vier nædum i honum og fyrir hañ þvi Eilijfa Fridar-Hnossi, Eph. 2. v. 14. þar fyrir veitest oss eirninn hier i Heime so margur Astar-Koss lifanda Guds, og so morg Hægd og Stilling at Samvitskunnar Hugar-Vili og ymsum Sorga-Myrkrum: Jar fyrir oss afrekadann Frid vors Frelsara; er nu Gud vordenn vor ææstrijkur Fader, og kann ecke framar ad fortæra oss i Lóga siunar Reidi, edur Fridlausa Synda Refsing ææ oss ad leggia, þvi þann Reidennar Blossa, hefur hañs Elskulegur Sonur JEsus slockt med þvi Bloode og Vatne sem wtrann af hauns Hiarta. So skal þa slijkt Fridstilla vorar Samvitskur! Þvi seig mier, Guds Barn, hvijlijkur er þessi JEsu Fridur? Hann er Olijkur Veralldarennar Fride, Joh. 14. v. 27. þvi hennar Fridar-Bodan skal einginn Madur trwa; edur lijst nockrum þad Fridur, ad kissa og bijta under eins, so sem hennar er Vane til? Enn JEsu Fridur er eirn Stadfastur Fridur, þar er ecke Eitt i Dag, Annad ææ Morgun; þvi Jafnvel þo hann læti þig i Dag, finna til þess Himneska Sætleika, eñ ææ Morgun til Beyskiu Helvijtis Angistar, þa er þo þad Sijdara einginn Fridar-Roskun, helldr Stadfesting hañs Fridar yfir þier: Med ann v.er ei....m i þessum Ofullkomlegleika, þa giorir

Sætleikinn oss ysrid glada, af hvorri Gledi vier giorunst stundum hofmooduger, og meinum oss ollum sælli, og Gude þægilegre; enn so ad þessi andlega Drambseme saaecke Ofdiwpar Nætur oss til Skada og Fordiorfunar, þa sender Gud oss hitt til Handa, uppa þad vier sieum Lijtilaater og Ottaslegner, þvi þa verdur betur verkud Saaluhialpenn. Þo St. Paall være i Pridia Himen uppnumenn, 2. Cor. 12. v. 4. þa maatti hann þo þar hiaa sleigenn verda af Andskotans Engle, v. 7. og so hefur þetta geingid og geingr eñ optsiñis Guds Vinum; þvi sagde Eg, ad þetta være DRottens Fridar Stadsesting enn ecki Roskun. Verolldenn helldur þad Frid, þegar hvorki er Siwkdoomur, Faatækt, Olaan, edur Utvortis Ovinur, og allt leikur i Lynde; Enn Christi Fridur er þar i iñisalinn, ad nær Madur er uñkrijngdur af Syndeñe, Daudanum, Dioflenum, Verolldinne, samt ymsum Ovinum og Mootkaste, hann er þo samt fyrer allt þetta i Christo JEsu gladur, Hughraustur, og Oruggur i Hiartanu; 2. Cor. 6. v. 9. 10. Þañ Mann kalla eg i Haadeigis Stad: Eñ, christenn Madur, vilier þu verda JEsu Fridar, hier og sijdar, eiliijflega niootande, þa varastu hann af þier ad briioota med vijsvitande Ydkun Syndanna, edur Ydrunarleyse og Vantrw, helldur stunda þu ad hafa daglega Frid vid Gud, fyrer hreina daglega Ydran, so og Frid vid þinn Samchristeñ, so mikid sem mogulegt er, þvi hvorier hellst Fridenn

hafa

hata, og þykir liett og lijtid honum ad raska, þeir eru a Veigi Glotunarennar, og eru riett kalladcr Her-Menn Andskotans, þvi þad er Art Ogudlegra, hvoriet ad hafa aungvann Frid, so sem Drottenn seigir hiar Spamannenum. Es. 57. v. 21. Eg hefi mijnum trwfasta JEsu þvi optlega lofad, eg vil þad og fyrir hanns Hialp Hughraustur efna, sem er ad strijda vid Synd, Diofulog allt hanns Herlid; Enn, O JEsu, lat ofs alla þijns Fridar og Frelsis niootande verda fyrer Sal og Lijf, og leid sijdann hier fra med Fride i eilijfann Frid, AMEN.

## 26. Capituli.

Um þad ad JEsus synde Lærisveinunum sijnar Hendur, Fætur og Sijdu.

ENN þeir skielfdust og urdu hræddder, meinande sig sia Anda nockurn, og hañ sagdi til þeirra: Pvi erud þier so skielfder, og þvi uppstijga soddañ Þankar i ydar Hiortum? Siaed mijnar Hendur og mijna Fætur: Þad eg em þad sialfur, þreifed a mier og siaed: Þvi Ande hefur hvorke Hollld nie Bein, so sem þier siaed mig hafa. Og þa hañ hafde þetta sagt; Synde hañ þeim Hendur og Fætur og sijna Sijdu; Þa

urdu Lærisveinarner glader, ad þeir sæu HErrañ.

Af þessu Dæmi Lærisveinanna er auglioost, ad Mañeskiañ sie af Nátturuñi Ottafull og Hrædslugiorn, og er þad, sem hvor añar Veikleiki, einn Arfur fraa Adám kominn, hvør lijka vel heimsookt hefur þa froomu og Gudhræddu, hvorium þo Samvitskann good er daglegt Sælgiæti og Hugarhresing, samt hefur þad þeim tilfallid optlega; eñ þo laangt ödruvijse enn Ogudlegum Monnum, hvørra Ottafeme ad velldur ecke einasta Ystodulegse Nátturunnar, helldur og þad, ad þeir eru sier so margrar Vondsku og Glæpa medvitande, hvar fyrir Salomon seigir, ad þeir flye þo eingiñ ellti þaa, Prov. 28. v. 1. Jaa, þeir hrædast hvort þiootandi Lauf-Blad, Lev. 26. v. 17. Gudhræddra og froomra Manna Otte er þar i mooti eirn Sonarlegur Otte, og so sem David seigir: Þiooned Drottne med Otta, og gledied ydur med Skialfta, Ps. 2. v. 11. Vid þeñañ Hrædslunar Veikleika maa þo kañskie margur beriast lijka sem hvøria adra sara Freistinga Astriidu, sem maaskie virdest ad vera litilvæg epter Maña Doome; eñ er þo reindar mikil; þvi þad er mikid ad forgleima Gudi og vantreysta honum, hvad þo opt skiedur ofhræddañ Mañ, þvi seigir DRotteñ hiaa Esaiam: Eg, Eg er ydar Hugsvalari, hvør ert þu þa, ad þu hrædist fyrer Moñum, þeir ed þo deya, og fyrir Mañaña Bornum, sem forteraſt sem Hey, og forglæyma Drottni

Þeim

þeim sem þig hefur giort, Esa. 51. v. 7. Jaa, þad maa satt kalla sem Seneca segir hier um, ad eckert sie vesælla nie heimskulegra enn sijfelldur Otti, og þad oruggasta sie ad hrædast eckert nema Gud. Eitt veit eg, og þvi trwi eg, ad so frаint eg leitast vid ad fordast offickanlega Hrædslu, þaa reiknar Guds mijns Myskun mier ecki mijna Hrædslu fyrir Synd, helldur giefur mier Hluttoku i þessu Ordi: Sæller saa sem alltijd er uggandi, en sa sem hardsvijradur er mun falla i Olucku, Prov. 28. v. 14. Læriſveinaña Otti orsakadist þar af, ad þeir meintu sig ad siaa Anda nockurn. Þar af er merkiandi, ad Andarnir, edur þvilijkar Sioonir, eru til, hvad og vijdar maa siaa af Skriftinni, og eru þa þessir Andar annadhvort goodir edur vondir. Þar af eru goodir Andar þeckiaňlegir, ad þeir ææminna og upphvetia til Gudlegra, leifilegra og Soomalearа Hluta, er þiena Gudhræddum Mönum til Huggunar og Sæluhiaalpar. Þeir vondu þar a mooti, upphvetia aa einhvorn Haatt til Ogudleika, Hiaatrwar, Villu, Lygi, Vanheidurs og annars þvilijks Ills. Margir innbirla sier, ad Sioonir og Fyrirburdir sieu daudra Manna Saalir edur Lijkamir: þar mæla þo Guds Ord i mooti. Gudhræddra Saalir kunna þad ecki ad vera, þvi þær vid Lijkamena skildar, eru i Hendi DRottins, Ps. 31. v. 16. Sap. 3. v. 1. Ei helldur vondra Manna Saalir, þvi þær fara til Helvijtis, Ps. 55. v. 16. Ps. 49. v. 15. hvar Daudinn nagar þær;

og hvert hellſt ad Eykinn fellur, þar liggur hun; Eccl. 11. v. 3. Ecki hilldur kuñа þad ad vera Lijkamir Gudhræddra, þvi þeir hvijla i ſijnum Svefn-Hwſum, Eſa. 26. v. 20. Apoc. 14. v. 13. Ei helldur Lijkamir Ogudlegra, þvi þeir koma ei aptur i ſitt Hws, og þeirra Stadur þeckir þaa ecki framar; Job. 7. v. 10. Og Madkar og Ormar fortæra hvorutveggium, Syr. 10. v. 12. Þvi maa hier af ſiaaſt, ad þeir gieti ecki verid hier reikandi. Og ſkylldi þad ſo vera, þaa yrdi þad ad ſkie annadhvort af Guds Skipan, edur þeirra eiginn Fyrirtekt. Af Guds Skipan ſkiedur þad ecki, þvi þad kiennir oſs hvorgi Ritningiñ, miklu helldur er hun þvi mootſtædileg. Ecki helldur af eigin Vilia: Ad hvorttveggia ſie ſatt, ſyna oſs Ord Abrahams til þeſs rijka: A medal vor og ydar, ſegir hann, er mikid Diwp ſtadfeſt, ſo ad þeir ſem hiedann vilia fara nidur til ydar, gieta þad ecki, og þeir ecki fraa ydur upp til vor komiſt, Luc. 16. v. 26. Vier meigum ecki kaſta þwngum Steini aa Læriſveinana, fyrir þad þeir hræddust hier hinn beſta Vin og bleſſadann Fridarbodara JEſum, þvi þeir hræddust ad ſonnu hann ecki, helldur ſijna raungu Jñbirling. Komi JEſus til vor med Kroſsinn, þaa ſkielfunſt vier opt nærſta: og hvor af oſs tekur gladur og fagnandi i mooti ſoddann? Samt verdur þvi ecki neitad, ad ſoddann Hrædſla kiemur af Van-Þecking og Trwar-Veiki. Jeſus aa allstijd ad vera oſs velkominn, um̃ hvoriar hellſt Dyr

ſem

sem hann kiemur, hvort helldur um apturluktar Sorgar-Dyr, edur opnar Gledi-Dyr; vier eigum ad varast ad rietta oss ofmiog eptir vorra eiginn Jnbirlingum, edur hallda fast uppa vora eigin Þanka, a hvoriu Skeri þo margann flædir, so ad þeir trwa þeim opt framar enn siaalfum Gudi. Fyrir slijkt aavijtar Lausnarinn hier sijna Lærisveina, og undir eins aaminnir alla oss ad vier stunda skulum Andlega Hug-Dyrsku, i þvi, ad bioodaa Trausts Holldi, Heimi og Diofli, vitandi ad hann er dæmdur og med oss hefur hann eckert, helldur enn med vort Hofud JEsum Christum; hvar fyrir hann segir til vor: Ottast ecki, eg em med þier, vijk þu ecki, þvi Eg em þinn Gud, eg stirki þig, hiaalpa þier, og helld þier vid, fyrir þaa Hægri Hondina mijns Riettlætis, Es. 41. v. 10. Enn fyrst hann er med oss, hvor kann þa ad vera a mooti oss? Rom. 8. v. 31. Vier eigum, sem bliidinn Born, ad laata oss segiast i þvi ad trwa ecki ofmiog Hollds Skilningi og Jnnbirlingum vorum, og hofum þær ecki fyrir vort Evangelium, sviikular og aa kalldann Klaka leidandi.

Herra Jesu! forlaat mier mijna otierlega Hrædslu og lykna minni Trwar-Veiki, gief ad eg trwi þier og þijnu Ordi, graati niin Synda Saar, og glediest af þinn Grædslu Medolum, er þu þar vid leggur, hvort þau Holldinu stor edur saar finnast, so mun þijn Myskunn aa hagkvæmum Tijma, hugga og endurnæra mitt hryggva og Maadþyrsta Hiarta, er Tijdum langar eptir þier, Drottinn mitt Hiaalpræði.

rædi. Þu O JEsu, barst Saarin̄ a þijnum forklarada Lijkama, til þess ad næra þijn veiktrwud Born med þeim og þeirra Apreisingu ; Enn eg mun fyrir þin̄a Saara Skulld ecki bera mijn Saar leingur enn til Daudans, þa veit eg þau læknast ad ollu Leiti, þar vid gled eg mig opt, Jaa, so opt sem eg sie, hvorsu ad hier vill ein Sorg, eitt Saar odru filgia. Eg fæ og midt i þessa Heims Mootgangs Bilgium, ad þreifa Andlega a þijnum blessudu Saara Orum. Nær Holldid vill hafa sinn Vilia i Syndinni, byrtast opt Hiartanu þijn Saar og segia til mijn: Hugleid þu þessi Saar, villt þu nu ysa þau upp aftur, er so saart eitt Sinn svidu þinna vegna? Villt þu nu krossfesta þinn Jesum ad nyu? Af soddann Sioon og Tilliti giefst mier opt Orsok af uppbyriudum og aaformudum Synda Vegi graatandi aptur snwa. Ad giordri Syndinni, midt i Kvalning Hugarins, hefi eg feingid, mier til Heilsubootar, ad siaa einninn þessi þijn Saar, min̄ Herra, ysrid opt, einkanlega þitt Hiarta Saar, er þu hefur þessu ad mier hvijslad: Laat af, og vert Hughraustur Sonur, eg vil ecki þijna Glotun, eg man til þijn, mijn Elska og Myskun er so brennheit, ad eg vil ecki giora vid þig eptir minni Grimdar-Reidi, eg hlijt ad vægia þier og vera þier Myskunsamur, til þess þreyngir mier mijn brennandi Hiarta Elska.

J Freistingunum skyna og þessi Saarinn skiært fyrir Augunum, Opinb. 3. v. 10. Nær eg i

Aung-

Aungviti Trwariñar, Poliñmædinnar og Vonarinnar ligg lijka sem saa hrasadi aa medal Ræningia, og helld mig so nær af Gudi yfirgiefinn, so skamt er aa milli Lijfs og Dauda; Þaa synir JEsus mier þessi sijn Saar, einkanlega sijn Handa Saar og segir:. Munt þu nockud faa gleimt þeim Hrijngnum sem er aa þinni Hendi, Lofk. 8. v. 6. Ætlar þu þa ad eg muni gleima þier, hvørn eg hefi teiknad i mijnum Hondum? Esa. 49. v. 16. Hvør hefur hijngad til hiaalpad þier? Hefur ecki mijn Hond borid þig og hiaalpad þier, medañ Moodur-Hondinn hiellt enn a þier, bar eg þig, og nu sijdann hefi eg giort þier hid sama, Esa. 46. v. 4. Cap. 63. v. 9. og ecki forgleimt þier. Hvad opt hefur mijn Hond reyst þig fallinn a Fætur, studt þig i þijnu Embættis Verki, vardveitt þig i Haaskanum, og tekid þig sem einn Elldibrand wr Elldinum? Psalm. 66. v. 12. Þvi villt þu nu þaa vantreysta minni Myskun og Trwfesti? Esa. 43. v. 10. Jac. 1. v. 12. Hefi eg ecki sagt þier, ad Trwudum sie allt mogulegt, og ad þetta hitti þig, so þu reyndur verdir, og odlist sijdann Coronuna, Opinb. 2. v. 10. Vertu þvi gladur i mier, sem til þijn man, og þig skal gledia. Sie eg Raadlijtill og viti ecki hvørt eg skal mier snwa i þeim og þeim Vanda, hvar Hrædslañ þreingir a adra Hlid, eñ Vanvitskañ a adra, med fleyra þvi, sem þar kann ad ad stidia, sie eg minn JEsu, þijn Saar, einkum þinna Foota, sem þaa leida mig aa þann rietta Veg, Psalm. 25. v.

12. Item 32. v. 8 Sie annars, mundi eg falla a Veg Olucfunnar hier Tijmannlega, enn a Veg Fordæmingarinnar eilijflega. Soleidis veitst þu nu minn Jesu, ad gledia og endurnæra. Nær sem þu nu synir mier Sarinn þijn a þijnum særdum, hriggvum og Naudlijdandi Limum, med hvort Slag sem þad vera kann, þa vil eg giarnañ af fremsta Megni til laata þann Plaastur, sem þaa kann ad hugga og lækna, og þu mier meddeilt hefur, enn hiaalpa mier, O JEsu i ollu, þvi er þu villt eg lijda skuli i þessum Heimi, Psalm. 68. v. 20. Þar til þitt Hiarta aumkast til fulls yfir mig, og þijn Hond tekur mig i eilijft Eptirlæti, Amen.

# 27. Capituli.

Um Samtal Christi vid Lærisveinana, og hañs Matar-Nautn.

Og er þeir trwdu eñ eigi fyrir Fagnadar Sakir, og undrandi þad, sagdi hañ til þeirra: Hafid þier hier nockra Fædu? Og þeir logdu fyrir hañ Stickt af steiktum Fiski, og Hunangs-Seim, og hañ medtook þad og aat fyrir þeirra Augum. Og hañ bryxladi þeim um þeirra Vantrw og Hiartans Hardwd, þad þeir hofdu ei trwad þeim sem hañ hofdu sied uppristñ. Eñ hañ sagdi til þeirra: Þetta eru þau Ord, hvor eg taladi til

ydar

ydar, þa eg var eñ nu hiaa ydur, ad Endelega hliti allt ad uppfyllast hvad af mier er skrifad i Løgmaali Moysis, Spaamañaña Bookum og Psalmum: Þa opnadi hañ þeirra Hugskot, so ad þeir skilldu Ritningarnar, og sagdi til þeirra: Þviad so er þad skrifad, og so byriadi Christo ad lijda, og a Pridia Degi upprijsa fraa Daudum; Og predikast laata i hañs Nafni Ydran og Fyrirgiefning Syndaña medal allra Plooda, upphefiandi til Jerusalem, eñ þier erud Vottar allra þessarra Hluta.

ÞEssarar Matar Nautnar þurfti Frelsarinn ecki sijn vegna, hañs Lijkami var nu eptir hañs Upprisu forklaaradur, og þess Haattar Lijkamir hafa ecki ad giora med Mat og Dryck, þeim vidhelldur Himneskur Fognudur, Ps. 17. v. 15. Enn þetta brwkadi JEsus þo einasta Lærisveinunum til Trwar Styrkingar, Luc. 24. v. 41. Og maa hier af enn siaa, hvad sætur og liwfur ad Drottiñ er, og hvørsu naakvæmlega hann styrkir þaa Veiktrwudu, og lætur eckert þad Ogiort, sem þeim maa til Hiaalpar þiena; Samt var nu þessi Nautn eingiñ Missijning, helldur sannarleg, berandi hoost Sannleiks Vitni JEsu Dijrdarfullu Upprisu, þvi hann bevijsadi hier med Lærisveinunum, ad saa sami sinn Lijkami, sem pijndst og daaid hefdi aa Kross-

innum

enum, være nu af Dauda upprisinn, 1. Cor. 15. v. 3. 4. 5. Hann syndi þeim med Nautn þessari sinn Krapt, en aungva eiginn Naudþurft, þvi ödruvijsi dregur þurr Jörd til sijn Vatnid, helldur en Sool-ar-Hitinn, þo hann þad lijka uppþurki; Dijrd Drottins eyddi þessari Fædu, enn ecki snerist hun i edur til Lijkamlegs Vidurhallds, þvi Fædann þessi er Holldlegs enn ecki Andlegs Likama, eftir þvi Guds Rijki er ecki Matur og Dryckur, helldur Riettlæti, Fridur og Fögnudur i H. Anda, Rom. 14. v. 17. Þegar vier etum Christi Holld og dreckum hanns Blood i þvi Hæverduga Kvølldmaaltijdar Sacramento, þaa er þad ecki helldur Nætturleg Nautn, samt er hun ecki ad sijdur sannarleg, þvi þad er vijst, og slijkt efar einginn vor; ad þar medtökum vier Etum og Dreckum þaa stræxnefndu Lijfsins Bord-Rietti, JEsu Holld og Blood, epter sem JEsus siaalfur hefur oss þad sagt og tilbwid, Matth. 26. v. 26. 28. Og vid Medtekning þessarar Odaudleikans Fædu, finnum vier i oss siaalfum Upprisu Krapt vors Drottinns JEsu Christi, þviad i þeim Styrkleika, er vier þar af höfum og ödlumst, kunnum vier ad feta um þann dimma Veg þessarar Eymdarfullu Eydimerkur til þeirra Himnesku Fiall-Bygda, ei sijdur enn Guds Spaamadur Elias gieck Fiörutijge Daga og Fiörutijge Nætur Stirkleika þeirrar Fædu, sem Guds Engill færdi honum, til Guds Fialls Horeb. 1. Reg. 19. v. 8. Hyggium enn framar ad, hvad hier var a Bord bor

ed fyrer Kong Dijrdarennar, sem var Sticke af steiktum Fiske og Hwnangs Seimur til Vidbits: Hvär af Meñ læra meiga, ad sedia i Mæta-Penn-añ Madka-Seck, og hafa ecke of-miked Epterlæti vid Holld og Blood, pañ skadsama Ovin Saalar-ennar, Rom. 8. v. 18. Gal. 5. v. 17. So hann r...st ecke at hana: Naudþurftar-Listena ad sedia er Leifilegt, eñ Hundunum ad lijkiast i Gyr-ugleikans Bwk-Fylle, soomer ecke þeim christnum Manni, sem nockra Epterrekt hafa vill a þessare JEsu Advorun: Vared ydur, ad ydar Hiarta þyngist ecke af Of-Ate edur Of-Dryckiu, etc. Þvi ad þvi feitare Bwkur, þvi vesælli Saal; og ad ven-ia sig til ydduglegra Kræsinga, og soddann meira O-hoofs er Þroofnadur, eñ einginn Froomleike; Heil-suñe, Formeganenne og Faatækra Skatte, er þar med opt forspillad, moot Guds Bode, af þeim sem meina sig meiga giora hvad þa lyster; Et þu þvi so og Dreck, ad þu fiert styrkvari epter ad giora þad Verk, sem Gud hefur þier boded. Minn JEsu, Eg vil feiginn faa þig til Giesta hia mier, Gen. 18. v. 8. Enn hvad skal eg frambera, sem þinni Mill-de þocknast? Eg frambijd Fisk, steiktañ vid Mööt-gaangs Elld þessa Lijfs; angradann og sundur-kramenn Anda, sem enn þa fyrir þijna Hiaalp be-helldur nockre Tegund Þolinmædeñar, so harla sie veik: Lijka hef eg ad frambiooda lijtiñ Hunangs-Seim veikrar Trwar: og þetta med Til-lite miñar Vonar, til þiñar Millde og Lijtilætis, ad þad fyrra

fork

forakter ecke, eñ styrker þad Siþdara, so sem þu lofad hefur i þijnum Saññleiksfullu Fyrirheitum, hver alldrei forgaanga, þvi sundurkrameñ Anda villtu i Naad aalijta, Ps. 51. v. 19. Og braakadann Reyr ecki i sundur-briota. Es. 42. v. 3.

Hier nærst straffade JEsus Vantrw og Hardwd Lærisveinaña. Soddañ Odygder eru Tvær þær vestu Systur algeingnar og alþecktar aa medal margra aa þessum vondu Tijmum; Marger jaata þvi nu med Muñenum, sem þeir þver-neita med Verkunum, Tit. 1. v. 16. Þeir seigiast trwa JEsum uppriseñ, eñ vilia þo ecke siaalfer af Syndenne upprijsa; Vitund þessara goodu Hluta er inñþrickt i Eyrunn eñ ecki i Hiartad. Hvad mun þessu vallda annad eñ Vantrw og Hardydge, sem ecki aaneina Skylldsemi vid veika Trw, þvi þo Breiskleikinn opt bile hana, vill hun lagfæraſt, og verdur i Naad af JEsu aalitenn, og af hañs Hiaalp umfodmud; Þvi Kulu og Guds Þioonar i Miwklæti med hana høndla, enn Vantrw og Hardydge þar i moot Røggsamlega straffa i Tijma og O-Tijma, Talande enn ecke þeigiandi, þo med Høgværd til Uppbyggingar eñ ecki Eydileggingar, og bidia Gud þar hiaa ydulega, uñ slijkra Manna Uñvendan. Øll soddann Lækninga Medøl skal plocka af Guds Orde, sem kroptugt er og hvoriu Tvij-eggiudu Sverde hvassara, Ebr. 4. v. 12. Þvi hefur og Gud lofad, ad laata þad ecki koma toomt til sijn aptur, Es. 55. v. 10. Er þad og Kraptur Guds

til

til Saaluhiaalpar, Rom. 1. v. 16. enn ecke vorar eigiñ Uppaafindingar. Soddañ Adferd kieñer hier Christur med siñi Vidhondlan vid Lærisveinana, hvorium hann opiñberade Ritningarnar, sem uppfyllast hlutu, og opnade sijdann þeirra Hugskot, so ad þeir skilldu þær. Soddañ eirn goodur Lærimeistari er JEsus, hañ ecke einasta kieñer, Ps. 119. v. 68. Helldur giefur og Skilningenn, Samsinninguna og Kraptenn, Act. 16. v. 14. Jaa, upplijkur Hiortunum og iñskrifar i þaug sitt Logmaal, Jer. 31. v. 33. Þvi hlioota bædi Kieñarar og Tilheyrendur ad flya til þessa HErra med Bænenne um soddann Hlute, og sijdann Einum honum tileinka audmiwker med Hiartans Packlæti allt hvad afrekast i þvi Gooda, þvi hann er saa sem alla Hlute i ollum uppfyllir, enn saa er eckert sem plantar edur vokvar, allt vort Erfide vill Einungis vera Þyrna og Þistla, nema JEsus giefi Frioofgunena, 1. Cor. 3. v. 6. Hann forlijkar, hann bæter og lagfærer, og þvi byriade honum ad lijda og upprijsa a Þridia Deige. Þau Ordenn, sem til vor verda toluð wt af Pijnunne DRottens, stilla þa stooru Hiartans Kvol, er oss stendur af Syndenne og Guds Reide i giegn henni, þvi vorar banvænu Under og Saar eru i hanns Undum læknadar, Es. 53. v. 5. Enn hanns blessadur Upprisu-Sigur kiæter Saalena, og Endurnærer Sundur-mared Hiarta: JEsus uppfyllte Skriftena, og fullkomnade hvad af honum var spaad og talad, so þar brestur eckert

ai, og er ej§ þvi af honum veitt fullkomenn Lausn og Frelsi. Eñ so sem honum byriade ad lijda, og upprijsa a Pridia Deige, Post. G. B. 17. v. 3. So byriar þier og, mijn Saal, eptir asettu Guds Raadi hier i Heime, ad lijda Kross og Hormungar; hafer þu Jesum kiærann, maattu vid slijku bwast, og ei laata þig undra, sem hendte þig Eitthvad faaheyrt. Lijder þu hier i Heime, hefur þu ad vænta Dirrdar og Glede annars Heims. Geim þvi þetta Ord þijns HErra: Hvar eg er, þar skal og minn Þienare vera, þvi maa þad vera hier i Hormungunne, fyrst þad ai ad vera sijdar i Vegsemdenne, edur hvornenn meiga þau Taarenn þar af þurkast, Opinb. 7. v. 17. sem ei hafa hier wthellt vered? Ps. 126. v. 5. Og hvornenn gieta þau wthellst nema fyrer Hormungarnar? Horf þvi ecki so grant epter þessum Veige, sem Vegarens Endalykt, ecki so epter Verkenu, sem Verdkaupenu, er Guds Raad vill þier giefa, so muntu sijdur Oþolinnmood verda, bijd þennañ litla Tijma, þar til JEsus kiemur kommande an Dvalar. Opinb. 22. v. 20.

Framar auglijser JEsus, ad Ydran og Fyrirgiefning Syndanna skuli i sijnu Nafni predikast. Soddañ hanns Bod athuge Kieñarar og Tilheyrendur, og giæti Hvorutveggiu, ad sa Guds Þioon hagar vel siñi Predikun eptir þessu Bodi, sem af Logmaalenu, med skarpri Syndaña Opiñberan, an Hræsni og Mañgreinar-Alits, Es. 58. v. 1. An Agyrndar, Otta og Fylgis, sijnir þa fwnu og for-

rotnu

votnu Saareñ þeim Daudu og Dofnu Samvitsk-um, so þær uppvakni, þecke sig, og leitesier, med sañre Ydran, Lyknar og Lækningar, og bidie Guds Vægdar og Myskunar, Es. 55. v. 6.7. Þvi hvor-nenn kann sær ad gyrnast Lausnena Riettelega, sem ecki þeckir sig bundeñ, edur sæ ad odlast Græðslu, sem ecki þeckir sig særañ. Eñ giæt þu ad; Mañsins Medkienning og soddañ, aan Sorgfullrar Hiart-ans Tilfiñingar og Haturs aa Syndenne, duger alls eckert fyrer Gude, sem aalijtur Hiartad. Ad nu þessu undañgeingnu, byriar einum Guds Þio-on, ad lækna og leggia vid Saared, og hella þar iñ tilskickudu Salve Syndanna Fyrergiefningar, og taka, sem mest Moodir moot harmþrungnu Bar-ne, aa moote þessum. Col. 5. v. 14. So giørande Guds Þioonar predika i JEsu Nafne, hiner skulu og medtaka slijkt af þeim i JEsu Nafne, So mun þar baadum afstanda tijmanleg og eilijf Blessan.

O þu goode JEsu, Logmaaled hootar mier Bol-van, og margt vill mig Aumann Saka-Mann aa-klaga: Snw þvi, O JEsu, i Blessan, minnar riett-rar Umvendunar, og þinnar Fyrirgiefningar, þvi þu himneske Lækner i Gilead, ert rijkur af allskyns Lækning og Hugsvolun, og villt aungvum Naad-þyrstum slijks synia,

AMEN.



# 28. Capituli.

Um̃ Innsetning þess H. Predikunar Embættis.

ENN JEsus sagde eñ þa aptur til þeirra: FRIDUR SIE MED YDUR. So sem þad Faderen̄ sende mig, so sendi eg ydur eirnin̄. Og er hañ sagde þetta, blies hañ aa þaa, og sagde til þeirra: MEDTAKED ÞJER HEJLAGANN ANDA.

ÞAD er hier Fyrst vel athugande, ad nær JEsus innsetti Predikunar-Embættid, þa itrekadi hann aptur sijna blessada Fridar-Osk, og brwkade hana so sem fyrir eina naakvæma Vijgslu-Predikun, i hvorri ad bædi er falin̄ stoor Huggun og eptirtektaverd Amin̄ing fyrer Ordsins Þienara. Huggun er þeim þad; þvi so sem Postularner hofdu aadur falled fraa DRottne, yfirgiefid hann, og afneitad honum, enn JEsus gaf þeim nu aptur Eitt Uppreistar-Bref med þessare Fridar-Osk, og Forlaat Synda þeirra; Zach. 1. v. 3. So maa og hver Eirn Guds Þienare vel vita ad þeckia nockud sialfann sig, og kannast vid Veiki sijna, Exod. 3. v. 11. C. 4. v. 10. Es. 6. v 5. Jer. 1. v. 6. Og Misgiørninga moot sijnum HErra, sem sañlega eru jafnmikler sem Postulan̄a bæde ad Stærd og Fiølda, ef grant er ad gaad. Þo nu Straffsins sie þvi hardara ad vænta, sem saa er meir upplijstur og hef-

ur stærra Pund, sem syngdar, þa er samt þess ad fullvænta af Guds Myskun, ad hann væge þessum Bornum, æsamt hinum, hvor lijklegt er ad opt flot falla meige med Tarum ad Footum sijns Herra, þvi bæde eiga þeir ordugt Strijd vid Dioful og Verolld, og mæta morgum Aræsum: Eph. 6. v. 12. Lijka mæ þad saart skiera þæ, ad þeir skuli styggia Gud, sem adra eiga ad vara vid Guds Stygdum, og Gude eiga ad vera eitt fyrer sig hvad Handgeingnaster; Helld eg þvi ad slijker mune Hluttoku fæ i þessu Orde, ad þeim fyrergiefest margar Synder, þvi þeir elske miked. Luc. 7. v. 47. 1. Pet. 4. v. 8. Þad nu JEsus seiger hier i Innsetningu Predikunar Embættesins, FRJDUR SJE MED YDUR, þa er þad sem hann so mikid tale: Eg gief ydur nu sialfann mig til Forlijkunar fyrir ydar Synder, og i mier Eirn Milldann og Myskunsamann Fodur, Eg gief ydur sanna Hug-Dirsku ad strijda, fremster i Fylkingu minne æ mooti Dioflenum og hanns Rijki, moote Verolldenne og hennar Hneixlunum, hennar Illsku og Aræsum, so ad þier vited, ad hvornen sem þad vill gaanga ydur i Heimenum, þa eigid þier þann ad i Himnenum, sem ydur hiælpar, styrker og stidur æ mooti þvi ollu samann, Ps. 73. v. 26. So ydar Samvitskur skulu ecke einasta vera til Frids med Guds Vilia i ollum Hlutum, helldur skulu þier og Fridstilla annara Samvitskur, og ad Lyktum vil eg giefa ydur Eilijfann Frid.

Aminning swo er og so i þessare FRJDAR OSK, ad Pioonar Guds sieu Samlynder siin a mille, og hallde Eindrægne i Andanum fyrer Band Fridarens, Eph. 4. v. 3. Pvi þad skartar illa, ad þeir hafi Ofrid, sem Fridenn eiga ad boda og stipta medal aññara; og þar sem þeir gioraſt nu yfrid marger sem mootþægiaſt Gude i slijku a þessare Styrialldarsomu Olld, þa ætte og mætti Guds Pioonum virdaſt hid veſta þañ Flock ad fylla. Ad giordre þessare Vijgslu-Predikun, gaf JEsus Lærisveinunum Kalls-Brefid, Seigiande; LJJKA SEM FADERENN SENDE MJG, SO SENDE EG YDUR, Joh. 20. v. 21. Athuga hier, Christenn Madur, hvoria Gud sender hier til þijn i sinn Stad, hann sender hier synduga Menn til ad kienna þier og predika, eñ ecki H. Engla; hann visse, ad ei munder þu, so morgum Afbrotum hladeñ, og fyrer þau hrædd og skialfande, standast kunna þeirra Raavist, þvi hafi þeir Heilogustu og bestu fallid flatir af Maattleisi til Jardar. Dom. 13. v. 22. og verid nær Dauda af Hrædslu vid Englanna Opiñberaner, sem siaa er vijda i Guds Orde; Hvad mundi þa hafa af oss vorded aumum Synda og Saurenda-Seckium? Pvi setti JEsus synduga Menn til þessa Verks, og gaf þeim þar til sijna Fullmagt, edur Samlijka þeirri er hanns Himneski Fader hafde honum giefed, þo i vissum Greinum,

1. Ad Befalninguñe til; þvi so sem JEsus var

sendur

sendur ad predika Evangelium, Es. 61. v. 1. So sende hañ þa og ad predika þad allre Skiepnu, Matth. 28. v. 19.

2. Ad Verkaneñe til, so sem Christi Kieñingar-Einbætte var kroptugt Ydrunar og Syndaña Fyrergiefningar, Medal, Marc. 1. v. 15. Soog einninn Postulaña, Marc. 16. v. 20.

3. Ad Luckuñe til; so sem Christur reyndi Hatur, Ofund og Offsoknir fyrir sijna Kienning, so feingu þad og Postularnir i Laun hia Heiminum. Matth. 10. v. 22.

4. Ad Forsvarinu til; So sem Christi Ovinir feingu aungri siñi Illsku vid hann framkomid an hanns Vilia, so og ecki helldur vid hanns Postula. Matth. 10. v. 28. etc. Og i soddann Greinum var nu Postulleg Sending lijk Christi Sending, edur hanns Spamannlegu Embætti, eñ ecki hañs Endurlausnar edur Medalgangara Embætti, 1. Tim. 2. v. 5. 1. Joh. 2. v. 2. Þvi þad er eins Christi enn einkis annars; Hañ einnsamañ hefur fyrir oss trodid Vijn-Þrꝍgu Guds Reidi, Es. 63. v. 3. Og fundid so Postulunum, sem ꝍllum þeim a hann trwa, eilijfa Endurlausn; Hann Einn bar a sijnum Herdum alla Lꝍgmalsins Bolvan, allar Veralldariñar Syndir, alla Guds Reidi i giegn þeim, og allar Andlegra Ovina Arasir, vann so Eiñsamann Sigur a ꝍllum þeim, og i honum Einum er ꝍll vor Heill og Saluhialp, Act. 4. v. 12. Þetta allt og þvilijkt kienna oss Þioonar DRottinns, og

þar til eru þeir eñ i Dag af honum sialfum sendir, jafnvel þo það sie nu fyrir Medol, hvor, nær þau riettilega brwkast, so Innri sem Ytre, þa er það so gylld og good Sending sem hiña Fyrre edur Postulanna, þvi enn er Jesus sa sem tilsetur Spamen, Postula, Gudspiallara, Hyrdara og Lærifedur, Eph. 4. v. 11. Act. 20. v. 28. til Uppbyggingar Christneñe, sijnum Lijkama; þvi kallar og Paulus Lærifedurna i Epheso (hvorier þo voru fyrir Medal kalladir) ad vera af H. Anda tilskickada, og enn segir hann so vel um Sosthenem fyrir Medal kalladann, sem um sialfann sig an Medals: Hvor Madur halldi oss fyrir Christi Þienara. Vilie nu nockur af þeim kolludu efa Gyllðleika sinnar Kollunar, þa sie þeim það eptirlatid, sem fyrir Kollunar Medal Innvortis brwka Agyrndina, 1. Macc. 7. v. 5. 2. Macc. 4. v. 8. Cap. 14. 4. Enn Utvortis, Mwtur og Filgi, med sliiku fleiru, hvorra Erfidis Avoxtur sie Gudi befaladur; Hitt er vijst, ad Trwlyndra Guds Þioona Kienning er Lijfsins Ord JEsu Christi, med hvoriu hañ vor Daudvona Hiortu lijfgar, so þar af verkast bædi Hugg-un og Forbetran.

Ad wtgiefnu þessu Kalls Brefi, setti JEsus sitt Innsigli þar fyrir nedañ, Eph. 4. v. 30. Þvi hann blies a Lærisveinana og sagdi: MEDTAKID ÞIER HEILAGANN ANDA, Joh. 20. v. 22. Þegar Gud DRottinn hafdi skapad hiñ Fyrsta Mann Adam af Jardar-Leyri, þa blies hañ lifandi

lifandi Anda i hanns Nasir, hvar med sw Odaudlega Saal samteingdist Holldinu, og þvi segir Ritningin: Ad-Madurinn hafe ordid ad lifandi Saalu, Gen. 2. v. 7. Þar nu JEsus blæs hier aa Postulana, hvoria hann wtsendi i sinn Stad, þaa meddeildi hann þeim þar med, þad Andlega Lijf, þær Andlegu Gaafur, og Andlegann Styrkleika til Framkvæmdar þess Andlega Embættis, sem i Mønnum upprietta aa þa sonu Guds Mynd, sem tapadist i Synda-Fallinu, þvi aan H. Anda blessadrar Adstodar, kann eckert gott ad wtriettast; skuli Ordid vera Andi og Lijf, so maa þad af Andanum predikast. Þvi skylldar oss alla Þorfinn um þessa Astgiof Drottinns Hugarkaatlega ad bidia i JEsu Nafni, og alldrei kunnum vier ad bidia þarfari Boonar enn þessarar. So eru þa DRottinns Þioonar smurdir med þessu Himneska Vidsmiori, og mier virdist ad Gud breiti i þessu Efni aalijka og i Moysis Tijd; Gud took af hanns Anda og meddeildi odrum, Num. 11. v. 17. Ei ad Andans Gaafur þar med minki hiaa þeim, helldur skiedur þaa aalijka og hina faatæku Eckiu, i hvorrar Krws ad ecki þraut Vidsmiorid, þo hun betaladi sijnar Skulldir, 2. Reg. 4. v. 6. etc. So er nu þetta Haaverduga Embætti umgyrdt af Guds Befalningu, Myndugleika, Verkan og Krapti, jafnvel þo þeir Blessudu Fridar-Bodar sieu af þessum vonda Heimi optsinnis, og aa marga Vegu offooktir og Ovirdtir, og þo þau mørg hvør Heimsins Born,

er þetta giört ad Handverki, viti nooglega af þess-um JEsu Ordum: HVOR YDUR FORSMAAER, HANN FORSMAAER MIG, Luc. 10. v. 16. Enn þeir goodu Guds Þioonar, sem þessu mæta, stundi saña Þolinmæði og Hoogværd, og hafi sier fyrir Sioonar-Speigil Eptirdæmi siins Meistara JEsu, og liidi fagnandi Hædungar fyrir hanns Nafns Sakir, vitandi ad þeirra Verdkaup er mikid aa Himnum.

Enn þu Goodi Herra JEsu, gief ad þinn Goodi Heilagi Andi sie Stirkur, Vernd og Efling allra Andlegrar Stiettar Manna, og þeirra nakvæm Huggun og Hugsvolun i ollu Erfidi og Hrygdum, so þeir ed boda oss i þijnu Umbodi Blessan og Synda-Kvittun, og nidur saa slijku Blessunar-Sædi opt med Taarum, faai af þier Umbun Tijmannlegrar og eilijfrar Blessun-ar, AMEN.

## 29. Capituli.

Um þad Kiemmañlega Lykla-Vald.

Hvorium hellst þier fyrirgiefid Syndirnar, þeim eru þær fyrirgiefnar, og hvorium hellst sem þier þær aptur halldid, þeim eru þær apturhalldnar.

Margar Eymdir umkrijngia oss i þessum Heimi, enn Root og Uppspretta allra þeirra, bædi

And-

Andlegra og Lijkamlegra, Tijmannlegra og Eilijfra er Syndinn, Rom. 5. v. 12. Skuli nu þessi saara Syndarinnar Kvol af oss sviptast, og vier wr þessum Jaarn-Hleckium losast, þaa maa JEsus koma þar til, og giefa oss sanna Ydran, og Aflausn, annars er þar einginn Fridur, eingiñ Heilbrigdi, einginn Roosemi; Psalm. 38. v. 4. Enn nu kiemur hann til vor, og tekur oss hryggva wr þessu Faangelsi, og wtleidir oss wr þeirri Fridlausu Syndanna Myrkvastofu fyrir sijna Pioona, Esa. 52. v. 2. Hvoriu Verki þeirra og Valldi yfir ollum Sannydrandi, ad hvorki fær hneckt Diosull, Helvijti, Luc. 13. v. 11. Nie neinir Veralldar Menn, hvoria Adburdi sem þeir vilia brwka; Þar uñ erum vier vissir, af strax nefndu Uñbodi Drottinns, wtgiefnu hanns Pioonum. Soddann þinnar Giædsku hefi eg opt ad notid, miñ JEsu; Pvi nær eg sekur, Synda særdur og Hiarta hryggur kiem ad Footum þinna Pioona, þa leysa þeir mig i þijnu Uñbodi, og so verd eg þinnar Nædar niootandi; 2. Sam. 12. v. 13. Þu veitir oss ad sonnu Otal margar Velgiørdir, og þijn Giædska er hvorn Morgun ny (hvar fyrir mijn Saal, ollum Skiepnum framar, tilskylldast ad elska og løsa þig sem møgulegt er, og þo ert þu enn meira Heidurs verdugur); Eñ þessi Astgiøf þijn, Syndanna Fyrirgiefning, er su mesta og stærsta: Ps. 51. v. 11. seq. Þegar þu fyrirgiefur oss Syndirnar, þa giefur þu oss Daudum Lijf-

d, Ps. 51. v. 12. Eckí so þad Tijmannlega, so sem þad Andlega og eilijfa, æn hvors Lijfs ad þetta Lijf, er ecki annad ad reikna enn Daudi og Helvijti, edur Reysa til eilijfra Kvala. Einn Saka-Madur, sem brotid hefur af sier Lijfid, hann verdur gladur, nær hann er upphafður wr Myrkvastofunni, og honum er þetta Tijmannlega Lijf giefid, sem þo er eñ adsijgandi Daudi, Eymd og sijfelld Plaaga; Hvad miklu fegnari meigum vier þa verda, aumir Daudans og Diöfulsins Fangar, þegar JEsus vor hærsti Herra giefur oss upp alla vora Synda Sekt, og segir: Þu skallt lifa og ecki deya, 2. Sam. 12. v. 13. Þa er oss giefid þad Himneska Arfa Godzid, sem vier af oss brutum, Jaa, wtsvoudum med þeim fortapada Syni, Luc. 15. v. 14. 22. Þaa er mier giefinn Akur Mykunarinnar i Stadiñ fyrir Dijblissu Neydarinnar; Glediñar Andi fyrir Hryggdar Anda; Fyrir Serk Bølvunarinnar, Kyrtill Riettlætisins; Es. 61. v. 3. Naad Guds, fyrir Onaad Samvitskunnar; Forsvar JEsu Christi, fyrir Aklogun Diöfulsins; Eilijf Vistar-Von Himneskrar Paradijsar, fyrir forþienta Utsnaran fraa Guds Dijrdar Augliti eilijflega. Hvad skal eg uñ þessa omælanlega Naad Guds segia, annad enn þetta: Þu, Herra JEsu, snijr þier til eins dauds Hunds, þegar þu snijr þier til mijn og fyrirgiefur mier Syndirnar, 1. Sam. 24. v. 15. Enn Hund reikna eg mig maklega, þvi eg et so

opt uppaptur Syndanna Spyu og Opekt, hvor=
ia eg ædur lietst vilia ysirgiefa: Ja, eitt Svijn er
eg riett nefndur, þvi eg vellti mier so tijtt i sama
Saur, 2 Pet. 2. v. 2. Samt hefur þu so opt
tekid mig til Naadar! O Herra, eg hrædist a d
þijn morgu Myskunar-Verk mier veitt, hvor eg
hefi til Syndanna Vanbrwkad, Es. 65. v. 2. mu=
ni verka uppa Reikning skrisud, og snwast mier
sijdar til stærri Hefnda. O hvad opt hef eg lofai
þier Trygdum! O hvad opt hafa þijnir Pioonar
sagt til mijn: Laat af Illu og gior hid Gooda!
Pessu hef eg lofad, enn Dogum optar af þvi brugd=
id, Jer. 3. v. 20. Maa eg opt hupa so, einkum
þegar eg skrijd fram fyrir þitt Auglit i Skriptar
Stoolinn: Hvad skal mier Overdugum Ormi,
Esa. 41. v. 14. og i ollum goodum Verkum visn=
udu Haalm-Straai, ad vogast fram fyrir Guds
heilagt og hrædilegt Tignar-Velldi, Jer. 23. v.
11. Hvad skal mier ad JEsu Footum, hvors
Blood eg hefi trodid, og hvors Saattmaala eg
hefi opt rosid? Ebr. 10. v. 29. Samt maa þo
ecki þeisi Þanki reka mig fraa þessu Skiooli; Þvi
dey i eg, so dey eg Drottni, Rom. 14. v. 8. Hv=
orninn sem þad geingur mier, þa fæ eg þo hvorki
Lækning nie Lijf, nema hiaa þier, þu eilijfa Lijf, og
Læknis-Meistarinn Herra JEsu; Þvi skal eg hier a
Ohræddur hætta, mier hefur had ad goodu At=
hvarfi ordid, so mun þad og verda hier eptir; Þu
villt aungvann fra þier reka sem til þijn kiemur: Þet=
ta

ta Ordid: Aungvañ: Dyrst mig, eg vil laata mier an ægia pad, med pvi fleira sem pijnir Pioonar hier um boda mier, fram af hvorra Munni ad pitt blessad Blod, O JEsu, so gott sem blædir yfir sollinn Synda Saar mijn, 1. Joh. 1. v. 7. Og petta Salve yfir mitt sorgandi Hiarta; hvar vid eg læknast og fæ andlega Hugar-Hresting: pegar eg tiaai peim pessa mijna saaru Eymd med Munninum, Psalm. 32. v. 5. enn pier, O JEsu, med Hiartanu sundurmardu, pa svara peir mier pessu Utvortis, enn pu Hiartanu innvortis fyrir H. Anda sem pad par fyrir Trwna innsiglar: JEsu Hiarta polir pad ecki ad burtreka pig Hiaalparlausann, hanns Myskun mædir hann, Jer. 31. v. 20. Hann vill ei pin̄ Dauda, hañ er pier giefin̄ til Vijsdooms, Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor 1. v. 30. So vertu nu Hughraustur Sonur, pier eru pijnar Syndir fyrirgiefnar, Matth. 9. v. 2. Og peir eru daudir og Maktarlausir, sem leitudu eptir pijnu Lijfi, Exod. 4. v. 19. Par med verd eg fyrir Trwna heilbrigdur. Pau Laungietnu Born standa ecki til Arfs eptir sijna Forelldra, enn pau skilgietnu hafa ecki fyrir pvi ad ottast, og peim parf einginn um̄ pad ad bryxla; So eru og DRottinns Pioonar allir skilgietnir, Gal. 4. v. 26. til pessa Arfs edur Embættis Utrietting-ar, eptir Postulana, og peirra Embættis Verk kroptug fyrir Gudi (so sem adur er bevijsad) nær peir rekia Foot-Spor sijns Herra, og fylgia hanns Bodum

Bodum, i þvi ad kieña Ordeð hreint, og einardlega straffa þaa sem gaanga a raungum Veige, so þeir af Guds Orde þecke sig og meigi leidriettast, 2. Tim. 4. v. 2. Tit. 1. v. 13. So sem og hugga þa hrygg-vn af DRottens Naadar Fyrirheitum, Es. 10. v. 1. Cap. 35. v. 4. Jaa, hvad þeir wtrietta i þessu, eptir JEsu Orda Fyrirsogn, þad er stadfest aa Himnum. Nær þeir nu straffa mig, vil eg ecki einasta þad feiginn lijda, helldur og til Þacka taka; hafi eg þann kiærann sem mig vara vill vid Lijkam-legu Skadræde, þvi skal mier ecke sa kiær miklu fram ar, sem mig vill draga fraa Helvijtis Elldeog eilijfu Skadræde? Eg veit ad Gud hefur bannad hon-um, ad giefa Hundum Helgidoom, Matth. 7. v. 6. Þvi skal eg þa þyckia þad, þo hann varne mier ad medtaka, sem Hundur, Guds hawerduga Hel-gedooma, sem Vantrwudum og Ogudlegum Med-tokurum verda ad Ylm Daudans til Daudans, 2. Cor. 2. v. 16. Edur er þad ecki Velgiorn-ingur ad bægia einum fraa Elldenum, so hañ breñe ecke? Meddeile þesse Guds Naads-Madur mier vitanlega Ooverdugum þa stoora Dyrendis Fiesioo-du sijns Herra, þa setur hañ bædi mig og siaalfann sig i hiñ mesta Haaska, Ezech. 33. v. 8. So sem eg vil feiginn ad JEsus giore þad vid mig sem honum gott þiker, so vil eg og feiginn ad þesser giore þad vid mig sem JEsu wtgiefid Umbod til helldur þeim; Eg veit ad eg verd alldrei fegnare ad medtaka þau andlegu Giædenn af þeirra Hende, helldur enn þeir

ad meddeila mier þau, nær þeir sia mig og þeckia fyrer þau hryngradann, Exod. 32. v. 32. Rom. 9. v. 3. Hier fyrir utann bóda þeir mier so margt eitt Lijssins Ord, leysa mig fiotradann, hugga mig hryggvann, og senda so mørg heit Bænar-Taar leynt og lioost fyrer minnar Velferdar Saker, upp til DRottens, 1. Tim. 2. v. 1. ad mier mætti verda þad Orsok Tijmanlegrar og Eilijfrar Olucku, efeg, ofañ a adra Illsku mijna, hatade þa og forakt:ade fyrir allt þetta, Luc. 10. v. 16. So þeir andvorpudu þar yfer ofann a adra Mædu, Ebr. 13. v. 17. Þvi hvada Barne er þad seur hræk-ir i Andlit sijns Fodurs, edur slær og bolvar sinne Moodur; skal þad ecki Bolvanenne nærst? Slijks hefnir DRottenn vissulega, sem ecki lætur ad sier hæda. Varist þvi aller þad sterklega, sem vilia iñ-komast i Himnarijki. Hier fyrir utañ meiga Guds Þioonar vita Skylldu sijna i þvi ad fara vandlega og varlega med sitt Lykla-Valld, þvi med Dramb-be og Ofbellde ad brwka þad, hagar illa þeim frem-ia vilia goodann Riddaraskap; ad behallda good-ri Samvitsku, kostar Athygle, 1. Tim. 6. v. 12. 2. Tim. 4. v. 7. So ecki kvijdi Saalinn vid þwngum Reikningskap epter a seirna: Ad dvelia ecki vid Aflausn ydrande Manna, enn snwa þver-brotnum med Hoogværd, er goodur Maate i þessu Verki, 1. Thess. 5. v. 14. O JEsu! Þu sæt-aste Unnuste minnar Saalar, mýkuna þu mier Overdugum, snw þu mier gaalausum og Giaalijf-

um, og leys af mier þijnum Faanga þau saaru Synda-Fiotur, so eg særdur og Synda hrelldur, faai Frid og Fognud, Rom. 14. v. 17. Þad bodar mier minn Gud hier um fyrer Munn sinna Þioona, þvi vil eg og trwa, vitandi ad mijns Hyrders Lausn, er sem sialfs þijns Lausn, so verdur mier sem eg trwe, Amen.

# 30. Capituli.

Um Fall Thomæ Postula.

ENN Thomas, Eirn af þeim Tolf, sem kalladest Tvijbure, var ecke med þeim þa ed JEsus kom. Enn hinir adrir Lærisveinarnir sogdu til hans: Vier høfum sied HErrann. Enn hann sagde til þeirra: Nema eg siaae Naglaførenn i hans Høndum, og laate minn Fijngur i Naglaførenn, og eg legge mijna Hønd i hans Sijdu, þa trwe eg ecke.

AD sofa ofleinge, aflar Vanheilsu, tærir Formeganenne og spiller Maadar-Tijmanum, sodd ann Slen hindrar opt fraa goodu Tækifæri. Þad er einginn Nijung, ad heyra þad, ad Menn barme sier og aasaki sig, nær þeir forsiaa sig i þessu, þegar þeir vilia vera i þeim Hlutum, sem Hollsins Vilia og Tijmannlegum Giædum vidkoma: Var eg

ecke

ecke eirn Vitfyrringur (seigia þeir) ad eg forsoom-
ade þad edur þad: Eñ hvad skialldañ heyra Menn
ad þad take sært, þo þau andlegu Efne og Verkan
Sæluhiaalparennar falle undañ; Tilfiñingeñ þar
til, sijnist opt ad vera ærid dofinn, þar vid er ecke
brugded Blunde þo kallad og hroopad sie seigiande:
Sofed ecke, Matth. 26. v. 41. 1. Pet. 5. v. 8.
Þad bijdur ad Menn vakne edur þecke þad fyrer
stoora Misgiörd, edur giefi good Svor, fyrr enn
Lwdur, ecki ad eins Lögmaalsens, helldur Hrijssens
og snarprar Hegningar giellur um̃ Eyrunn, Ja,
stundum ecki fyrre enn Saared er orded swid og for-
roted, og öllum Svidanum leggur Jnn ad Lijfe
Saalarennar, so henni er Daude bwinn; Þar ki-
emur og stundum annad verra til, þvi eitt bijdur öd-
ru heim, þad er Torvelldne Trwarennar, so þar
synist Skipbrot bwed aa hvörre Stundu; Sodd-
ann er Algeingenn Landfar-Soott aa þessum Dög-
um, þetta og þvilijkt Harma-Spil maa noog siaa
og heyra.

Lijking hier uppaa maa siaa aa Thoma Postula,
hann var ecke med Læri-sveinunum þa JEsus kom,
hvar hann var aa medann vardar oss ecke um̃: Ad
hañ hafi ecki samlagad sig Lærisveinunum, eptir þad
ad þeirra Flootte giördest fraa DRottne i Gras-
gardenum er Misgrunande, þvi Lucas seigir, ad
þeir Tveir Emaus Vegfarendur hafi funded þaa
Ellefu samannsafnada; hitt er lijklegra, ad hañ ha-
fe um̃ þessa Stund, sem JEsus kom, geinged eitt-
hvad

hvad uppa Skiemtan edur Forvitne, ellegar til einhvorra sinna Utriettinga; en hvad sem i þessu verid hefur, þa fieck hann noogu þwngt Saar af sinne Burt-Veru, sem var Vantrwenn, eitt þad stærsta og Saalunni skadvænasta, þvi an Trwarenar er Omogulegt Gudi ad þocknast, Ebr. 11. v. 6. og hvor ei trwer hann skal fordæmast: Hvor Synd kann þa ad vera skiædare og skadsamare enn þesse? Þvi ef Lioosed sialft er Myrkur, hve mikel munu þa sialf Myrkurenn? Matth. 6. v. 23. So var þetta Lioos formyrkvad orded hia þessum Guds Manni wr Hosi frami, ad hann trwde ei ad eins ecki heyrandi, helldur sagdist hann ecki trwa siaandi, nema hann yrde Saarunum DRottenns aþreifande. Sierhvor læri þvi hier af þessu Dæmi, ad skilia sig ecki fra Samfielagskap Guds Barna, Ebr. 10. v. 25. edur Samkundu þeirra Frumgietnu, Ebr. 12. v. 23. hvar Guds hreina Ord er kiendt og predikad, af hvoriu vort Trwar Lioos kviknar og endurnærist, Rom. 10. v. 17. vidhelldst og vardveitist, þviad i Kyrkiunni talar DRottenn vid oss, og uppvekur vor Eyru, so ad vier heyra kunnum, so sem sanner Lærisveinar, og vitum sijdan ad tala þar wt af, ecki ad eins vid vor mædd Hiortu, helldur og vid adrar Sorgbitnar Saaler i Naudsyn; Es. 50. v. 4. 10. Þar faaum vier Grædslu vid sierhvorium Meinsemdum vorrar Saalar; Es. 53. v. 5. Þar faaum vier rietta Undervijsan um þad, hvornenn vier skulum

gaanga og Gudi þocknast; Þar faum vier sied, so sem i ødrum Speigli vora Breitni og Bletti; Þar faum vier Vopnenn til ad beriast med, i þvi andlega Strijde, so ad Corona Lijfsins oss sijdann veitast kune; J einu Orde: þar faum vier ad læra þa sonnu Gudhrædslu, sem bædi er til þessa og annars Lijfs nytsamleg: Giefer þu þig fraa þessu andlega Herbergi og Borg' DRottens, hefr þu ad vænta andlegrar Villu i þessari Eydemørk, ei sijdur eñ Agar burt vikeñ wr Abrahams Hwse, Gen. 21. v. 14. Þu telur þad ecki mikla Synd, Eitt Sinn og annad ad hallda þier fraa Guds Barna Samkvæmi; enn eg seigi: Flijtur aa medann ecki sockur: Hier var Thomas Eitt Sinn i burt, og fieck hann noogu þwngt af þvi. Barn Guds, vird alltijd fyrir þier þann þraungva Veg Lijfsins; ef þeir, sem kostgiæfa ad fara alltijd sem riettustu Leid, hiaalpast naumlega, hvad mun þa vilia verda um hina sem sijfelldt sofa i Athugaleysenu, Post. G. 20. v. 9. og yduglega forsmaa Kyrkiur, Kiennimenn og Guds Orda Lærdoom; þeir þurfa ecki ad undrast þoo ad framkomi, ad þeir faae aungva Huggun af Gude i sinne Hrygd, helldur ad hann vilie spotta þaa i þeirra Plaagum, fyrst þeir sættu honum ecki, og verde so sadder af sinni eigiñ Priootsku. Prov. 1. v. 25. 26. Ad sonu er þessi Doomur Veralldareñar Allkuñugur; nær hun hughreyster sig i sijnum Glæpum, seigir hun: Þad sier ecki meira aa mier eñ hinum ødrum. Þad kañ þier þu vonde Hyrduleysinge so ad

sijnast

siinast um̃ Stund; en̄ villtu ecki leida þier i Hug ad þad kunni ad skie, ad Gud um̃lijde þig sem annad Reidennar-Kier, sem bwid er til Fordæmingar, og sem Saud sem ætladur er undir Knijfinn, þegar þu hefur ecki einasta soddann Þocknan og Lyst a þijnum Lostum, helldur og an̄arra eins a sig komnum: Þad er og stundum skam̃t ad bijda Hoggsins, þvi adur enn þad Þyrnarner eru fullvaxner a Þyrne-Brwskenum, þad er, adur en̄ saa edur saa haalfnad hefur Eirn og An̄an̄ vondann Asetning, edur midt i honum, tekur Gud af oll Raaden̄, og han̄s Reide svipter þeim ferskum i burtu. Ps. 58. v. 10. Þu kan̄t ecki ad tala a Twngu, og ecke ad lifa fyrer utan̄ Hiarta; So siinast þo marger i Heimenum ad vera a sig komner; þeir hafa Obeit mikla a þvi ad laata undirvijsa sier um̃ Gud, þvi tala þeir og hid færsta um̃ hann, þar af maa siinast þeir hafi han̄ ecki i Hiartanu, edur Elsku nockra til han̄s nie Trw a honum, hier fyrir reiknast þeir lifandi dauder; J þvi er falid þad eylijfa Lijf ad trwa i Hiartanu a Gud, og jaata hann med Munnenum, þa fylger epter Riettlætid og Saaluhiaalpenn. Rom. 10. v. 10. Eitt dofid og daudt Holld finnur ei til þess, þo þad sie skorid edur kliped; eins er og vared þeim daudu og dofnu Samvitskum: Þær finna ecke til þess, þo Satan skiere wr þeim Hiartad, þad er, alla Tilfinning til Syndarennar, oll Ydrunar Mykende, og alla Elsku til Guds og hanns Bodorda, þar sem Eitt Guds Barn fær megn Saaren-

de jafnvel af eirni Ofirsioon, þvi þeirra Samvitska er so kvik af siifelldri Stroffun. Heilags Anda, ysir hvorium þaug bwa, ad þau meiga eckert vidkvæmt þar innleggia: Hvad sem um̃ þetta er meira ad vera, sie ollum oss raadlagt, ad minnast jafnann og hafa i Huganum, einkum þegar Diofull, Holld og Heimur vill hindra oss fraa þvi Gooda, þau Ord sem Martha sagde Systur sinne Mariu Fordum; Meystarenn sagde hun (enn þad var JEsus), er þar, og kallar aa þig. Joh. 11. v. 28. Hann kallar aa þig til Guds Orda Heyrnar, þvi i hvorium Stad sem hann skickad hefur ad vera skuli Miñing siins Nafns, þaangad vill hann koma og blessa þig. Exod. 20. v. 24. Þessi sami Stadur og Sofnudur Guds Barna, maa heita eirn andlegur Himen, aa hvorium Sool Riettlætesins JEsus lætur siina Geisla skiina, er uppliisa vor Mannanna Hiortu. Vilier þu nu ecki verda wte i Myrkrunum, fyrst Villunnar og siidann Fyrirdæmingareñar, so gack nu i þessu blessada Liosi, so þad leide þig i Lioos eilijfrar Byrtu. Lær hier enn framar, christeñ Madur, ad riettlæta ei þijn raungu Verk, med Hrosunum DRottens Astvina, seigiande: Þad og þad hendte hañ og var hañ þo goodur Madur, þvi maa mig ei siidur skie hid sama? Þvi þo Noa hendti Ofdryckiann; Gen. 9. v. 21. Loth Bloodskom̃, Gen. 19. v. 33. etc. Moysen Manndraaped, Exod. 2. v. 12. og Efasemenn, 4. M. B. 20. v. 10. Aaronem Skwrgodadyrkunenn, 2. M. B. 32. v. 2.

David

David Hoordoom og Manndrapid, 2. Sam. 12. v. 2. etc. PeturAfneiting, og þaa adra Drottinns Lærisveina Hardwdinn, þa er slijkt ecki skrifad hier til Eptirbreitingar. Eda villtu breyta eptir Juda i Falsinu og Svikunum, og verda honum maaskie samferda? Nei; Helldur er slijkt skrifad hier til Vidvorunar, og Sannydrandi Mönnum til Trwarstyrkingar, ad nær þeir falla, þa skuli þeir þo ecki orvænta sier Naadar DRottinns, sem er rijkur af Myskun yfir þeim sem aptur snwa, af Hiarta ydrast og Ottast hann, þvi þar sem þessir þeckia med saaru Angri Syndina, og hata hana, eñ trwa a Jesum, sem riettlætir Naanglaatann, þa nær þetta Ord til þvilijkra: Hvar Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir Naadinn miklu framar. Minn Goodi JEsu, opt vill mier tilfalla saarlegur Veikleiki Trwarinnar, enn hiaalpa þu minni veikri Trw, so hun lifi og lijsi i sañri Gudhrædslu; þu blessada Lioos og Lijf, laat þitt Lijssins Ord, lijsa oss allt til Heimsins Enda, so vier alldrei fraa þier föllum i neina Vantrw edur Orvæntingu, AMEN.

# 31. Capituli.

Uñ Vidrietting St. Thomæ af Skodun Saara-Oraña JEsu.

OG eptir Atta Daga voru eñ aptur hañs Lærisveinar þar iñi og Thomas med þeim. Þa kom JEsus ad

luktum Dyrum, stood i Midld og sagdi: Fridur sie med ydur. Sijdañ sagdi hañ til Thomam: Riett þu þiñ Fijngur hijngad, og skoda mijnar Hendur, lypt upp þiñ Hendi og legg i mijna Sijdu, og vert ecki vantrwadur, helldur trwadur.

Um þann lifanda Gud talar David þañig: So sem þitt Nafn er, so er og þinn Lofstijr iñ til Enda Veralldarinnar, Ps. 48. v. 11. Medal Mannanna er Nafn og Lofstijr ecki alltijd samferda, enn so sem Gud tiæir sig ad vera i Ordinu, so reynist hann alltijd i Verkunum; hinn goodi JEsus svarar alltijd til siña Nafna i siñi Vidhondlan vid oss Syndarana: Hann nefnir sig goodañ Hyrdir, Joh. 10. v. 11. Hanns Giædska verdur og alldrei noogsamlega wtsøgd, hañ tekur ecki ad eins fagnandi a mooti þeim Saudum sem til hanns flya, helldur leitar hann og a allar Lundir ad þeim sem villast, og ber þa mættlausa a sijnum Herdum heim til Sauda-Hwsins wr Hæskanum, Luc. 15. v. 5. Þo otal Ovinir vilie umkrijngia þa og eptir þeim sækia, fær einginn þa skadad a einu Hofud-Hæri, Esa. 40. v. 11. Nie þa slitid wr hanns Hendi, hann glatar aungvum af þeim, hañ giefur þeim Lijf og fulla Nægd, Luc. 21. v. 18. Joh. 10. v. 28. Þañig svarar nu JEsus til sijns Hyrdirs Nafns. Nærsta vel sannadist þad a hanns Vidhondlan vid Thomam. Mundi ecki Thomas vera hier vord-

iñ

inn allrar Naadar Overdugur vegna Vantrwar sinnar? Hafdi ecki Drottinn Riett til ad yfirgiefa hann i fraaleitt Sinni so hann trydi Lyginni og tapadist, fyrst hann villdi ecki Sannleikanum trwa? Eñ þad kuñi ecki JEsu Myskunar Hiarta ad lijda, þvi kom hann hier uppaa nijtt hanns vegna, med nija Medalgaungu og nija Fridarbodan, so hann læknadi hañs niju daudlegu Akomu. Hvar fæst nu lioosara Dæmi og Sañleiks-Vitni uppa hañs Lofs ord, ad hann vilie ecki wtslockva lijttlogandi Lijn-Kveik, nie brakadann Reyr sundurbrioota, Esa. 42. v. 3. Og ad hann sie kominn eptir ad leita, og Saaluhoolpid ad giøra hid tapada? Soddañ er øllum veik-trwudum Guds Saudum til, stærstu Huggunar, og øllum sannydrandi Syndurum til Andlegrar Hugar-Hressingar, þvi Jesus er hinn sami i Giær og i Dag, hinn sami allt til Eilijfdar, af oendanlega heitum Myskunar Ydrum, og stærsta Ovilia aa Syndarans Dauda. JEsus itrekar hier øll hin somu Ord, sem Thomas hafdi adur brwkad aa sijnum Vantrwar Vegi: So hagar JEsus þvi enn þa alltijd; Þegar hann snijr Syndaranum a Ydrunar-Veiginn, þa lætur hann Syndarann rekia til Baka þau Synda-Sporinn sem hañ gieck fyrri, fyrir Endurmiñing, Upprifian og sanna Þecking i Hiartanu, hvar af ad aflast sonn Ydrunar-Taar, so sem þa grafid er eptir Vatni i Jordina; Og maa sañlega margur af oss kañast vid soddann JEsu Adferd med Hiartans Þacklæti,

Þvi þad sem vier nidurgrøfum og hylium, þad vill Gud uppgrafa og i Lioos leida, Esa. 29. v. 15. Matth. 10. v. 26. Og mundum vier margt soleidis fela, og þess seint minnast, ef sialfrædir værum, en hvad Madur man ecki, þar tekur hañ aungva sierlega Ydran fyrir, enn hvar er Ydrunarlausri Vondsku Fyrirgiefning heitid? Þvi er þad eitt Giædsku Verk Guds og nærkvæmur Fødurs Giørningur, ad hann lætur Synda Registur vort vera opid i Huganum, oss til sisielldrar Ydrunnar Aminningar, uppaa þad, ad þad verdi hier i Nærdinni yfirdre gid, og sijdur lesid oss til Sekta edur Syndagiallds a þvi sydarsta allsheriar Þijngi: Eñ sierdeilis upprisiast giordar Syndir i Hormungum og Freistingum, þaa verda þessi Saarinn vidkvæm, sem Dæme Jacobs Sona vitvijsar, þvi nær þeim gieck Mæduſamlega i Egyptalandi, þa mundu þeir, ad þeir høfdu selldt Broodur sinn, Gen. 42. v. 23. Þa maa Mann opt med Harmi rekia þad, sem ædur var med Hlætri nidursæd. Hier sogd Drottinns Aminning giorir oss og Vareigdarsamari ad siaa vid Syndinni, og Kostgiæfnari ad strijda moti Dioflinum, Heiminum og Holldinu, þvi Minning hinna fyrri Synda, bendir oss til þeirra allt siaandi DRottinns Augna, sem ecki einasta veit øll vor Verk og Ord, helldur og þaa huldu og heimuglegu Hiartans Þanka, Jer. 17. v. 7. Þvi so sem hann sier þad fyrra, so sier hann og þad sijdara, og alldrei dyliunst vier

fyrir

fyrir hanns Augum. Nu uppaa þad ad Thomas nædi andlegri Heilbrygdi og Hugar-Hægd, syndi JEsus honum sijn Saara-Or, so hann mætti þar aa þreifa, og af Vantrwudum gioraſt trwadur; Hvad og ann Ovalar ſkiedi. So fær og enn mijn Saal i Trwnni, ad þreifa aa og ſkoda þijn Handa og Foota Saar, minn Herra JEſu, hvar vid eg læknaſt af mijnum Andar Meinſemdum, og gioriſt þar um fulloruggur, ad þu hafir mig med þeim innſkrifad og teiknad i þijnum Hondum, Eſa. 49. v. 16. Þegar mijnir Fætur þreytaſt hier aa Kroſsins Vegi, og Holldid tregdaſt med ſtoorri Oþolinnmædi ad gaanga þa tilſkickudu Gotu Guds Bornum, þaa ſet eg mier fyrir Sionir, til Eflingar andlegrar Orku og Dugnadar, þijn Foota Saar og ſvijdandi Undir: So verdr mier, O JEſu, þeſsi Rauna Vegur þægri og elſkulegri, þvi eg ſie þa, ad þad kann ecki a annan Hatt af ad komaſt, ad naa inn i Himnarijki til þijn, en ſo; P. G. 14. v. 22. Þegar Syndanna Saar, ſæra og mæda mitt Hiarta, og boda mier Helvijtis Pijnu, og þad eg muni wtſkwfaſt fraa þeim eilijfa Brwdar Sal, inn i hvorn þeir ohreinu faa ecki ad komaſt, Opinb. 21. v. 27. Þaa fly eg hræddur og mæddur i Saarid þinnar ſignudu Sijdu, þa bleſſudu Svolunar Biarg-Skoru, hvadan ſtrax ſkyn yfir mig lioomandi Geyſli þinnar Elſku, lijka ſem Glanſinn af Briooſt-Skylldi Aaronis fordum leiptradi yfir Foolkid, til Fullviſſu eins Naaduglegs

Teikns og Andsvars af DRottni: Hvar med
þa og Fridstilliſt mitt Hiarta og sær andlega End-
urnæring, Ja, hvad sem mig vill acklaga, þar
skal eg undann þeirri Aklogún flya, til þessa Fry-
Stadar og fasta Slotz. Hvør mä mig þadan re-
ka? Enn sierdeilis og einkum vil eg og skal hafa
mig i þetta ohulta Skiool, nær eg formerki ad mijn
Stund sie komiun, ad gaunga Veg allrar Verallð-
ar, og Saal mijn a burt ad venda wr þessu Lijkam-
ans Hreysi: Þaangad i þañ Fagnadar og Fridar-
ins Bwstad vil eg þa senda hana, fyrir heitar Hiar-
tans Andvarpanir, eptir þvi ad eg er nu i Trwñi (þo
veik sie) viss um þad, minn JEsu, ad hun sie þijn
Unnusta, hvoria þu hefur þier fastnad i Raad og
Mystkunsemi, Hos. 2. v. 19. Þu munt og eirn-
inn senda a mooti heñi þa himnesku Vagna, þijna
H. Einlga, og ad henni innkominni i þetta fasta Sl-
ot, kann eingiñ henni framar ad ama, hvorki Diöf-
ull, Synd, Logmaal, Heimur nie Helviiti; Enn
a medañ þetta dregst undann, og eg er hier dveliandi
i Utlegdinni, og Saalinn verdur ad draga eptir sier
Lijkama þessa Dauda, Rom. 7. v. 24. Vil eg alltijd
nær sem mier svijda Synda Saariñ, og þessar Und-
ir uppysast, sem miog opt vill skie, leggia Saar vid
Saar, mijn Saalar Saar vid JEsu Saar; Þad
skal mïnn einasti Græði-Plaastur, þar med skal stilla
allañ Hiartans ofur-Hita og Orosemi, so burt bur-
kast best Syndarinnar Blood, ad þad sie med JE-
su Benia Bloodi i burt þvegid, 1. Joh. 1. v. 7.

So

So næriſt beſt, i þeſsu Myrkri, þad andlega Trw-ar-Lioos, ad þetta Vidſmior leggiſt þar ad, ann-ars trwi eg ad faatt muni til Huggunar i þeſſari Eymdanna Myrkva-Stofu: Jaa, ſo verdur all-ri Bølvan beſt i Bleſsan ſnwid, øll Freiſting beſt lægd, allur Harmur betſt bættur, allt þetta Skam-Degi Yndisſamaſt, allar laang-Nætur, Job. 7. v. 3. Rooſamaſtar, og Daudans Beiſkleiki burt drifinn, med øllu ødru Strijdi adſnakandi; ad þu bleſſadi Fridar Herrann Jeſu ſiert herberg-iandi i Hiartanu, ſamt Saara-Driun þijn opiñ, og Bloodid bleſſad auglioost fyrir Augum Endur-minningareñar; So ſkal þad vera mier, miñ Jeſu, i þijnu Nafni og Naadar-Trauſti! añad Skiool og Trauſt hef eg ecki; Med þeirri Huggun vil eg lifa aa medañ eg lifi, med henni og deya þegar eg dey, þvi fyrir hana og i henni aa eg eiliflega ad glediaſt. Þu, miñ JEſu, barſt hier Saara-Driñ aa þijnum forklaarada Liikama, og lijfgadir med þeirra Syn-ing þann haalfdauda Thomam; þu ſynir þau mier hier enn, mijnu Hiarta til Endurnæringar; Enn þar nu i Haatigninni þijnum Himneſka Fødur mi-er ſyndugum til Fridar og Boota; Þar ſiaa nu þau og þijnir Utvaldir, ſem eitt Sigur-Teikn og Ordſok ſiñar eilijfrar Saaluhiaalpar; þar ſæ eg og ad ſiaa þau med þeim, med fullkominni Gledi-Sioon, aa hvør eg nu horft hefi med veikri Trwar-Sioon. Þier, O HErra Jeſu, ſie Dijrd og Vegſemd ad eilijfu, Amen.

32·

# 32. Capituli.

Um Trwar-Styrking Thomæ Postula.

THomas svaradi og sagdi til hans: DROTTINN MINN OG GUD MINN. JEsus sagdi til hans: Af Pvi Pu Sært Mig Thoma Trwdir Pu; Sælir Eru Peir Sem Ecki Siaa, Eñ Trwa Po. Mørg oñur Teikn giordi JEsus i Augsyn siña Lærisveina, hvor ad ei eru skrifud i þessari Book, eñ þetta er þvi skrifad, ad þier trwid, þad JEsus sie Christur Sonur Guds, og ad þier so trwadir hefdud Lijf i hañs Nafni.

NÆR ed þitt Ord, Drottinn, þad opinberast, þa gledur þad og giorir vijsa þa Einfolldu, segir hinn H. David riettilega um þad lifanda Guds Ord, so þad sem hier er framsett, sem oll onnur, þvi ad i þessu Lijfsins Ordi medal aññara, fiñur þu, Sala mijn, ef þu þad grannt skodar, einn fagrañ Lærdoom. Þu sier hier fyrst nærsta vel uppfyllast a Thoma Postula, so sem og opt a sialfri þier, villtum og veik-trwudum Saud JEsu Haglendis, þetta sem Drottinn segir fyrir Muñ Esaiæ: Þegar eg var reidur uppa Odygd þeirra Agyrndar, sloo þa og geymda mig fyrir þeim, og vard reidur, þa rafudu þeir hijngad og þangad a Veiginum siins Hiarta, eñ þa ed eg aleit þeirra Vegu, græd-

da eg þa, og leiddi þa, og huggade þa aptur, og þa sem grietu yfir þeim. Es. 57. v. 17. 18. Þad meiga kallast hørd Slög, þegar DRottenn tekur af Hondena, og lætur oss vaafa sialfkrafa a Hollds-Villdarennar Vegum, og i Blindleika Hugskotsins, 1. Pet. 5. v. 12. Þad skiedur þo opt, þegar vier lautum oss ecki añad þocknast, eñ þad sem vond Naattura, uppæst af Diofli og Heimi, vill hafa, eñ fyrirlijtum Guds og goodra Manna Raad og Fortolur, Jer. 7. v. 24. Þa dregur Gud Reidenar Sky yfir sijna Hialp og Stioornan. Soddañ er megn Hyrting, og ad þoi Leiti megnari, sem blindum Manni fiñst minna til hennar; þad er þo tijtt Einum trilltum Syndara. Hvad mun þoi þa vallda, þegar soddañ Villudyr aptur snwa a rietta Leid? añad eñ Til-lit Drottins Astar og Myskunar, sem tekur i Taumeñ og aptrar Ferdeñe til Helvijtis, Jer. 31. v. 18. 19. og Onijtir øll Kaupeñ, sem samiñ hafa verid vid Diofuliñ og Verølldena, so sem þa hañ rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterenu, Luc. 19. v. 45. hreinsar sijdañ Saareñ med Myrru beiskrar Tilfinningar, græder þar epter Saar med Saare, Es. 53. v. 8. og gledur so Hiartannlega bædi Saal þess umvendta, Es. 38. v. 17. Luc. 15. v. 32. og hinna sem bormudu sier, og adur grietu yfir hañs Hardydge og Umvendunarleyse. Skal þier nu ecki virdast, mijn Saal, ad Milldenn DRottenns sare Raakvæmlega ad Grædslu so Daudlegs Saars? Soddañ sijnir sa

Myskun-

Myſkunar-Meiſtarinn Daglega bædi aa þier og morgum ødrum, ſo ſem og eirninn aa Thoma, hvor hier Allitenn, Græddur, Leiddur og Huggadur af Myſkunar-Hønd JEſu Chriſti, giordi eina ſtutta, en̄ þo ſkijra og vafalauſa Jaatning um̄ JEſu Perſoonu og Embætte, ad han̄ væri ſannur Gud og ſan̄ur Madur; Mann med Afþreifingunni, og Gud DRottenn med Trwadre Vidurkienningu, medkiendi Thomas JEſum, og ſo under eins Tvær Natturur i eirni Perſoonu. Ad ſtanda i Mided, Tala, Syna, og laata þreifa aa Saara-Ørum Lijkamans, voru Obrigdan̄leg, Auglioos, og Omootmælan̄leg Teikn ſan̄arlegs Man̄dooms, i hvorium bygge Skilningsfull Saal; en̄ þeſſe Nofnen̄, Gud og Drotten̄, bevijſudu Guddoomen̄ Sierdeiliſlega (þo þad meigi eirnin̄ ſeigiaſt um̄ Man̄doomen̄, i Tillite til þeirrar Perſoonulegu Einingar) hvor nu ſo ølldungis og Einfalldlega kallaſt Fyrre og Seirne i Skriftenne, hann er Gud og DRottenn, og þeſsi Gud og DRottenn er JEſus Chriſtur Bleſſadur ad Eilijfu, Rom. 9. v. 5. Hvørs ad er Heidurenn og Rijked, Þioonkan allra Þiooda og Twngumaala, og eitt Eilijft Vellde. Dan. 7. v. 15. Soddann medkiennir nu Thomas af Naad ſijns Guds Trwadur giordur af Vantrwudum, af Særdum Manni Heilbrigdur, af Daudum Lifandi: Eg og eirnin̄, med honum þan̄iglæknadur, Jaa hreinſadur i Saal og Samvitſku af Daudlegum Verkum, fyrir þitt Blood O JEſu, Ebr. 9. v. 14. Þ er til

til Þioonustu, Jaata þig og medkieñi, eg vil þig alltijd Jaata medann þar er nockur Lijfs-Ædr heit i minnu Hiarta, og um̃ sijdir, fyrir þiñ Krapt, huxandi, þa Megnid er þrotid ad iaata þad talandi; eg vil og jaata þig med Hlijdniñi og Þioonustuñi; eg vil jaata þig, Krossen þinn uppa mig takande, og lijda allt hvad þier þocknast a mig ad leggia, Ps. 68. v. 20. Enn laat þu, miñ goode JEsu, þiñ Tilstyrk hiaalpa mier i þessu ollu samañ allt til Enda, Matth. 11. v. 29. Bænheyr þad, þvi þu veitst ad eg bid þig hier um̃ af ollu Hiarta, og vona viist ad ei vilier þu mier hwngrudum Saud þessa synia, sem rietti a mooti þier Maattlijtinn Fadm, þu miñ Gud og DRotteñ, so sem graatandi og veikt Barn a mooti sinni Moodur. Mijn Offer er sw Onnur, ad aller villdu þess giæta, epter Megni og Skylldunni, ad þu, O JEsu, siert sa sanni HErra, sem hvorium og einum Manni hæfir ad veita saña Tign, Heidur og Lotning, þvi af þier og fyrer þig medtokum vier allir allt gott, Joh 3. v. 27. Og i þier lifum vier og hrærunst vier, Post. G. 17. v. 28. Enn sa Eirn medkienner þig Riettilega sinn HErra, sem er þier hlijdeñ, og lætur sier af þier stioorna, og hvor anægdur er med allt þad þu lætur vera, so Mootlæti sem Medlæti, Lijf sem Dauda, Ja, lifer þier og deyr þier, Rom. 14. v. 8. Þetta sær ad sonnu Guds Barna Ande giort, þo Hollded vilie annad, og mogle i mooti. Cap. 7. v. 25. Þad er oss ollum stoor Æra, og þad vil eg fyrer mig kioo-

sa

sa, ad heita og vera þinn Þræll, minn sæti HErra! Einga Veralldar Vegsemd, nie Stundleg Met-ord, edur sænfeinga Æru-Titla, nu einasta aa Vor-unum brwkada, eñ Rentu og Elsku-litla, akta eg hiaa þessu Nafni; fari þeir sinn Veg aller, bliifi þetta. Eg sie ad Heimurinn hræsnar noog med þessu, kyssandi opt aa þaa Hondena, sem hann vill þo af-snijda, Virdir og Hædir aa somu Stundu, Lijka vel þaa, sem Vielalausrar Virdingar eru verdir af honum, og ecki hafa til Hædnis unnid, Ps. 12. v. 3. Jer. 7. v. 4. Hvada Hiegoomi er þad þa, ad sækia eptir sliikri Gull-rodenne Eyr-Mynt, og vesællri Vegsemd aa Vax Spiolldum? Þad skylldi og Heimurinn þeckia, ad þu DRotteñ JEsus siert eirn sañur Gud, Jaa, saa Gud sem allstad-ar er naalægur, Jos. 2. v. 11. 1. Kong. 8. v. 27. Mikid Lijdur og Þoler, leingi Biidur og Epter-vænter, 2. B. Mos. 34. v. 6. Og allt kañ ad wt-rietta med siinu Almætti, Gen. 18. v. 14. Luc. 1. v. 37. Eg Oska hann kynni, ad þeckia þetta riett, eñ jaata þad ecki ad eins, sem morgum er nu tijtt. Eg Oska og ad Sorgmædd Guds Born, aasamt allir Sañ-Ydrandi Meñ, þecki ad JEsus sie Gud, Trwr og Giædskuriikr, Bliidur og Blessadur, sem bædi hefur Huggad, Huggar og vill Hugga siina, og ollu Hormunga-Vatni aa þægum Tijma i Viin venda. Fyrer soddañ Eirn Gud, hefi eg mætt þeckia þig alltijd, minn goode HErra, hvad eg nu jaata, og vil alltijd jaata, þvi eg mun þad og eirn-

enn hier epter i ollum Vidlogum sai ad þeckia; og þvi ert þu nu sai Gud, sem alls Heidurs er verdugur, framar, Jai, eñ framar enn veitast kann, sai Gud sem tilbidiast skal, Sai Gud sem var, Sai Gud sem er, og sai Gud sem vera mun um̃ alla Eilijfd. Opinb. 1. v. 8. Af þvi Þu Sast Mig Thoma Trwder Þu, sagde JEsus; Joh. 20. v. 29. Jai, minn HErra, so ad eins trwum vier aumer best, ad þu opinberir þig oss, þitt Ord og Fyrirheit eiga og meiga verka i oss Trwna, og þad er ein þijn auglioos Nadar Opinberan, ad þu veiter oss þad hreint med riettri Tijdkan Sacramentañа, þvi þar med forklarar þinn H. Ande vor Skilnings-Augu, Ps. 19. v. 8. Enn med Hollesins Augum giefst oss nu ecki ad siai þig, hvad og i aungvu hindrar vora Velferd, þvi þu vitnar hier, ad þeir sieu Sæler, Sem Ecke Siai, Eñ Trwe Þo, Joh. 20 v. 29. 1. Pet. 1. v. 8. Eñ þijn Undrunarleg Leidsla um̃ Heimiñ, þijn sierleg og fliot Hiailp i Neydenne, þijn Ylm-sæt Huggun i Freistingunni og Hrygdenne, þijn Hulning, Lof-K. 2. v 9. Þiñ Nadar-Doomur, þijn Vægd og Fyrirgiefning ai Syndene, og Hiartans Forsmeckur þiñar Elsku og eilijfs Lijfs; Med soddañ og þvilijkri lifandi Aþreifingu ai þier og þiñi Nailægd, O JEsu, gierer þu mest ad þvi aisamt hinu, ad Trweñ og Elskañ þinna, vefur þig so ad sier med heitum Taarum optsinnis, og er þad þvi þinni sierlegri Opinberan ad þacka; Eg vil alltijd gledia mig vid þessa Sioon

M hier

hier i Lijfe, og hier þreigiande, so gladur sem eg kañ, fullviss vænta þinnar eilijfu Dijrdar-Sioonar, hvar eg med þessum Augum, þa þo forklarudum, sie þig fagnande gladur, i Endalausum Fognude og Fride, Job. 19. v. 27. Þangad til vil eg una mier vid þad, þo Hiartad huxi opt i Himininn, ad þu hefur latted allt þad mier uppteiknad verda fyrer þijn Verkfære, sem eg þarf ad vita mier til Sæluhialpar. Joh. 20. v. 31. So er eg nu Sañsærdur uñ þad, af þijnu Orde, ad þu, miñ JEsu, siert Christur, og Sonur Lifanda Guds, hingad i Himinn komenn, synduga Meñ Sæluhoolpna ad giora, so og ad aller þeir sem a þig trwa, fyrerfarest ecki, helldur hafi eilijft Lijf. Joh. 3. v. 16. So er nu øll min Von og Trw bygd og Grundvollud a þier, fyrir hvoria Trw eg sannlega frelsast; Þar uppa vil eg Lifa og sijdann Deya i þijnu Nafni, O JEsu, Amen.

# 33. Capituli.

Uñ Opiñberan Christi vid Sioeñ Tiberiadis.

Pter þad Opiñberade JEsus sig Lærisveinunum aptur vid Sioeñ Tiberiadis. Eñ hañ Opeñberade sig so: Þar voru til samans Simon Petrus, og Thomas, sem kallast Tvibure, og Nathanael, sa er var af Cana Galilea,

og Syner Zebedei, og adrer Tveir af hañs Lærisveinum. Simon Petrus seigir þeim: Eg fer ad Fiska, þeir seigia honum: Vier komum og med þier. Þeir geingu wt, og stigu strax aa Skip, og aa þeirri Noottu feingu þeir eckert. Eñ ad Morgne kominum stood JEsus i Fioruñi; Eñ Lærisveinarner vissu ei ad JEsus var þad. JEsus sagdi til þeirra: Born, hafid þier eckert ad eta.

HVT vitiar good Mooder eins veiks Barns; so villdi og JEsus opt byrtast siinum Veiktrwudum Lærisveinum, epter siina Upprisu, laatande oll siin Born vita, sem hier eru Hrygdum vafiñ, og eptir honum biidandi, ad hann vilie ecki laata þau leingi Huggunarlaus þreygia, Es. 41. v. 10. Þvi hann er alltiid naalægur sundurknosudum Anda og merdu Hiarta; Ps. 51. v. 19. Þegar Hormungenn þreinger, syniist oss JEsus laangt burtu, enn þa er hann þo nærstur, þegar þiin Taar renna, vill hañ þig snart med Huggun umspeña, þig gledia, fadma og ad sier vefia, Matth. 5. v. 4. 2. Cor. 7. v. 10.

Hier voru Sio DRottenns Lærisveinar vid Sioveñ Tiberiadis i Fiska Epterleitun, enn feingu þo eckert aa þeirri Noottu. Sioorenn edur Vatned merkir opt stoora Hormung i Skrifteñe; DRotteñ hiaalpa þu mier, seigir David, þviad Vatned geingur allt inn ad minni Saalu, Ps. 69. v. 1.

Noottenn i sama Maata tekst og fyrir Hrygd opt-lega; Landed er mirkt af Sorgum, seigir Esajas: Es. 5. v. 30. Og Job seigir: Eg vonadi epter Lioo-se, og siaa, þar var Myrkur; Jaa, so sem þad dunia Laangnætti er Einslegt vakandi Manni, hvor ed þraaer eptir Deginum, Job. 7. v. 3. 4. 13. 14. Styer og þetta Lijf þeim laangsamt og leidt, hvor-ium Sool Heilsunnar, Tungl Velgeingnennar, og Stiörnur Astvina Huggunar og Eptirlætis, med annari fleiri Birleysu, og mootdrægum Vin-di, hafnar og skijn skialldann gladt; Þeim sem sodd-ann opt reyna, giefur til ad draga wt aa Diwpid, i Mædu, Sorg og Andvarpi Hugskotsins, þar meiga opt koma aa þeirra Vaanga salter Taara-Dropar, Stundum meir Heimuglega enn Opinn-berlega, hvorier ei verda þo alltijd Medaumkunar-samlega aalitner, og Stundum sijst af þeim, sem hellst er Von viti, ad þeim boded er, ad graata med Graatendum; J þessu, sem i fleyru Goodu, brest-ur nu a Dögum Kiærleikann, og Tilsinningar Mykindi til ad harma Josephs Skada, miklu fra-mar enn hier þessa DRottenns Lærisveina. J sodd-ann soltum Hörmunga-Sioo Verallbarennar leingt ad hrekiast, helld eg þurfi Mann aa mooti sier, ecki sijst ef Drottenn sialfur syneft eitninn dvelia ad koma med sijna Huggun; þetta giorir Sorgena stærsta; þvi hvad mikill sem Moot-Byrenn er Ut-vortis, ef þar er Logn Innvortis, og Hlijvidri DRottenns Hugsvalana, so er öll ytri Sorg og

Moot-

Moot-Vindur ei utan einungis Gledi ad reikna, 2. Cor. 6. v. 10. Nu þo þad sie vijst og Obrygdanlegt, ad JEsus sie hiaa sijnum sorgandi Børnum alltijd (þvi hann er med þeim alla Daga, allt til Enda Veralldar, Matth. 28. v. 20. Enn þar eptir allt i øllum), þa eru þeirra Augu so halldinn, sem Lærisveinanna, ad þau þeckia þad ecki glogglega medann Sorga-Noottinn er sem dimmust, fyrr enn byrtir og afbraair. Hann lætur og Sorga-Noottina vera Sorga-Noott i Tilfinningunni, so þvi betur þeckist og verdi tekid i mooti-Hugguninni, og ei verdi annad sagt, enn JEsus hafi hana veitt. Jaa, Jesus lætur sum sijn Børn og kiærustu Astvini vera opt i þessu Lijfi aa Vindasamri Sioo-Reysu-Hørmunganna, so þau faa sialldann laangvinnt Logn, uppfyllandi so þessi sijn Ord: J Heiminum hafi þier Hrigd; Enn hefur þo siaalfur so naakvæmt Valld a Stioorninni, ad alldrei Kollkastast, og giefur vidnærandi Huggun i hvorri Hrygd, samt vidriettandi Adstod i hvørskins Þørf og Bøli. Hvornum sem nu Bylgiur og Vindar ysa sig, þa eru þad makleg Synda-Laun; Eg hefi saad i Synd, þvi er mier makleg Sorganna Uppskiera. Eg bid þig þo audmiwklega Vægdar, minn Goodi JEsu, ad ei refsir mier eptir Maklegleikum, helldur stillir Stormiñ og lægir Bylgiurnar. Eg veit ad eitt Siñ fær Enda miñ Sioo-Hrakningur; Eg veit ad eptir þessa dimu Lijfsins Vetrar Noott byrtir og kiemur Dagur goodra Umskipta, aa hvorium JEsus

lætur mig med ødrum sijnum Elskendum skipta um̃ Brøninginn, og flytiast inn̄ a Sælu-Hofn eilijfs Fagnadar, hvar eg fæ ad þeckia han̄ til fulls, og sia Auglitu til Auglitis. Ad Morgni leiddi Gud Jsrael Klacklaust yfir þad rauda Haf, Exod. 14. v. 22. A Efsta Degi leidir og JEsus sijna Sioohrocktu Vesælinga, wr þessarar Veralldar allri Hafs-Naud, og verdur þa Lendingin̄ i Hofn eilijfrar Paradysar. Hurum hier til gladir, þvi þar mun þa Frelsarinn JEsus synilega nalægur, burt taka vort hrornad Holld, wr Daudans Brim-Gardi, og leida vorar Saalir samteingdar forklarudum Lijkømum i Hoop og Selskap Utvalldra; Þar er øll Nott wti, enn feinginn eilijfur Gledi og Fagnadar Dagur utan̄ Enda. Þreyum hier eptir Polinmoodir! JEsus spyr hier Lærisveinana, hvort þeir hafi eckert ad eta? Hvar til þeir svørudu Nei. Þad giefur mier þa Eptirtekt, ad hier hafi maatt nockur Skortur a Ferdum vera; hvor Klogu-Mal en̄ þa opt mа heyra hia Guds Børnum, þvi soddan̄ Reynslu hefur Gud latid optsinnis framkoma vid sijna Elskulega Astvini, medal hvørra ad var Forfadirinn Abraham, þar fyrir vard hann ad flya i Egyptaland, Gen. 12. v. 10. Vegna Hallæris vard Jsaac ad flya i Land Philistinorum: Gen. 26. v. 1. og Jacob ad senda, Gen. 42. v. 1. Og so ad flya i Egyptaland, Gen. 46. v. 1. Sa goodi Guds Madur David vard og var vid þennan̄ Vond, 2. Sam. 21. v. 1. Og flei-

ri

ri Otal margir, þvi kann oss einnig ad tilfalla slijkt hid sama; Enn þad er so um þetta Mootlæti sem allt aňad, ad Þolinmædiň er þad Sikur, er sætir þessa beisku Jurt, þvi hun er Moodir Dygdanna, einn Edla Fiesioodur, og hinn dijrmætasti Geimsteinn, sem hefur Náttúru Gledi og Farsælldar; Gledinnar Náttúru hefur hun, þvi hvar hun byggir fastlega, þar gledur sig sáa hana hysir alltijd innvortis yfir Hormungunum, 2. Cor. 4. v. 17. Og reiknar þær sier fyrir Medlæti, þvert i moot Holldsins Doomi: Farsælldarinnar Náttúru hefur hun, þvi sáa er Sæll sem Freistinguna Þolinmoodlega lijdur, þvi eptir þad hann hefur reyndur verid, mun hann odlast Lijfsins Coronu, hvorri Drottenn fyrirheitir þeim sem hann elska, Jac. 1. v. 12. Vert þvi ecki Oþolinmoodur, þu Guds Barn, þo þiň Goodi Gud og Giædsku Fadir láti þier ecki allt þad i tie, sem þu villt edur þykist þurfa med til Holldsins Naudþurftar, hann veit best hvad oss hentar, hann sier best fyrir voru giorvollu Raadi, þvi er og best ad hann raadi; Þegar vier erum Ohugsiwkastir fyrir Lijkamanum, þa ber hann Umsorgunina, enn af ofmikilli Hugsijki forgleymum vier Saaluñi, og fær þa Hws-Moodurinn ad sitia á Skorinni, enn Ambaattiñi er trodid upp i Beckiñ, og er þad ill Nidur-Radan, hvoria Gud vill ecki hafa, Gen. 21. v. 10. Gal. 4. v. 30. Þo hann meigi þad optsinnis siaa hiaa morgum af oss: Og er i þvi audsien Glæpur Vantrwarinnar, þvi ef vier trydum Gudi

fyrir oss, so sem Born goodum Forelldrum, þa legdum vier oss mest eptir hanns Befalningum, af hvoriu'n ad þessi er ecki hin sijdsta: Leitid fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, Matth. 6. v. 33. Enn, Barn mitt, hvad segir Gud þar strax eptir? Þad, ad þier skuli þa allt Gott til-leggiast. Nu fyrst Gud segir þad skuli so vera, þa stendur þad stødugt, ef þu sialfur hindrar ecki fyrir Gudi, og leitar helst og mest eptir Naudþurft Salarinnar: Ef giorir þu þetta af Alwd, og Ottast Drottinn af Hiarta, trw mier, hann sendir þier Hialp, so i þessari sem allri aññari Naud; þvi aungva tekur hañ undann, þegar hann segir: Akalla þu mig i Neydinni, þa vil eg Bænheyra þig, og þu skallt aptur heidra mig, Ps. 91. v. 15. Hier er þad þo aungvañveiginn med meint, ad þu kasta skulir fra þier allri Christilegri Umhyggiu Lijkamans, þvi þad er og so mooti Guds Bodi; Forsoomun Embættis Verksins, Letinn, Ofrisnadurinn, Bænræktarleysid, og þvilijkt, er þier af Gudi strengilega fyrirbodid, og hvotad þwngu Straffe: Bidia skalltu og Erfida i Otta Drottins, so fær þu Blessan og Braud af Drottni. Minn goodi Gud, eg vil feiginn lijda allt þad sem þu villt a mig leggia, og þier þocknast; þu hialpar alltijd þijnum, þu hefur noog Raad, þijn Miskun bæti allann vorn Brest, og uppfylli vora Naudþurft, sijdann sed þu oss alla, vor Gud, med Fagnadarins Braudi i Dijrdinni fyrir JEsum Christum, Amen.

# 34. Capituli.

Um̃ siaalft Krapta-Verkid sem JEsus giørdi vid Siooin̄ Tiberiadis.

ENN han̄ sagdi til þeirra: Kastid wt Netinu aa HægriSijdu Skipsins, og munud þier fin̄a nockud. Þeir vorpudu wt, og gaatu ei dregid fyrir Fiølda Sakir Fiskan̄a. Þa sagdi saa Lærisvein̄ til Peturs, sem JEsus elskadi: Herran̄ er þad. En̄ þa Simon Petur heyrdi þad ad Jesus væri þad, vafdi han̄ um̃ sig Skirtun̄i, þviad han̄ var naktin̄, og varpadi sier wt aa Siooin̄. En̄ adrir Lærisveinarnir komu aa Skipenu, þviad þeir voru ei laangt fraa Landi, helldur nær tvø Hundrud Alna, og droou Netid med Fiskunum, og er þeir stigu aa Land, saau þeir Ellds-Glædur, og Fisk yfirlagdan̄ og Braud: JEsus sagdi til þeirra: Færid hijngad af þeim Fiskum er þier fengud nu. Simon Petrus stood upp, og droo Netid a Land fullt af stoorum Fiskum, Hundrad Premur og Fimtyge: Og þo þeir væri so margir, þa rifnadi þo ei Netid. Jesus sagdi til þeirra: Komid hier, og snædid. Eingin̄ Lærisveinan̄a þordi ad spyr-

ia hañ: Hvor ert þu? Þvlad þeir vissu ad þad var Herrañ. Þa kom Jesus og took Braudid, gaf þeim þad, og lijka einuñ Fiskiñ. Þetta er nu hid Þridia Siñ sem JEsus opinberadi sig sijnum Læriþveinum eptir þad hañ var uppristiñ af Dauda.

Hlijdni er betri enn Offur, 1. Sam. 15. v. 21. hlijdid Barn elskar Fadirinn; þegar þad þocknast honum i ollu þvi þad kañ, tekur hann Viliañ fyrir Verkid. Eitt hlijdid Guds Barn brestur alldrei Guds Elsku, Guds Hiaalp, Guds Blessan. Læriþveinarnir kostudu wt Netinu til hægri Hlidar Skipsins, eptir JEsu Bodi, og feingu mikla Blessan. Þu kastar þijnu Neti wt, Luc. 5. v. 5. aa hægri Hlid, ef þu lagar allann þinn Verknad eptir Guds Orda Skipun, so ad hvort þu etur edur dreckur, eda hvad þu giorir, þa giorir þu þad i þeim Asetningi, ad Gud hafi Heidurinn, Col. 3. v. 17. Kastir þu wt Bænar Netinu audmiwkur i Trwnni til Guds, og Undirgiefni hanns Vilia, so kiemur hvorugt toomt. Barnid huxar, lijtandi aa Fodursins Elsku, og segir: Þo einginn aumki mig, þaa aumkar þo minn Fadir mig; Þetta er Barnsins Huggun og fast Von; Sama huxar eitt elskandi Guds Barn, og þa huxar JEsus aptur; þetta Barn vill hlijda mier, og treystir mier, þvi maa eg reynast þvi so sem þad ætlar til mijn. So er

þar

þar a eingiñ Vasl, ad Gud elskar þa sem hann elska, og hiaalpar alltijd þeim sem hønum treysta. Hier fiskudu Postularnir; Fiske-Menn Guds eru Ordsins Þienarar; Eg vil wtsenda, segir Drottinn, allmarga Fiski-Menn, þeir skulu veida þa, Jer. 16. v. 16. Þeirra Net er Ordsins edur Gudspiallanna Kieñing, þetta Net hefur Gud laatid, og lætur enn draga i Sioo þessarar Verralldar, hvørt Fiski-Ver þo er og reyniſt nærsta Hættusamt, þviad i soddann Fiski-Roodri hefur margur Guds Þienari laatist, flestir slitist, mædst og taarast, þeir meiga wtstanda marga Harma-Roott, og afla þo stundum faarra Fiska, Luc. 5. v. 5. So synast maa, þeir fari opt slippir til Lands. Þeir vondu Veralldar Fiskar, sem ydugléga svelgia Glæpa-Straum þessa Heims, eru varir, hata Netid, hafna þvi og vilia ecki til Lioosßins, helldur synda aafram̃ i sijnu Ydruriarleysi og Hardyögi, so Guds Þioonar meiga opt klaga og segia med Job: Eg hefi heila Maanudena erfidad til forgiefins, og haft margar Eymdafullar Nætur, Job. 7. v. 3. Þad er þo Handvijst þessum vöndu Fiskum, sem ei laata sier naa i þessu Drottinns Neti allt til Enda, ad þeir faa Sæti aa sijdann vid JEsu Vinstri Hønd, og verda þadann i Elldsins Dyki wtsnaradir; Þvi saa sem hier med Hardwd og Hreckianna Ydni þioonar Dioflinum sijfelldlega, hañ verdur hanns Eigiñdoomur seiña. Samt meiga Guds Þioonar hvørki letiast nie uppgiefast,

þo lijtt vilie tiltakast um̄ Veidiskapinn, helldur Forsoomunarlaust wtkasta Ordsins Neti i Tijma og O-Tijma; Kasti þeir þvi wt til hægri Hlidar, þad er, vandi þeir sitt Verk i Þolinmædi, Hoogværd, Arvekni, Bæn og Andvarpan, Post. G. B. 20. v. 31. Leitandi af Hiarta Guds og Saalnanna Abata, sitt Gagn einkis þar hia aktandi, þa fiska þeir alltijd nockud, alldrei kiemur þa Guds Orda Net tomt aptur; Leitist þeir ecki vid þetta af Alwd nockri, og Hræsnislaust, hvornin̄ kunna þeir þa ad fiska? Hvorninn meiga þeir aan þess hafa gooda Samvitsku? Hvorninn meiga þeir aan þess ætla sier ad deya i Fridi? Fyrst þar skal Saal fyrir Saal, ef illa er med Netid farid, og eintoom Svik vallda. I Saan̄leika er hier ecki ad giora-um̄ Smaa-Muni, hier verdur alla Kapps-Muni aa ad leggia, ef vel skal fara, og tiidka bædi Alvoru og Kiænsku: Gud vægi oss ollum i Jesu Nafni! Viliann hefi eg ad fullkomna, en̄ þad gooda fin̄ eg ecki, segir St. Paall. Eg veit ad sonnu ad allir Utvalldir veidast, Jaa, allir Riett-trwadir; Enn hvornin̄ Hyrdulausum Veldi-Mon̄um vegnar, veit Gud: Sijna Utvallda Fiska og Fiski-Menn færir Gud wr þessum Harma-Sioo um̄ sijdir, Jaa, alla þaa, sem hier af Anda og Ordi Drottinns laata sier stioorna, setur JEsus vid sijna hægri Hond; Hvad gladir munu þeir þa verda, sem hier hafa vel fiskad, og aflad JEsu til Handa margra Saalir! Þa verdur ecki leingr minst

þessa

þessa Heims Voswodar, því JEsus vor þurkar þar þau wthelltu Tarenn hier, med sinni miklu Mysknar-Hond af þeirra Kinnum, þa fagna Fiskarner siinum Veidi-Monnum, og Veidi-Meñerner Fiskunum, eñ JEsus best ollum samann, og tekur so alla þessa i eilijfar Tialld-Bwder. Gott er til þess ad huxa fyrir þa sem hier trwlega erfida, af hvorium ecki meira heimtist. Vegna þess mikla Fiskidrattar, sem Postulunum kom ovorum, sagde Johannes (hver opt sier giefur þess Læriſveins Nafn, sem JEsus hafi elskad, þvi þar hefur Elskañ sialf elskad. Elskandañ, og Elskandiñ alltijd fundid til Elskunnar Elsku) Herrann er þad; Jaa, Herrann er med so ad seigia synilega, þegar stoorar Velgiorder veitast, þegar Offred kiemur, þad er, Huggunenn, Hialpenn, einu Abrahams Barni O-forvarandis, Jaa, a þvi Neidennar Augnabliki sem siist var eptir vonad, þa verdur opt meir graatid af Hiartans Fagnadar Mykendum, enn fyrri af Neydarennar Preyngslum, þa mætir Fadmur Fadmi, taaradur Elsku Fadmur Þiggiandans, miwkum Elsku Fadmi Veitandans, þa sier Madur Guds allt, eñ sitt eckert, þa verda ylmsætir Kossar, og Fagnadar Elsku Fundir, so Mañ veit ecki hvad hañ skal af sier giora: So gieck þad hier og Petri ad hann eyrdi ecki kirr, þegar hañ heyrdi ad JEsus væri þad, mæske varla vitad hvad hañ giordi, helldur eñ hvad hann a Tabor Fialli sagde, af Kiæti og Kiærleikans Ofur-Huga, Matth. 17. v. 4.

v. 4. Jesus syndeog annad Millde-Verk i þvi, ad Petur sock ecki nær hañ fleigdi sier wtbyrdis, helld-ur komst gangandi a Sioonum til Lands. Þegar einlægur Kiærleiki til Guds hradar Mannenum afram, þa ma Klwngrid verda ad Sliettlendi, og Torfæran ad alfærum Veigi, Vænger Guds Elsku og Almættis flytia eirn Guds Vin yfir þad allt samann. Soddañ nær ecki til ogudlegra Vegun-ar-Haalsa Veralldarennar, sem freista Guds og vilia af Forvitne reina hanns Almætti. Hier hiat skalltu þess giæta, Guds Barn, ad dramba ecki af Velgiordum Guds, epter Hætti sumra Manna: Fasthelldni og Ofugleika vid Naudsyn og Bænastad hiña Þurfande brwka þu og alldrei, Matth. 5. v. 42. Og sijst a soddann Tijmum. Petur var hier nakenn: So ser eg og tijdum a Fund þinn, minn goode JEsu, snaudur af ollu Goodu og flettur Fatnade Riettlætisins; Færi eg ad þykiast nockud, edur hallde eg mig nockud klæddann af Meinleysis og Dygdanna Fatnade, þa fara Fot þessi svijvirdelega i þijnu Auglite, þvi skrijd eg orsaatækur Ormur, kalldur og alls nakenn Betlare þier ad Footum; þu eirn midlar mier, Elskann ylmsætasta, ollum Riettlætis Skrwda, Saarenn þijn hilia Saarennmijn, Mijskunenn þijn Meinsemder allar minnar, Jaa, þijn Forþienusta alla mijna Blygdan; hier vid skal eg mig hugga i allri minni Eymd og Orbirgd Saakarennar, med þad er eg noogu rijkur, eg þu Heimur fyrir mier þitt Skart og þitt Rijkdome,

me, enn sia þu þo vel til ad þu farer hvorki snaudur nie Fatlaus af Herbergiнm þijnum seinast, þegar ferdast alfarinn wt hiedann. Net Lærisveinañа var fullt af stoorum Fiskum, Hundrad Premur og Fimtyge, og þo rifnade ei Netid. Pad var ad soñu Furda, eñ þo hefur DRottens Almætti margt fleira og stærra wtriett, hann orkar ollu, hanns Vallde eru aller Hluter undirgiefnir, Madureñ ad eins er hinn versti og ohlijdnasti, sem ecki vill læta sier seigiast af soddann Almættis Verkum, hvorki ad ottast Gud, trwa honum nie elska hann. Slijkt er ein stoor Hormung: Enn, Barn Guds, þu sem mætt sia vidlijkt optlega, Jæ, þu hvors Net ad Gud fyllir opt med Blessan, og giefur Lucku og Framgaung i þvi og þvi Verki og Aformi, stunda þu þar fyrir ad audgast æ meir og meir af Guds Otta, og læt DRottenn sæ dreigid þitt Hiarta ad þvi fasta Landi i Himininn, fullt Elsku til hanns og ydugliegs Packlætis; So snijst þier oll Tijmannleg Blessan i eilijfa Blessan; Enn hinum Vondu, sem vestnandi fara vid slijkt, i wtteкinn Laun þessa Heims. Fræ hvoriu Gud oss vardveiti i JEsu Nafni! Loksins mettadi JEsus sijna hwngrada Lærisveina; so mettar og Milldenn DRottenns oss enn sijn Born. Lærisveinarner settu fyrir hañ adur Sticki af steiktum Fiski og Hunangs Seim, þad borgar hañ þeim nu aptur twofolldu; Gott er honum ad læna, hann er sæ ohættasti Skulldu-Nautur (ef mier leifdist so ad kalla hann) hann lætur eck-

eckert Myſkunar Verk o-lavnad, og ei kalldan Svala-Dryck i Lærisveins Nafni, Matth. 10. v. 42. Nu ſedur hann þig og mig Liijkamlega, þad þockum hanns Naad, og forum liijka ſo vel med Molana, þvi eirn Moli er liijka ſo. Guds Garfa ſem annad meira, og hann ſem riijr er hia ſumum i Nægtunni, verdur opt dyri Hwngurs Tijdini. JEſu Hond ſedur oſs og andlega nu i Naadenne, med Sælgiætis Riettum ſijns Himna-Brauds, Ordenu og Sacramentunum, Huggun Sælareñar og ſleyru ſlijku, uppfyllandi ſitt Tilbod hia Eſaiam, hvar hañ bijdur þyrſtum, mædþum og Peningalauſum okeipis Vijn og Miolk Eſ. 55. v. 1. Gud giæfi, ad aungvañ velgdi af Drottiñs Bods Moñum vid ſlijkum Kræſingum! Enn framar mun JEſus alla ſijna ſedia, gledia, og i eilijfum Fognude endurnæra, epter lidenn Lijfs-Hrakning þennañ i Himneſkri Dijrdar-Viſt. Eya værum vier þar! Þar munum vier fullfrooder i þeirri eilijfu Speki; fullkomlega þeckia og ſiaa vorn JEſum Augliti til Auglitis, og þar af eilijfann Sadning og Svolun hliota, med ollum Utvolldum; hvad oſs veiti Guds Naad fyrir JEſum Chriſtum, Amen.

## 35. Capituli.

### Um Samtal Chriſti vid Petur.

Þa þeir hofdu nu Snædt, ſeigir JEſus til Simonar Peturs: Simon Jona, ELSKAR ÞU MIG

meir eñ þesser? Hañ seigir hõnum: Jaa, HErra, Þu Veitst Ad Eg Elska Þig. Hañ seigir þa til hañs: Fæd Þu Lomb Mijn. Eñ seigir hañ aptur i Aññad Siñ til hañs: Simon Jona, ELSKAR ÞU MIG? Jaa: HErra, Þu Veitst Eg Elska Þig. Hañ seigir til hañs: Fæd Þu Saude Mijna. Hañ seigir eñ aptur i Þridia Siñ til hañs: Simon Jona, ELSKAR ÞU MIG? Þa Hrygdist Petur vid, þvi hañ sagde i Þridia Siñ til hañs: ELSKAR ÞU MIG. Og hañ sagde til hañs; HErra, Þu Veitst Alla Hlute, Þu Veitst Ad Eg Elska Þig. JEsus sagde til hañs: Al Þu Saude Mijna.

ÞEtta Vigtuga Samtal faaum vid gior ad skoda, mijn Saal, sem fullt er af Lærdoomum. DRotteñ spyr Petur hier fyrst, hvort hañ Elske sig meir eñ þesser? Vel visse Jesus, hvorneñ hattad var Elsku hañs til sijn, þvi hañ veit allt hvad med oss er, og þecker allra Hiortu, Jer. 17. v. 10. enn af þvi Petur syndi sig odrum Lærisveinunum nockud diarfari og Dirfsku-meire i Orde og Andsvorum vid DRottenn aa Leidenne wt af Jerusalem til Oliu Fiallsins fyrrum, seigiande; Þo aller hne

ixle sig ad þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast, Matth. 26. v. 33. þar fyrir man siinast, ad HErrann hafi viliad so mikid meina med þessari fyrstu Spurninau, sem nockud Fiölordare er enn hinar Seirni; hvad hefur þier nu framfarid i Audmijktene, siidan þu hiellst þig Sterkari þessum, hefur þu nu reint og lært hvad þad gillder ad metnast, þykiast vel standa, og treista Ofmiog uppa sialfann sig? Petur nu lijtelæckadur i Hiartanu svarar, Ja HErra; hann seigir ecki: Ja, Eg Elska Þig, þvi þad var nockur diarfleg Jatning fyrir þann sem stoorlega hafdi syndgad og JEsum Affvarid, helldur seigir hann: Ja, HErra, Þu veitst ad eg Elska þig; Joh. 21. v. 15. Hann jatar þvi ecki ad hann elski JEsum meir enn þesser, þad þorer hañ nu ecki ad seigia, þo hann hefi annars mætt segia; Ad Eg Elski þig ei siidur enn þesser, þad mætter þu sia minn HErra, a þvi ad eg eyrdi ecki, nær eg v sse þu varst kominn, helldur fleigdi mier Utbyrdis, so eg kiæmist sem fyrst til þijn, eñ hinir adrer lietu Skiped bera sig til þijn; Eñ Petur þeigir um̃ þetta, og seigir: þu veitst; sem villdi hañ seigia: Þu HErra þeckir betur eñ eg sialfur hvorsu riettilega eg Elska þig. O hvad undarlega, enn þo yfrid dasamlega hagar Gud sier vid Manneskiuna? Hann giorer stundum eitt Framande Verk, til þess hann framkomi þvi betur siinu eigenlegu Verki; Vid Petur sagde JEsus fyrri: Andskoteñ hefur girnst ad sigta ydur sem Hveiti; Ja hann vill alla for-

diarfa, enn eirna mest setur hann sig wt til þess vid þad, sem mestann Hug leggia vilia ad þioona Gude, og honum eru eitt fyrir sig hvad Handgeingnaster, hvorium og Gud veitir opt mikid, og ser hañ þa ecke Vlijka og þeir, er misunna einum Yfir Manni Elsku og Daalætis, og vilia þvi af Ofund forrada hann; Komi Dioflullinn þvi ecki odruvijsi heim, þa sendir hann þessum Þijlu Hofmoodsins og Hiartans Stærilætis, þa hrædilegustu og skadsomustu Andstigd i Guds Auglite, er fordiarfar øll Goodverk og giorir þau vidurstiggileg, sem þo annars mætti vera þægileg; So ef sw Synd skal ecki giora fullann Adskilnad millum Guds og Manneskiunnar, ma Gud stundum lecka þa, annadhvort med þwngum Krosse, særre Freistingu, edur miñilegu Falli, so Þvijngunenn giefi Skilningenn: Es. 26. v. 16. Cap. 28. v. 26. Saur reid JEsus a mijn Augu, sagde sa sem JEsus giordi af blindum sioandi; Vid þetta fieck hann Sionena, og hier lærde Petur Audmýkt og Varud af Nidurlægingunni. Allt giorer JEsus vel; Vel giorer hañ, þegar hann lætur Lioos verda af Myrkre, og af Helvijti Eitt Himna-Rijki. So voru nu St. Peturs Ord hier sannlega Teikn Hooglætis, breñande Kiærleika og sañrar Trwar, hvor hann i heilar Þriar Reisur frambar, moot JEsu Þrefallda Spurs-Maale, Jafnvel þo Petur (ecke Ominnugur siins hryggilega Falls) angradist vid þad Sijdarsta; Ad hvorri hanns Heil-Hiartadri

Jaatning giordre, JEsus stadfesti hann i þvi Kiennimannlega Embætti, og minnst ecki þarns und-annfarenar Syndar; þvi hvor sijna Synd af Hiarta sÿrgir, fraa henni vijkur, og forlætur sig uppaa JEsum, honum verdur hun ecki framar tilreiknud, Ezech. 18. v. 21. 22. blessadur JEsu Blods Kraptur byrger hana, so hun er alldungis af Guds Reiknings Book wtskafinn; Enn hvad giorer þa Heimurenn, þegar hann bryxlar Sanndrandi Monnum um Brot sijn, og vill ecki annad enn þau skule til Æfinnlegrar Minningar uppteiknast? Sannlega giorir hann þa eitt Diofuls Verk: Neini þeir somu hvad þetta er: Med þeim sama Mæle sem þier mælid wt, skal ydur Jnnmællt verda, Luc. 6. v. 38. og Otal fleyra hier ad lwtandi, þo nu sie ad litlu haft, hiaa þeim sem einasta haga sier eptir þeim Ordum sem framgaanga af þeirra eiginn Munni. Hvoriu mundeer þu nu vilia svara, mijn Saal, ef þu værer adspurd, hvort þu elskader JEsum riettilega? Þad er Vandasom Spurning fyrir þig, sem morgum Syndum ert hladinn, þier mun sijnast nærst adgraata og þagna, þvi þad verdur i so-faau sem aungvu bevijsad, þo vid villdum seigia Jaa, enn hitt kann þier einginn meina, ad mæna Hiartanu til DRottins, hann vægir, og veit Viliann hvor sie. Jaa, HErra JEsu, eg vil elska þig, eg vil lijda þad þu villt aaleggia, Job. 14. v. 14. Eg vil elska þig einlæglega og stadfastlega, ecki ad eins i Orde, helldur i Verki og Sannleika; Enn þad maa

aung-

aangra mig saart, ad þetta vill ecki verkast sem skyll-di. Þad er vijst ad allmargir Elska þig betur enn eg, og vil eg i aungvann Maata þeim þess misuña, helldur Oska Hiartannlega, ad þad giæti hvør einn giort sem best og heitast; Eñ bid audmiwkur, ad þijn Giædska forlaati mier aumum mitt Elskuleysi, þvi þeirri Skulld giet eg ecki lokid þier, O JEsu, sem eg villdi og skylldi, þvi velldur Lijkami þessa Dauda, hvørn eg villdi (þo so sem þu villt) meiga sem fyrst afleggia, Rom. 7. v. 24. Þar er eingiñ Vita-Skulld auglioosari eñ þessi; þvi hvad maa heita skylldara, enn hafa þañ ollum Hlutum kiærari, sem bædi giefur allt Gott, hefur giefid, og vill giefa, og er sia ædsti Goodi; Og so sem JEsus sagdi til Martham: Sagdi eg þier ecki, ad ef þu trydir, þa mundir þu siaa Guds Dijrd, Joh. 11. v. 40. So er þar og eckert Verk so Abatasamt sem þetta Verk, þad avinnur lijkamleg andleg og eilijf Giædi, og Hiartanu inndælasta Eptirlæti. Auk þessa hefur JEsus elskad oss fyrri, hann elskadi ad Upphafi, hann elskar nu i Tijmanum, hann elskar oss i Daudanum; Elskann JEsu til vor droo hañ Ofañ af Himnum hijngad a Jordina; Af Elskuñi til vor framkomu oll hañs Ord og Ver ; Elskann þreyngdi honum til ad lijda allskonar Kvalir, Haadungar og Daudann. So a nu þaa þessi Ylmsæta Elskann JEsus af oss aptur i moot ad elskast alla Tijma, ollum Hlutum framar, og af ollum Kroptum, 2. Cor. 5. v. 14. Hvor honum

ſlijkrar Elſku ſyniar, ad þvi Leiti ſem mogulegt er, hañ tilbyrgir fyrir ſiælfum ſier Brunn hañs Aſt-ar, og giorir ſig hennar Overdugañ; Jaa, ſaa ſem JEſum ecki elſkar, hann er Bolvaninni Undirorp-inn, og þeirri ſtraungu Guds Riettlætis Neidt ſem breñur til hinns nedſta Helvijtis, 1. Cor. 16. v. 22. Enn þu kannt, Chriſtiñ Madur, ad ræda þad nockud af Hogum þijnum, hvilijka Elſku þu ha-fir til Jeſum: Af Elſku þinni til Naungans ſier þu þad fyrſt, og þinni Vidhondlan vid hann; Elſkir þu ecki lifandi Limi þijns HErra, og ſynir þu þeim ecki Myſkun og Medaumkan, nær þu ſier þaa i nockru naumſtadda, og þad af Einlægd Hiartans, ſo elſkar þu ecki helldur JEſum, enn elſkir þu þann ecki, ſo ertu og ecki hanns Barn, 1. Joh. 4. v. 20. ertu ecki hanns Barn, ſo ert þu Dioſulſins Barn. Joh. 8. v. 39. 44. Þar næſt, ef þu elſkar Holld-ſins Girndir, og vonda Veralldar Hættſemi, ſem JEſum hrella, ſo hatar þu Jeſum, hatir þu hann, ſo hatar þu Lijfid og Sæluhiælpina, enn elſkar Daudann og Fyrerdæminguna. Ef þad er ſatt þu elſkir JEſum, ſo elſkar þu hañs Bod, Joh. 14. v. 13. og ſierhvad ſem honum er kiært, og hon-um tilheyrir, og fær þu þa hanns Elſku hier og ſijdar eilijflega.

Ad heyrdri Þrefalldri Jaatningu Peturs um JEſu Elſku, bijfaladi JEſus honum ad fæda Lomb ſijn og Saudi i heilar þriaar Reyſur. Þu ſier þar af, hvad Hiartgroona Elſku og Umhyggiu ad

JEſus

JEsus hafi til sijna Sauda; Hañ hefur keypt þær dijrt, hañ vill og læta vanda þeirra Umhyggiu, dijrindis Peningar eru JEsu Blood-Dropar, og dijrar eru Sœlirnar þar med keyptar, 1. Pet. 1. v. 19. so betra er Lijfid ad missa, enn Lijfeinnrar Sœlar fyrir Hyrdulausa Voktun farist. Med Lærdoomi, Lijfi og Lifnadi Gudlegum mæ endilega foodra Christi Hiord, og þad med soddann Elsku, sem hærra stijgi enn sijns, sinna, og siælfs sijns Elska: Þwongt þykir Holldinu þetta Erfidi, eñ þo skylldi þess giæta, ad meiri eru Launiñ a Himnum; Þessi Hrygd og Piœning aflar Coronu, 2. Tim. 4. v. 28.

Herra JEsu, þu ert sæ Goodi Hyrdir, sem sedur oss hwngrada med Lijfsins Braudi, þu tekur þijn Lomb æ þinn Arm, ber þau i þinni Kiølltu, og leidir Lamba-Mædurnar, Es. 40. v. 11. Þu leitar þeirra glotudu Sauda, leidir þæ aptur sem villast, grædir þæ lemstrudu, giætir þeirra Vansæru, geimir þæ sem velfærir eru, Ezech 34. v. 11. og hefur hina bestu Umhyggiu fyrir þeim, hvar wti þijnir Undir-Hyrdarar eiga þier ad lijkiast; Hvar til þu send þeim þinn H. Anda!

Eg er, O JEsu miñ Hyrdir, einn þinn Saudur, hrumur, vesæll og hælfdaudur, siæ þu aumur æ mier, vægdu og vertu minn Stirkur, leid þu mig villtann æ þann rietta Veiginn, hallt mier æ þeirri Braut allt til Enda, og leid sijdañ i þitt eilijfa Sauda-Hws, og øll þijn Born, Amen.

# 36. Capituli.

Um̃ Bodan St. Peturs Pijslar-Wættis, og Vi falning JEsu ad Petur filgdi honum eptir.

SAnnlega, Sañlega segi eg þier, þa þu varst ungur, gyrdtir þu siaalfur þig, og gieckst hvert þu villdir, eñ þa þu elldist, muntu þijnar Hendur wtbreida, og aññar mun þa gyrda þig, og þann gad leida sem þu villt ei. Eñ þetta sagdi hañ, teiknandi med hvørium Dauda hañ skylldi Gud dyrka. Og þa hañ hafdi þetta sagt, segir hañ til hans: FILG ÞU MJER EPTJR.

SO sem ad Sioorinn er ecki aan Bylgna, so er og Christinns Mañs Lijf ecki aan Mootlætinga. Og sa sem ecki er Kross-Barn, hañ er ecki Christs Barn. Fyrir utann þad, ad þessi alkunna Guds Orda Regla nær til allra sann-Christenna, ad fyrir margar Hormungar byrie oss inn ad gaanga i Guds Rijki, Act. 14. v. 22. Þa er þad þo ecki sydst Hlutskipti Christi Sendiboda, hvorier af honum wtsendast, so sem Lømb aa medal Varga, Matth. 10. v. 16. Og sumir meiga taka til Þacka Utlegd, Fiotur og Faangelsi, lijka stundum Daudann, verda af morgum hatadir, sæ opt ad lijda Bølvan og Brygsl-Yrdi, Matth 5. v. 11.

Slijkt wtvijsar Eptirdæmi St. Peturs, um̃ hvør

hvors Afdrif Lausnarinñ hier spaair, og honum fyrir segir aa hanns Alldurdooms Tijd, so sem og Historiu Skrifarar Christilegrar Kyrkiu vitna, ad vid hann framkomid hafi aa Attrædis Alldri (edur so sem sumir skrifa aa hanns 72. Alldurs Ari, Embættisins 37. Christi 70. Neronis Keysara Rijkis Stioornar 14.) Og ad hann hafi þa i Rom undir Keysara Nerone (þeim Ogudlega Tijranna) Krossfestur verid med soddann Mooti, ad Fætur hanns hafi horst upp, enn Høfud nidur. So hefur nu Gud talid Stundir, Daga, Mæanudi og Ar vor, hann skickar oss einum þetta, odrum hitt til Handa. Hañs Fodurlegri Forsioon sie þad allt befalad. Þegar þu varst ungur, gyrdtir þu siaalfur þig, og gieckst hvort þu villdir; Segir Jesus til Petur. I Ungdæminu geingur þad so til, ad Giaalijfi og Glaumur er noogur, þa er faatt fyrir sier virdt ad fremia, sem Holldid vill hafa og Heimurinn rædur, þess meiga Stundum hin Efri Arinñ kieña; Hlaatur Æskuñar velldur opt Taarum Elliñar: Þess er þa ecki giætt hvad eptir muni koma; Þeir oss þa heillt raada, meiga eiga siin Raad siaalfir, þeir horfa, segir Job, aa þann Vegmn til Thema, og hyggia ad þeim Ferli til Rijkis Arabia, enn þeir munu skamast siin um siidir, Job. 6. v. 19. 20. þegar þaa velgir vid þeim fyrri Kræsingunum, og verda Daudsiwkir af þvi sem þeir hafa aadur etid, Ps. 107. v. 18. Soddann maa eg einninn sanna i Sañleika; þvi eg medkieñi audmiwklega fyrir þier,

miñ Gud, ad eg hefi i Æskunni farid stoorlega Afskeidis, og vafid mig morgum Syndum, Saurgun, Ranglæti og Svijvirdingum, sem þa eptir Holldsins Giedþeckni og Vilia hofdu Yfir-Raadinn; Soddann Feril maa nu Hugurinn opt harmandi rekia, og neyta nidursaadra Verka, so nog er Orsøk ad bidia þig, Fadir Myskunsemdanna, ad fyrirgiefa mier Synder mijns Ungdooms, og refsa mier ecki i þinni Reidi, Ps. 38. v. 1. Og ei laata adra giallda miña Glæpa, þvi eg vil nu af Hiarta ydrast og giora sañá Yfirboot, i sonnu Trwar Tilliti til þiñar Naadar, og Forþienustu Betalings þijns Sonar, mijns Endurlausnara JEsu Christi, og þacka þier, so Hugarlaatlega sem eg megna, ad þijn Myskun hefur so geingid i Berg vid mig Syndugañ alltijd, ad eg er ecki upprættur Illur og Avaxtarlaus Fauskur med Oxi þinnar Reidi, eptir Maklegleikum, helldur lidinn af Nægd Þolinmædinnar, vegna Frelsarans JEsu Fyrirboonar. Framar virdstu minn Gud og DRottinn, af Nægd Naadar þinnar, ad giefa mier nu hier eptir hlijdid Hiarta, sem bundid sie fastlega vid þijn Blessud Bodord og Vilia, og nær sem eg fell edur rasa, þa vef þu uñ mig, O JEsu, i mijnu saara Synda-Standi, liooman di Linda þijns Riettlætis, so eg Hugsvalest, og Diofullinn faai mig alldrei hiedann af fraa þier dregid eptir sinni Villd, med nockru Orvæntingar-Helsi, edur fest i nockrum Flærdar-Moskvum; Stattu alltijd hiaa mier, þu sem ert mitt

mitt einka Hiartans Traust og Hlutskipti, Ps. 73. v. 26. So vil eg med þier gaanga þaangad sem þu villt leida mig, hvort helldur saa Vegur liggur til Tabor edur Golgatha, Lijfs edur Dauda; þvi siert þu hiaa mier, so verd eg i aungvu skamadur, helldur lijtur þa allt mier til Hiaalpræðis, so verdur þu þa og einninn siaalfur heidradur aa mijnum Lijkama, hvort þad skiedur fyrir Lijf edur Dauda, Post. G. 20 v. 24. Cap. 21. v. 13. Og nær þad geingur so, geingur allt ad Oskum.

Þa Lausnarinn hafdi fyrirsagt St. Petri sitt Pijslarvætti, befaladi hañ honum ad fylgia sier eptir. Soddañ Bodord vors HErra, er stoor Þorf hvor vor athugi i sierhvorri Stiett og Kallan; Hvor sem ferdast vill torsooktann og Hættusamann Veg, hann votvelur sier giarnann Leidtoga, þann honum sie Ohætt eptir ad fylgia, og rata kuñi þa bestu Leid. Þegar Tobias Yngre sagdist Okunnur Leid þeirri er hann aatti ad fara, sagdi Fadirinn: Leita þier ad truum Fylgiara, Tob. 5. v. 4. Aungvañ Leidtoga finnum vier jafngoodañ, sem Jesum Christum, hvor honum eptirfylgir, geingur ei i Myrkrunum, helldur hefur hañ Lioos eilijfs Lijfs, Joh. 8. v. 12. Fyrst skulu allir Ordsins Þienarar fylgia JEsu eptir med hreinni Kieñingu hanns Orda, og breita sem Guds Andi giefur Raad til, fyrir Munn St. Pauls, segiandi: Predika Ordid, hallt ad, hvort þad skiedur i haglegann Tijma edur ohaglegann, straffa, Ogna og aaminn, med allri Þolinmædt

mædi og Kienningu, 2. Tim. 4. v. 2. Og vefie sig ecki i ofmikilli Sÿslan þessarar Lijfs-Næringar; ad þeir misþocknist þeim ecki, sem þaa hefur kallad til Strijdsins, 2. Tim. 2. v. 4. Hafi þeir nu Gaat aa sialfum sier og Lærdoominum, munu þeir sialfa sig hiaalplega giora, og þaa sem þeim heyra, 2. Tim. 4. v. 16. Þar næst skulu Ordsins Tilheyrendur, Kostgiæfa Ordsins Heyrn, medtaka þad med Hogværi, og filgia þvi sijdan eptir, so sem þvi Liosi sem skijn i myrkvum Stad, þar til Dagurinn uppremur og Morgun-Stiarnann byrtist i Hiortunum, 2. Pet. 1. v. 19. So filgia þessir Christo eptir, þvi hvor Trwlyndum Ordsins Þienurum heyrir, han heyrir Christo; En þeir, hvorier ei heyra nie filgia Ordinu, eru ecki i Før med Christo. Slijks giæti eirs saa ædsti sem saa lægsti Ordsins Tilheyrari, er annars vill ad Ordid verdi fier Ilmur Lijffins til Lijffins, 2. Cor. 2. v. 16. I Lifnadi og Framferdi skal og sierhvor sa, sem ei vill laata sier nægia ad hafa ad eins Yfir-Lit Gudlegs Nafns, fylgia eptir Dygda-Footsporum Lausnarans JEsu, stundandi Hoogværd, Trw, Elsku, Hreinlijfi, Myskunsemi, Riettvijsi, Hlijdni, Polinmædi, Litilæti, Sparsemi og Heilagleik: I þessu og øllu ødru Goodu hefur Jesus undann oss geingid, og slijkt eru Andans Avextir, er auglijsa sig aa hanns sonnum Eptirfylgiurum, med Kostgiæfilegri Uppbyrian hier i Naadinni, so þeir verdi i Tolu þeirra skijnandi Meya, sem honum eptirfylgia i Dijrdinni

Matth. 25. v. 10. Sea vondi Willu og Lygennar Ande Diofullenn, bijdst hier til Leidsagnar, og lofar stoorum Hoppum og Heilendum, seigiande: Allt þetta vil eg giefa þier, ef þu framfellur og tilbidur mig, Matth. 4. v. 9. Enn hvort mun hañ vijsa sijnum Eptirfilgiurum er ei i Tijma aptur snwa? Andsvar: Þanged sem hann a heima, i Helvijti og Kvalernar. Lær þu þar fyrir, Christenn Saala, ad slaa alltijd fraa þier þennañ bölvada Hoggorm, sem ecki ea Rad eins Vatns-Dropa, hvörki fyrir sig nie sijna. Luc. 16. v. 24. Hanns Hoorа Heimurinn, fullur Flærda og Sviksemi, vill ad þu skuler eitneñ stunda sitt Gied, og seigir nu brosande, nu bölvande: Fylg Þu Mier Epter. Eñ, O Guds Barn, vara þig vid henni, acktadu hvörki hennar Klapp nie Kloor, halla þier alltijd ad þijnum sæta JEsu; i ollu þvi þu adhefst: Fylg Honum Epter, Joh. 21. v. 10. Ad soñu syneſt Holldenu þad ordug Sorgar Leid, ad feta hier epter JEsu, beyst synest hun i Uppbyriunenne, eñ hun sætnar ætijd meir og meir i Framkvæmdenne, allra sætust verdur hun i Fullkomnaneñe; Þetta er þo saa Eini Lijfsins og Saaluhiaalparennar Vegur, Ad Fylgia JEsu epter, hvört þad skal hier vera til Lijfs edur Dauda; þar lendir þad þo vid; Aññar Vegur giefst eingiñ til Himnarijkis, Joh. 14. v. 6. Hvör fraa honum snijr, fellur i eilijfa Fyrirdæming: Hvörnenn sem þessi Eymda-Vegur vill falla, er Brautinn greyd, edr er hun Torvelld, þad er þo allt gott, nær JEsus

er i Ferdinne, þa kann hvorki Medlæti nie Mootlæti ad skada. Rom. 8. v. 24. Enn med þvi ad bædi Guds Ord og Reynslann kiennir, ad fair af Guds Vinum gaangi hier aa Roosum, heldur fleyri af þeim hafa maatt feta þraungvann og Þyrnum vaxinn Veg, þa skal mier, minn JEsu, lynda hann eirninn eptir þinni Villd, eg er þo ecki Einn aa þessum Veigi, þar eru og margir af þijnum Astvinum, sem hroosa sier af Hormungunum, 2. Cor. 12. v. 9. Enn þu ert med oss øllum, þvi skal eg medtaka þinn Sorgar-Bikar, þier eptirfilgia, og yfir sierhvørri Sorgar-Skaal i þijnu Nafni seigia: Eg em þess Fullørruggur, ad hvørki Daude nie Lijf, Engell nie Hofdingia-Stietter edur Magt; Eigi hid naalæga nie hid Okomna, Hæd, Dypt, nie nockur ønnur Skiepna, fær mig skilid fraa þeim Kiærleika Guds, sem er i mijnum JEsu Christo, Rom. 8. v. 38. 39. AMEN

## 37. Capituli.

Umm Forvitni St. Peturs og Eptirgrenslan umm JEsu Johannis.

Þa sneri Petur sier vid, og leit hann Lærisvein eptirfylgianda, sem Jesus elskadi, sa er og umm Kvølldmaaltijdena hafdi aa hanns Briosti leigid og sagt: Herra hvør er sa er þig mun forraada? Þa Petur leit þennann, seigir hann til JEsu: HErra, hvad skal þa

þessi?

þesse? JEsus sagdi til hañs; Ef eg vil hañ bliisi til þess ad eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier eptir. Þa gieck su Ord-Ræda wt a medal Brædrana: Þesse Lærisveirn deyr eigi. Og JEsus sagdi eigi til hañs: Hañ deyr eigi, helldur, ef eg vil hañ bliisi til þess eg kiem, hvad kiemur þ..d vid þig? Þessi er sa Lærisveirn, sem um þessa Hluti ber Vitni, og þetta skrifadi, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

ÞAd besta Hlutskipti, sem Madur kann ad æskia sier og ødlast, er Roo og Hviild, þvi nær hann hefur þad feingid er hañ ánægdur. Med aungvañ Jardneskann Hlut kañ Saalenn Mañsins ánægjd ad vera: Þa er hvor Hlutur til Frids, ef hann hefur þad og sær, sem best á vid hanns Natturu-Far. Saalenn er odaudleg og oforgeingileg, þvi kann hun alldrei ad nægiast med neina Forgeingilega Hluti sem eckert eru añad enn fallvollt Svik og Hiegoomi, henni ánægir eckert nema Gud alleina, nær hun hviilir á þvi blessada Moodur-Briooste siins Uñusta JEsu, hefur hun ødlast þa riettu Roo og Hviild, þar epter langar hana, añarstadar hefur hun eckert Yndi, þa er hun ordinn eirn andlegur Johannes, um hvorn hier seigist, ad hann leigid hafi a JEsu Briioste. O hid gledilegasta Eptirlæti! O

þa.

þa roosomustu Ununar Hvijld! Sem i Sannleika mà kallast verid hafi Forsmeckur Eilijfs Lijfs. Þar hefur þeim Guds Win ei þookt laungsom Tijdenn; um̃ þañ sama Stad hafdi hañ Orsok ad seigia; Herra hier er oss gott ad vera. Eñ mijn Saal, hygg þu ad, þig hefur JEsus eirniñ lagt a sitt Brioost. So opt sem þu ängrud i ymsu Mootlæti og Synda Sorgum, odlast hefur Huggun og Hugsvolun af þijnum Jesu, so opt hefr hañ lagt þig a sitt Brioost, so sem ein Moodir sitt harmandi og siwkt Barn, Jaa, hann hefur lagt sitt Hiarta vid þitt Hiarta, hvar fyrir þu maatt med Sanni seigiast ad vera sa Læriswein, sem JEsus hafi elskad. J þvi hawerduga Kvolldmaaltijdareñar Sacramento, maa þad og med ollum Rietti seigiast, ad JEsus legge oss aa sitt Brioost, þvi þar sedur hann hungradar Saaler vorar med þeirri Himnesku Wellystingu, þar dryckiar hann oss med Lijffins Watni; hvor hier af riettrwadur neytir, lifer eilijflega. Þar sem nu, mijn Saal, ad Jesus sedur þig med þessu Odaudleikans Giestabodi, og hugsvalar þier med so margri Huggun, og veitir þier allskonar Astwdlegt Eptirlæti, hvar med hann þig vissa giorir um̃ sijna eilijfa Naalægd, Jaa, lætur þig hvijla a sijnu Brioosti, þa hefur þu odlast þad Gooda Hlutskipti, og þa Arfleifd sem eiginn Werralldar Metord, Audur nie Agiæti er vidjafnande; Laat þier þar med nægiast, þad mun og ecki fraa þier takast. Hver nu i þessum Fadmi hvijlir, hañ byggir i oruggu

Sloti

Slote, i hvoriu hann vardveittur verdur til eilijfs Lijfs; þessi JEsu Hond glatar aungvu sijnu, hvar hann er, þar verda hanns Þioonar eirninn, þessu hefur hann lofad, þad brigdar hañ ecki. Sem Petur sa nu þennañ Lærisvein eptirfylgiandi, seigir hañ til JEsu; Hvad skal þessi? Edur, hvad a hann ad lijda fyrir þijns Nafns Sakir, a hann ecki ad dyrka þig med sama Dauddaga og eg? Mier einum seigir þu þetta fyrir, ad eg skuli mijnar Hendur utbreida, edur krossfestur verda: A hann þa ecker Pijslarvætti ad lijda? Þessi Forvitnis Synd, sem mioog er almenn i Heimenum, hefur og lijka komid i Veg fyrir þañ sanngudhræddu Astvini DRottins, þvi hier er aungvañ so heilagañ ad fiña i þessari Verolldu, ad ecki hafi hrasad a einhvorn Hatt, hier hefur einginn einungis Madur Syndlaust afkomist, þvi þeir eru aller fraviktner, og aller hafa Skort a þeirri Hroosan sem gylldir fyrir Gudi; Þeir bestu Menn hafa stundum hrædilega fallid, sem Skriftenn vottar, so hier sem annarstadar, og þvi er nu allur Heimuriñ vid Gud sakadur, og ei gylldir nockrum sier ad hroosa, þvi aller vier hofum ærid mikid til Guds Reidi og Refsingar unnid; Eñ hafi nu þau sterku Maattar-Trien skolfid so hært, hvors mun þa riwkande Reyr meiga sier vænta, edur þad blaktande Fis, og Kraptalausa Reir-Strá? Ja, fari so uñ þau grænu Trie, hvad mun þa skie þau þurru? Þvi ber oss mesta Naudsyn til ad verka vorg Saaluhiaalp

 med

med Ugg og Otta, og kasta frá oss þvi skielfilega Athugaleysi, og þad þvi helldur sem siaum og vitum, ad Tijmarner eru nu Hættusamari. Nu med þvi ad Forvitnennar Synder þad Eitur, sem mørgum syniſt nu lijtid skada, þo brwkad sie, enn er þo a margañ Hatt nærsta skadsamlegt, þa straffar Herrañ þad hier eirniñ a Petri, bysalandi honum ad fylgia sier epter, eñ hvad um Johañem verda skuli, varði hañ eckert. Þvi skylldi sierhvorlæra, ad hnijsa ecki ofsmaismuglega i Guds Heimuglegt Raad og Leynda Dooma, sem oss eru of-hæser og oransakannlegir. Komir þu of-nærri þvi leiptranda Liooſi hinnar eilijfu Guds Speki, mætt þu giæta þijn, ad ei brennir þu siaalfann þig, þvi hvor hæfa Hluti ransakar, honum verdur þad of-þwngt, (Rom. 11. v. 33. ber samañ Es. 40. v. 13.) Þad er ei vid vort Hæfi ad hallda i Haf hinna stooru Drottins Leyndardooma, oss mæ þar maklega Sundid bresta, þvi hvad er þad ad vilia stundum upp i Himiniñ klifrast, eñ stundum nidur til Helvijtis, og hyggia sier ad ransaka, hvad Gudi hafi til þess og þess geingid? añad eñ afla sier Ohamingiu og verda jafnvel ad Puss og Gudlastara. O Madur, hvad ert þu? Þeckir þu ecki siaalfañ þig? Þu ert eirn aumur brothættur Leyr; Þvi villtu þa troda þier hærra eñ þiñ Smidur hefur leyft þier, hvar fyrir villt þu þrætta vid hiñ Almættuga, edur seiger nockud Efnid til Smidsins, hvar fyrir giordir þu mig so? Soddañ Ofdyrsd hefur alldrei good-

añ

ann Enda. Þar fyrir, mijn Saal, hvad Gud hefur þier bodid, þad tak þu þier jafnañ til, og vertu sem hlijdid Barn, vitandi ad hvad sem þinn Herra lætur vid þig frañkoma og þier hlotnast, þad verdur þier allt fyrir goodu, þvi hañ sem vill þier allt vel, hann sier best fyrir þijnu Raadi; ef virdist þier ad þitt Hlutskipti sie rijngara enn sumra añara, til hvorra þu i eitt Sinn og añad Augum reñir, þa misunn þo aungvum sins Laans og Lucku, a hvorri þo kann meiga finna einhvoria Hrucku; þvi ad hlioota og nioota fer ecki alltijd samann, og hvad miog sem eitt Smaa-Menni vill illa af berast vegna sijns litla Vaxtar, þa lendir þad vid sama, nema ad plaaga sialfañ sig. Laat þier þvi, O Madr, lynda þijns Guds Nidur-Radan: skipe hañ þier i eitt Sorgar-Sæte, so kañ hañ þo og vill giora Vijn af Vatne, og giefa þreittum Krapt, og noogañ Styrk þeim Vanmaattuga, Esa. 40. v. 29. Þvi þar gieta og ecke aller i einum og hinum sama Sesse seted, Þeim eina Josephs Kirtle, kuña ei aller hier ad klædast; hitt nægir, ad allir froomir Guds Viner munu, fyrir Hörmungar Sess og Sorgar Klædi hier borinn, faa Dijrdar Sess og fagrañ Gledi Skrwda i þvi eilijfa Lambsins Brwdkaupi. Auk þessa siaum vier hier, ad naalega verdi eckert so vel talad nie giort, ad þvi verdi ecki snwid aa annann Veg, eñ meint og talad er, og sialldañ a betra; Hier voru HErrans Ord afbokud af sialfum Lærisveinunum; og hvors meiga þa adrer vænta sier af Heim-

enum? Hvar af hafa allskonar Villu-Lærdoomar orsakast, sem verid hafa, og enn nu eru? Sannlega af þvi, ad Guds Ordum er umsnwid, og þau verda af ymsum Villu-Ondum hrædilega afbokud, hvorier lygisamer Lærendur afneita DRottne, sem þa hefur endurleyst, leidandi yfir sig snoggva Fyrerdæming, og þeirra Eptirfilgiarar, fyrir hvoria Sannleiks Vegurinn lastadur verdur, hvorra Afelli mun ei leingi dvelia, og þeirra Fyrirdæming sefur ecki, 2. Pet. 2. v. 3. Trwum þar fyrir ecki hvorium sem einum Anda, helldur ransokum þa adur, hvort þeir sieu af Gudi, og vitum ad Diofullinn kann lijka vel ad umbreita sier i Liosssens Engels Lijki, enn ef vier erum fasthelldner þess sannarlega Ords og bliifum einfalldlega vid Ord og Rædu JEsu Christi, þa erum vier hanns sanner Lærisveinar, og hvor hanns Ord geymir, mun ecki Daudann smacka ad eilijfu. Auk þessa, þa giætum þess Attunda Bodords vors Guds, og vorunst ad færa nockurs Manns Ord edur Verk a verra Veg, bresti Mann Dæ dina ad færa þau til betri Vegar, þa skylldi þo einginn vera Satans Eptirfilgiari i hvnu, helldur, ad minnsta Kosti, lata þau standa i sijnu Gylldi, so hvad vier vilium ad Mennerner giri oss, þad sie þeim giort af Hiarta, þvi hastarleigir Urskurder og rangar Utleggingar leida optast Illt eptir sig, og hvor sinn Munn vardveitir, vardveitir sitt Lijf, enn hinn Framhleipni kiemur i Ognan, sem Salomon vitnar. Ef eg vil hann bliifi til þess

eg kiem, segir Christur hier um̃ Johannem. Tilkomu-Dagur Drottinns er ecki ad eins hanns sijdasta Tilkoma til Doomsins (so sem Læriſveinarnir hier þad wtlegdu), helldur maa og Tilkomu-Dagur hanns riettilega kallast farsæl Lausn og Frelsi Guds Barna af þessum Heimi, þvi þaa kiemur JEsus, og tekur þau til sialfs sijns wr Harma-Dal þesßum i Himneska Sælu, og so sem þau hafa honum hier lifad, so deya þau honum, Jaa, hvort þau lifa edur deya, eru þau hanns Eign og Eiginndoomur, Rom. 14. v. 8. Þa hefur oll vor Anaud feingid farsælann Enda, nær vier sætt sofnadir i DRottni wtgeingnir erum fraa allri Astrijdu þessa Heims, og Saalinn verdur um̃fodmud af sijnum sætasta Unnusta JEsu um̃ alla Eilijfd; Hvad ofs veiti Gud, fyrir Jesum Christum, hætt losadur um̃ Alldir, Amen.

# 38. Capituli.

Um̃ Opinberan Christi aa Fiallinu i Galilæa, og hañs Skickan ad Postularnir Ut-færi um̃ allañ Heimiñ.

ENN þeir Ellefu Læriſveinar geingu i Galilæam aa Eitt Fiall, þad er JEsus hafdi þeim fyrirskipad, og er þeir saau hañ, tilbaadu þeir hañ, eñ nockrir efudu þad. Og JEsus gieck til þeirra, taladi vid þaa og sag-

di: Allt Valld Er Mier Giefid ad Himnum Og ad Jordu; Fyrir þvi gangid þier wt um allan Heimin, Predikid Evangelium Allri Skiepnu, Og Kiennid Ollum Þioodum, Og Skijrid Þær J NAFNJ FODURS OG SONAR OG HEJLAGS ANDA, og kiennid þeim ad halda allt þad Eg baud ydur; Hvor Han Trwir Og Verdur Skijrdur, Skal Hoolpin Verda, En Hvor Ecki Trwir Skal Fordæmast. En Tekninn sem þeim munu fylgia er trwa, eru þessi: J Mijnu Nafni Munu Þeir Dioffla wtreka, Nijar Twngur tala, Hoggorma upptaka, og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, skal þad þeim ecki granda, yfir Siwka munu þeir Hendur leggia, og þa mun þeim batna. Og siaaid, Eg em med ydur alla Daga, allt til Enda Veralldar. Þar eptir var han siedur af Jacobo. 1. Cor. 15.

ÞO hier sieu ecki tilteknir nema þeir Ellefu Drottinns Postular, sem hier geingu eptir hanns Skipan i Galilæam ad Eitt Fiall, þa er þo ad raada, ad þar hafi fleyri verid med þeim i þessari For af Christi Skoola Bornum, edur Fim Hundrud

Brædur,

Brædur, so sem St. Paall giefur ad merkia 1. Cor. 15. hvar hañ þessa tiltekur nærst Postulunum. Allir þessir tilbadu JEsum; Eñ þo þess sie getid, ad nockrir hafi þadijefad, hvort þeir hann tilbidia skylldu edur ecki, þa hvarf strax sw Efasemd wr þeirra Hiortum, eptir þad þeir hofdu sied hann og gloggt athugad. Vier þeckium og JEsum Ogiorla i Krossinum, sem þo er añadhvort hañs Fyrerrennari edur Eptirfylgiari, eñ sem hañ kiemur til vor, og talar vid oss fyrir sijna sætu Huggun og Hugsvolun i Hiartanu, lijka sem hier vid hina, og endurlijfgar vorn mæddann Anda, þa faaum vier gladir fulla Þeckingu uñ þad, ad hañ sie þad sialfur sem særir og grædir, og allt vel giorir og giort hefur, þa verdur og ecki laung Bid a einni trwadri Bæn og Packargiord eptir adra, so ad uppfyllast Ord Brwdarinnar er segir: Eg hiellt honum og villdi ecki sleppa honum, Cant. 3. v. 4. Þvi, trw mier, aungver Samfundir eru sætari, helldur enn Sorgmæddrar Saalar og Grædarans Jesu, hvorri hañ hefur þessu lofad og endir þad einninn: Eg em hiaa þier i Neydinni, eg vil þier wtrycki, og þig Vegsamlegañ giora. Eda er þad ecki stoor Vegsemd, ad eitt Haalm-Straa skuli Sniofulinn med allri sinni Magt yfirviña? Er þad ecki Utrickíng, ad giora hina sætustu Saalar Kiæti og Hiartans Fognud, af beiskri Sorg og Taara-Follum? Er þad ecki naakvæm Hiaavera, þegar giorist Himna-Rijki af Helvijti? Hvor er saa af trw-

udum Guds Børnum, er ecki þecki, þacki og medkieñi slijka Vidhondlan JEsu vid sig og Endir ar ædursøgdu Lofordi? Hvi hann helldur oll sijn Fyrirheit; hañ hiet Lærisveinunum ad þeir skylldu sia ad siaa sig i Galilæa, hier endir hann þad nu, so sem allt añad er hañ losar, þvi hann er sialfst Lijfid og Sannleikurinn, hier i er alltijd Hugfroon fyrir allar trwadar Sælir; Og þad meira er, ad þegar JEsus synist lengst burtu, er hann nærstur.

A eitt Fiall safnadi JEsus sijnum Lærisveinum, þad meina margir Lærdir Menn verid hafi Fiallid Helga edur Tabor, og draga þar til viss Rok, einkum þad JEsus ædur fyrir sijna Pijnu og Fullnægiu Boot fyrir Syndir vorar forklarädist a þvi sama Fialli. Sw Borg sem a Fiallinu liggur fær ei foolgist, segir Endurlausnarinn. Matth. 5. v. 14. Borg þessi er Guds Christni, i þessa Borg hefur JEsus þig innleidt, mijn Sæl; þar fær þu ad siaa þinn Unnusta, sem þier veitir alla Hiartans Gladværd, Lijf og Endurnæring, hann nærir þig þar, Synda og Sorgmædda med sijnum Anda og Ordi, samt Himneskri Kvolldmaaltijd sijns Holld og Bloods, þar reynist i þvi Giesta-Bodi, mijn Sæl, sætur Vina-Kossiñ, þegar hvort yckar kyssir þar annad, hann þig i Elskunni, þu hañ i Trwñi, eñ so sætur sem hañ er nu i þessu Giesta-Bodi, þa verdur hañ eñ þa sætari þegar þu Lofsins hiedañ uppleysir, og helldur þijna Himna-For af þessu Fialli upp til þess Himneska Zions Fialls

alls, og iñgeingur i Giesta-Bod Dijrdarinnar aa Hædum, og sær ad siaa þenna þinn Unnusta so sem hañ er, Augliti til Auglitis med øllum Utvøldum; Þa mænir þu til þijns JEsu, mijn Saal, i þinni sijdurstu Ut-For af þessu þijnu Hreysi, enn hann riettir sijnar Hendur aa mooti. O þennann Edla Samfund og sætustu Samveru uñ alla Eilijfd!

A Sinai Fialli wtgaf Gud fordum sitt Heilaga Logmaal, er bodadi oss Bølvan og eilijfann Dauda, af þvi þad kunni einginn vor uppfylla, þvi var þad þad Ok sem øss þvijngadi. Enn af aadurnefndu Tabor Fialli wtsendi JEsus sijna Postula uñ Heiminn ad boda oss, sem stoodum i Logmaalsins Banni, þañ sanna Fridar Bodskap, sem Trwudum øllum tilsegir Kvittun og Fyrirgiefning Syndanna. Framar segir JEsus, alit Valld er mier giefid aa Himni og Jordu: Vilier þu þetta riett skilia, þa maattu og aattu þad ad wtleggia uppaa Christi Manndoom: Af þvi nu JEsu eptir Manndoominum er eilijft Einvalld giefid, þaa er þad giefid mijnum Broodur, hvør sijnum og mijnum Gudi og Fødur greidt hefur fullann og gilldann Betaling fyrir mig sekann og Syndugann; Jaa, fyrst eg er þessum rijka HErra og Konungi so nææskylldur, þa gioriſt eg voladur, snaudur og vesæll uppaa hann til Framfæris, hann hefur og alldrei fært sig undann þvi, helldur alltijd vid mier þurfandi tekid, og mun eiñig hier eptir taka, einna hellst og best þegar eg fæ ecki leingur inni i þessum Heim:

Verdi mier þvi hiedan̄ wthijst þa Herrann vill, og ä vijst Heimili ä Himnum hiä mijnum HErra JEsu, hann hefur siälfur dæmt nug uppä sig, og hefi þan̄ han̄s Doom med han̄s eigin̄ Bloodi skrifadann, med Stadfestingar Innsigli H. Anda, i mijnu Hiarta geymdann. Þar gietur einginn reyngt ockar Skylldsemi, þvi eg er hanns Limur, Holld af hanns Holldi, og Bein af hanns Beinum, Eph. 5. v. 30. Þessi Skylldsemi hneigir þvi allstijd og beigir hanns blessada Hiarta til ad hiälpa mier, þar er og einginn so sterkur, ad mijna Ønd slitid fäi wr hanns Hendi, Joh. 10. v. 28. hier uppä vil eg lifa, og sijdann gladur deya: Hreki mig hvør sem kann og vill, JEsus medtekur mig! Enn seig mier, mijn Sääl, hvar af veitst þu allt þetta? Hvar af veitst þu, segie eg, ad þu ätt þetta Framfæri vijst i allri þinni Þorf, og seinast i Daudanum? Andsvar: Af siälfs Jesu Sannleiks Munni hefi eg þetta, hanns eiginn Handskript vitnar þetta, sem er hanns H. Evangelium, fullt allmargra Nääbar Fyrirheita hier uppä hlioodandi, sem øll Sorgfull Hiørtu endurnæra, hvørt ad predika allri Skiepnu, JEsus hier, af sijnu Guddooms Valldi, wtsendi sijna Posttula um̄ allann Heiminn, og bryniadi þä med Astgiofum H. Anda, so þeir gengu gladir til þessa Verks, jafnvel þo soddann Em[illegible]ættis Vegur væri nærsta torsooktur, þvi þessi Hei[illegible]nur er riett kalladur eitt Diofla Heimkynni, sem [illegible]afnann færir eitt sijfelldt Strijd i mooti Gudi

og

og hañs Þioonum, elſkar Myrkurinn, enn hatar Lioosid; Samt hafa þeſsir Guds Þioonar predika Evangelium, þad er, ad Meñ ſkylldu elſka JEſum og trwa a hann, og af Trwnni og Elſkunni til hanns giora hid gooda. Soddann hafa þeir predikad, og þad predikaſt eñ allri Skiepnu, þad er Moñunum ſem ſkynia kunna Ord Drottinns, þvi ſo ſem JEſus hefur ollu Mannkyni afrekad Saaluhiaalpina, ſo vill hann hun ſkuli ollum framhbioodaſt, hvar af auglioost er hann vilie einkis Manns Glotun, og aungvann Syndara vilie hann wtilykia, nema þañ ſem ſiaalfur ſig med Oendañlegri Vantrw wtelykur: Medtak þad þvi mijn Saal med Trwarinnar Hendi, ſem þinn JEſus riettir ad þier med ſinni Naadar Hendi.

Auk þeſsa bijdur JEſus ad ſkijra i Nafni FODURS, SONARog ANDA HEJLAGS. Hier er enn þa eitt lioost Vitni uppaa adurnefndt, þvi þar ſem þu, mijn Saal, hefur þennann Guds Naadar Saattmaala medtekid, þa ert þu vordinn Oſka-Barn lifanda Guds, og allra Himneſkra Giæda, Erfingi fyrir Trwna aa JEſum Chriſtum, hvorium þu Jklædd ert, hafandi H. Anda i Pant, ſem verkar Riettlæti, Frid og Fognud i þijnu Hiarta, og giorir ad þar verdur Guds Rijki inni; Enn ſiaa verdur þu vandlega eptir, ad ei medtakir þu þeſſa Guds Naad til Onijtis, helldur fyrir Hiaalp og Helgun Andans auglijſir þijna Trw med goodum Verkum, til hvorra þu ert ſkopud i

Chriſto

Christo Jesu, ad þu gaangir i þeim, Eph. 2. v. 10. þvi hvorninn kann þu ad hroosa þier af Trwnni, nema hun sie verkandi fyrir Kiærleikann; Þa kunna Menn ad siaa þetta Lioos, og ad þu geymir JEsu Ord, og halldir þau sonn, ef þu lifir eptir þeim, gioorir þu so, þa ertu Jesu Vinur: hvorninn maattu segia, eg er Musteri H. Anda sem verkar Trwna, nema Andans Avextir auglijsist aa þier, sem eru þessir: Kiærleiki, Fognudur, Fridur, Þolinmæði, Blijdleiki, Goodgyrni, Trw, Hoogværd, Bindindi, Gal. 5. v. 22. og soddann meira; Ef þu lifir alltijd i sannri Ydran og Aflaati Syndanna, lofar Gud, bidur og þackar honum jafnlega, ert þolinmoodur og hoogvær i annarra Breitni og Meingiordum, blessar og bidur fyrir þijnum Naaunga, so auglijsir þu þig ad vera riett-trwadann Mann, og ert morgum Krapta-Verka Monnum betri, þvi ad lifa Gudrækilega i christilegri Kyrkiu er meira verdt enn Krapta-Verk ad giora; Guds Ord, hvoriu þu aatt ad trwa, og þar eptir ad giora, er þier, so breitandi, vijst Teikn eilijfrar Saaluhiaalpar. Jaa, þar sem þu so hefur JEsu Bod, og helldur þau; þa elskar þu JEsum og elskast af honum, so hann er med þier og þvilijkum alla Daga allt til Enda Veralldar, ecki ad eins almennilega, helldur sierlega, med Elsku, Jbwd, Vernd og Velgiordum; Hann er med, ei so sem Jardneskur Vinur sem kiemur, og fer innann Skamms aptur, so ad Einsleglleiki Skilnadarins verdur þa opt ecki minni enn

Fognud-

Fognudur Samverunnar, helldur er þessi elskulegasti Vinur JEsús med sijnum alltijd i Sorg og Gledi, Hvijld og Erfidi, Nott og Dag, Lijfi og Dauda. Mijn Saal, þetta er þinn fegurste Fognudur, þetta er þijn einka Rooſemi, Jaa, eitt himneſkt Eptirlæti, ad þinn JEsús er þier naalægur; og fyrst hann er med þier, hvor kann þa ad vera aa moti þier? Fyrst hann stidur þig, hvor kann þa ad fella þig? Fyrst hann huggar þig, hvor kann þa ad hryggia þig? Af hṽs Medveru þiena þier aller Hluter til hins besta; Þar fyrir vil eg þetta þitt Loford, O HErra JEsu, umfadma med Trwnni, og mier vid þad hallda i hvoriu sem ad Hondum kiemur; J mijnum Vekindum Vesolld og Breiſkleika ert þu minn Styrkur, mijn Nægd i Skortinum, mijn Hiaalp i Neydinni, minn Skiolldur og Veria i Strijdenu, mijn Vernd i Haſkanum, mijn Huggun i Sorgunum, mitt Frelsi af ollu Faangelsi og Snorum, mitt Lioos i Myrkrenu, mitt Lijf i þessu Lijfi, mitt Lijf i Daudanum, mitt Lijf i Uppriſunni og mitt Lijf i eilijfu Lijfi. O JEsu minn Gud og HErra, minn Brooder og Brwdgumi, minn Emanuel, eg bid, vert þu med mier, so geingur mier allt vel, so verdur allt beiſkt Vatn i þessari Mara ad ſætu Vijni, vertu alltijd med mier hier Tijmannlega, so eg meigi þar sijdann vera med þier, þig lofandi, eilijflega med ollum Utvolldum, AMEN.

# 39. Capituli.

Um̃ Undirbwning Christi Uppstigningar.

ENN hañ var uppnum̃iñ, eptir þad hañ hafdi Postulunum Bijfalning giefid, hvoria hañ hafdi wtvalld fyrir Heilagañ Anda, hverium hañ tiedi og sialfañ sig Lifandi eptir Pijsl sijna i marghaattudum Bevijsingum, og liet þaa sia sig um̃ Fiørutige Daga, talandi fyrir þeim af Guds Rijki. Og sem hañ hafdi þeim samañsafnad, baud hañ þeim ad þeir viki eigi wt af Jerusalem, helldur ad þeir skylldu bijda eptir Fødursins Fyrirheiti, og sagdi: Siaaed, ad eg vil senda yfir ydur Fyrirheit mijns Fødurs, sem þier hafid af mier heyrt, eñ þier skulud vera kyrrir i Borgiñi Jerusalem, þar til þier J-klædist Krapti af Hædum, þviad Johañes skijrdi med Vatni, eñ þier skulud med Hellögum Anda skijrdir verda, eige laangt eptir þessa Daga. Eñ þeir sem þar voru til samans komner, spurdu hañ ad og sögdu: HErra, villt þu nu aa þessum Tijm a upprietta aptur Israels Rijki? Eñ hañ sagdi til þeirra: Ydur ber ei

ad

ad vita Tijma edur Stundir, hvoriar Fad-
eriñ setti i sialfs sijns Valldi, helldur
munu þier ødlast Krapt heilags Anda, þess
er yfir ydur mun koma, og þier skulud mij-
ner Vottar vera til Jerusalem, og i allri
Judæa og Samaria, og allt til Jardar-
eñar Enda. Eñ hañ hafdi þa wt allt til
Bethaniam, og hoof upp sijnar Hendur
og blessadi þa.

SO sem þad eirn goodur Hws-Fader undir sij-
na Burtfør og Vidskilnad, samañkallar sitt
Heimilis Foolk og Vini, og raadstafar sierhvoriu,
sem honum þykir best henta, kvediandi sijdann med
Blessan og goodum Oskum: So hefur og einna
best sa mikli Hws-Fadir, og Edsti Biskup sijns
Hwss, Ebr. 10. v. 21. JEsus Christur, Hof-
undur og Fullkomnari vorrar Saaluhiaalpar, allri
Skipan sijns Huss Nidur-radad, ei ad eins aadur
hann gieck til sinnar Pijnu, helldur og eptir sijna
Upprisu, aadur hann uppstie til Himna, um hv-
orn ﬁnn Hierveru Tijma hann samannsafnadi sijn-
um sundurtvijstrudu Saudum, styrkti þa i
Trwnni um sijna Upprisu, med sialfs sijns lifandi
Opinberan, med Syningu Saara Oranna, med
Matar-Neytingunni, med Samrædum aast-
wdlegum vid þa, med Opinberan Guds Raads af
Ritningunum og þeirra Utleggingum, og þetta i

marg-

margar Reisur, so og itrekandi fyrir þeim sijnar Vijsfalningar, og stadfestande þaa i ǽdur tilkiornu Embætti; Til ad koma þessu og þvilijku ollu vel til Rietta, dvaldi hann, fullur Elsku og Myskunar, hiaa Sijnum hier aa Jordu eptir Uppprisuna i Fiorutyge Daga, betalandi so sijnum Astvinum þær Fiorutyge Sorga og Swta Stunder sem þeir þreya maattu epter hanns Andlaat, medann hañ hvijlde i Grofinne, og þad med eins morgum edur Fiorutijge Medveru Dogum; Þannig bætti JEsus þeim Sorg þessa, med meir eñ Tvofolldum Bootum. So maatt þu eñ bwast vid hañs Milldi og Myskunsemi, þu Guds Barn; þegar hañ hefur grætt þig, so gledur hañ þig aptur, tekur hañ nockud fraa þier, þad þo sem hañs er, eñ ecki þitt, þa giefr hañ þier tvofalldt aptur; so hefur hañ alltijd breitt vid sijna, so breitir hañ og vid þig: Þu telur hier þijna Sorgar-Daga, þar veitast þier eptiraa Otolulega margir Fagnadar-fullir Gledi-Dagar; Margar eru hier þijnar Erfidis Stundir, Otelian-de verda þijnar Hvijlldar-Stunder, Apoc. 14.v.13. Hier vid skallt þu þig hugga i ollum þijnum Eymdum og Erfidi; hyxa af-fram i Þijngd þessa Lijfs Hormunga aa yfirgnæfannlega Þijngd eptirkomandi eilijfrar Dijrdar. Eñ vilier þu nu þessa bijda, þa maattu ecki vijkia wt af Jerusalem, þad er, þu verdur þa ad vera eirn andlegr Borgari og Heima-Madur i þessari strijdandi Guds Christni hier aa Jordunni: Jaa, þitt Hiarta maa vera þa ein Andleg

teg Fridar-Sion, hvar inni Gud hafi sinn Ofn og Elld, sitt Rijki, sijnar Verkaner; Þitt Hiarta skal vera, seigieg, eitt Simeonis Hiarta, sem hiartannlega sækir og bijdur eptir Huggun Guds lifandi, eñ aktar alla Veralldar Gledi faafeinga, sem leidest Utlegd sijn vid þessi Babilons Votn, enn laangar i Himininn til þeirrar Sigurhroosandi Christni; þitt Hiarta maa opt med heimuglegum Taarum, andvarpa yfir Trodning og siifelldri Ofnaadan Ovinanna; Holldsins, sem gyrnist i mooti Andanum; Diøfulsins, sem allt vill uppsvelgia; Heimsins, sem med sinni aahvetiandi Lyst vill locka, edur med sijnu Ofbelldi þreyngia, hræda og hæda: Þvi þad Hiarta, sem hier verdur opt laugad i Vatni Taarañã aa slijkañ Haatt, og innþreyngir sier so med heitri Andvarpan i Undernar JEsu Christi, verdur aptur laugad og yfirdreift med Hugsvolun Heilags Anda, hañs Fridi og Forsmeck eilijfs Lijfs, ey fær uñ sijdir ad upphefia Hofuded, nær þad eilijfa Jubil-Ar uppbyriast. Þvi skallt þu nu med Kyrd og Þolinnmædi bijda aa þessum Utlegdar-Arum Fagnadar-Arsins, þad kiemur iñañ skams eptir þessa Daga, þvi ecki seinkar Gud sijnu Fyrirheite, þo nockrer halldi þad fyrir Seinkan, helldur, bijdur hann eptir oss nærsta þolinnmoodur, hañ hefur laungu aadr bætt þad nidurfallna Davids Hreisi, eñ nær hann vill endurbæta þad ad fullu Leiti, med sinni komu til Doomsins, og Uppbyrian sijns eilijfa Dijrdar-Rijkis, þar uñ hæfir oss hvorki

nie vardar ad grenslast, þvi þad veit eingiñ, nema Faderinn eirn, ecki Englar Guds aa Himnum, og ei Sonurinn, Marc. 13. v. 23. Þvi hann var ecki sendur oss þad ad opinnbera, þo hañ, Fodursins Kraptur, og Eitt med honum, eptir sinni Guddooms Alvitsku vissi þad sannarlega, þvi allir Hlutir eru nakter og Ohulder fyrir hanns Augum, Ebr. 4. v. 13. Lijka vel epter Manndoomenum, þar i honum bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. v. 9. Og saa sem hefur allt i sijnu Valldi, hann hefur allt i sinni Vitund. Vit þu, Christin Madur, ad bwa þig vel aa Metnadar og Dofinnleika med Ugg og Otta, undir þad Ovissa so Daudans sem Doomsins Takmark, sem hastarlega mun koma, og þa sijst varir; Hvar til ef þu stundar, muntu Krapt odlast af Hædum, Jaa, saa mikli Guds Kraptur, sem ædri er ollum Skilningi, mun vardveita þitt Hugskot, Siñi og Skilningar. Vit i Christo JEsu, þijnum HErra, so þu verdir aa hanns Tilkomu Deigi, nær hann tilfulls uppriettir Israels Rijki, verdugur ad standa frami fyrir honum, so sem saa, er hier hefur vardveitt hanns Vitnisburd, og innleidast sijdann i eilijft Lijf. Þar fyrir, Guds Barn, so sem nu JEsus hier wtleiddi sijna Lærisveina allt til Bethaniam, hvad ed þijdir Eitt Sorgar-Hws og Hrygda Heimkynni, so leidir hañ sijna Astvini eiñ, Fyrst til þeirrar Mædusomu Bethania þessa Lijfs, i hvorre þeir drecka meiga Eirn svrã Sorgar-Bikar eptir añañ, aadur hañ tekur

rekur fraa sīn̄ aa Sal eilijfrar Dijrdar aa Himnum; Han̄ tilskickar oss Rijki, lijka sem Faderinn tilskickadi honum. Hann hlaut fyrir Forsmaan, Kvaler og Daudann sīn̄ ad ganga i sijna Dijrd, vier og eirn̄inn fyrir margar Hormungar i Guds Rijki, Act. 14. v. 22. JEsus stie af Oliu-Fiallenu upp til Himens, aa hvoriu hann fyrr haadi þann hardasta Bardaga vid Daudann, Diofulin̄ og Helvijti, og van̄ aa þeim eirn̄ aagiætan̄ Sigur, þad sem han̄ þar i Strijdenu afrekadi oss, þad sondi hann hier nu opinnberlega, sem var Himnafor allra þeirra sem aa hanns Nafn trwa, hvoria þeir hallda sijdarst, nær þeir skilia vid þennan̄ Heim, so sem hann og sialfur vitnar med sinni Bæn til Fodursins, seigiande: Fader, hvoria þu gafst mier, vil eg, ad hvar sem eg er, þar sieu þeir og med mier, so þeir siaai mijna Dijrd Joh. 17 v. 24. A þessu Fialli hafdi Frelsarin̄ haft opt aadur sin̄ Naatt-Stad, sem Lucas vitnar: Cap. 21. v. 37. og giort þar sijnar Hiartnæmar Bæner til Fodursins aadur hann leid sijna Pijnu, og hefur han̄ þa eirnin̄ saǹarlega minnst undir eins sin̄ar Himna-Farar, og þvi fwslegar uppbyriad sinn straanga Bardaga, og saarustu Pijnu i þessum sama Stad, fraa hvorium hann nu i stoorri Vegsemd og sætum Sigri uppstie til sinnar Eilijfu Dijrdar.

Allt þetta skallt þu nu vel Rootfesta, Christenn Madur; Þar til innleidir JEsus þig i Bethanians Hormungan̄a, hvar han̄ sendir þier marga Sorg-

ar-Noott, so þu skulir temia þier þar inni Andlega Himna-For, og verda þvi betur tilreiddur til þinnar sijdurstu og fullkomnu Himna-Farar. Enn þesse Andlega Himna-For maa Bænenn Riettelega kallast, nær hun er alvarleg; þvi þo Auguñ sveime þa i heitu Taara-Floode, er Hiartad allt aa Himnum hiaa sijnum HErra, liggiande þar sem Faatækur og Saarum vafeñ Lazarus fyrer Veitarans Footum, og klagar fyrir honum, sem Barn fyrir sinne Moodur, sijna Neyd og Angist. Ad bidia so, maa seigiast ad deya i Bæneñe, þad maa naalega seigiast um so bidiandi Mañ; Var hañ i Lijkama edur utañ Lijkama, veit eg eige, Gud veit þad; Hañs Hiarta er aa medañ Sañlega vorded eitt Himna-Rijke, hvar JEsus hefur sier Herberge teked, þviad Bænareñar alvarlegrar, heitrar og Sañ-Trwadrar Kraptur er þvilijkur, ad hun giorer so sem ein Andleg Fadmlog millum Guds og Mannsins; Madurinn fadmar og vefur Gud ad sier i Trwnne og Andvarpaneñe, eñ Gud aptur Mañeñ i Myskun og Medaumkan siñe, þar af sprettur Hiartans Endurnæring, og Hægd Hugarens, so ad saa sem fyrer stuttu gieck nidurlwtur af Sorg til þessarar Bænar-Ydiu, snijr gladur til Baka med uppriettu Hofde: Soddañ Madur kiemur ecke toomhendtur aptur wr þessare Reysu; Enn til soddann Himna-Farar brwkar Gud optast Kross og Mootlæti, so sem eirn andlegann Jacobs Stiga; þvi skal nu sw Gata, þo hun sie Holldenu þwngfær, vera þier vel

komeñ-

komiñ, þu Guds Barn: Þessi Skooli er Kiennari margra Dygda, sem æn hanns verda allt-ijti stundadar, þetta er segie eg, Vagninn til þeirrar Eilijfu Veysemdar; Hvor hann hatar, sa hatar sitt eigid Lijf og Velferd.

Ad Sijdurstu hoof Jesus upp sijnar Hendur og Blessadi sijna Lærisveina; Þessi Brunnur allrar Blessunar, byrti þad hier med Verkunum, sem hañ hefur oss befalad med Ordunum, sem er ad Blessa eñ Bolva ecki; Hann einn bijtir oss allri Blessan, Andlegri og Lijkamlegri, Tijmannlegri og Eilijfri, enn þeir Uppsprettu-Lækir, hvadañ Straumar allrar Blessunar til vor renna, eru hanns signud Saar og Undir, so Handaña sm̃ añarra háñs Lima. Þessar Hendur hiwka oss i Lijfi og Dauda, þessar Hendur hugga oss i Lijfi og Dauda, i þessum Hondum stendur allt vort Hiælpræði, þvi skal til þessarra Handa flya i allri Neyd i Lijfi og Dauda. Þijnar Hendur, O Jesu, geymi oss hier þreyandi, og medtaki oss hiedann farandi; so skal þitt Lof þar i moot af oss hlioma, hier uppbyriad med Tæra-Raust, enn þar framfærast med sætt-kliingiandi Gledi-Raust. Blessadur sie Gud og Fadir DRottinns vors JEsu Christi, sa oss hefur blessad med allshættadri Andlegri Blessan i Himneskum Giædum fyrir JEsum Christum, Amen.

* * * * * * * * * * *

# 40. Capituli.

Um̃ sialfa Uppstigninguna og Setu JEsu til Guds Hægri Handar.

Og þad giordist, ad eptir þad Drottin̄ hafdi talad vid þaa, þa han̄ blessadi yfir þaa, og sagdi þetta: Ad han̄ skilldi vid þaa, og vard þeim aasiaaendum uppnum̃in̄, og Eitt Sky took han̄ upp i burt fraa þeirra Augum. Og han̄ foor upp i Himinin̄, og situr til Guds Hægri Handar. En̄ þeir tilbaadu han̄.

Af þessum Hofud-Greinum vorrar Trwar hefur þu, Saal mijn, þetta eptirfylgiandi ad aathuga:

1. Eptir hvorri Naatturunni þin̄ Lausnare sie til Himna uppfaren̄; sem er, eptir sin̄i Manndoomslegu Naatturu; Hvíad i Tilliti til hennar, er hann Læckadur, Gietinn, Fæddur, Pijndur, Krossfestur, Deyddur og Grafin̄n, lijka og eptir henni upphafinn, so sem Skriftinn allvijda vitnar; Man̄sins Syni var giefid eilijft Walld segir Daniel, Dan. 7. v. 14. Man̄sins Syni var giefid Walld til ad hallda Doom, Joh. 5. v. 27. Mannsins Syni er Magt giefinn ad fyrirgiefa Syndirnar, Matth. 9. v. 6. Mannsins Sonur mun sitia til Kraptarins Hægri Handar, Matth. 26. v. 64. Allt þetta skilst uppaa Manndoominn Christi, þvi er han̄ eptir

Man̄=

Manndoominum uppstijg:inn, þvi Gudi kañ eckert ad giefast, hañs eru allir Hlutir, hañ kañ ecki framar ad upphefiast eñ hañ er, hañ var og mun vera, hiñ hærsti Herra Drottiñ Zebaoth. Þetta er hiñ stærsti Fognudur fyrir oss aumar Manneskiur, ad vier vitum og trwum fyrir vijst, ad vort Holld sie i Christo til Himneskrar Hæatignar upphafid; Þetta er þad, sem Paulus segier, ad Gud af Næd siñi hafi oss siælfum sier þacknæma giort i sijnum Elsku lega, Eph. 1. v. 6. Væri þitt Barn edur Brooder einn Kongur, þa mundir þu, þo fætækur værir, þar af þier hroosa, og nockud þykiast, þo samt er einn Kongur eins Molld sem þu, þid veigid bædir eins mikid fyrir Gudi, hiaa hvorium ad er eckert Persoonu Alit. Skal þier þad þa ecki vera eitt Fagnadar-Efni, ad sæ Eilijfi, Fullrijki, Almættugi, Mysknnsami og Goodgiarni Guds Sonur, Kongur Konganna, og Drottinn Drottnanna er þinn Broodir? Þad er Heidur yfir allann Heidur, Jæ, Owtsegiannleg Virding, og þessi Virding heyrir þier so vel til, þu Umkomulausi Vesælingur æ Jordunni, so sem einum Stoor-Herra og Konungi. Þetta þitt og mitt Blessad Hofud og Herra, er ecki ad eins siælfur uppstijginn til eilijfrar Dijrdar, helldur og einninn mun hañ oss sijna veiku Limi og fætæka Ættingia þangad til sijn hefia, so vier sieum þar sem hann er eilijflega. Vier mænum nu eptir þeim Vagni, Ps. 104. v. 3. Sem þangad flytie oss sem fyrst, þvi hier er margfalldt

Syndi, þar eilijft Eptirlæti; Þo ſkulum þeſſa biþ-da vakandi og þolinmoodir. Eitt Sky fluttivorn Hiartans HErra i Himininn; Þeſsi Vagn augliſſte hanns Velldi: hann hagar þeſſu aa lijkann Hæatt vid oſs; Skyinn Hormunganna og ymſra Þreynginga i Utlegd þeſſari, ætla eg ad flytie betſt vorn Hug og Hiarta i Himininn; Þar til lætur DRottinn þau hier yfir oſs dragaſt, ſo Forinn ſu alfarna ſijdarſt verdi þvi greidari, og eingiñ Veralldleg Umſvif ſkuli þa teſia fyrir þeim, ſem eru aadur daudir vordnir Verolldiñi med ſøgdu Mooti, aadur enn þeir deya. Sie þad þaangad til þijn og mijn Dægra-Stytting, þu Guds Barn, nær ſem vid lijtum til Skyaña, ſem opt ſkiedur, ad minnaſt aa, og hugſa Hug-gladir til þeſs eilijfa Heimkynnis og JEſu Tilkomu aa Efſtä Degi, nær hann kiemur med ſijnum Englum med Magt og mykiu Velldi, Matth. 25. v. 3. Til ad-giora fullkomna Lauſn ſiña Utvalldra, ad vier meigum þa vera vel vidbwnir og vakandi fundnir. Þar til hiaalpa þu oſſ, miñ ſæti Herra Jeſu, og laat oſs þar til ſtyrkia þiñ Heilaga Anda, ſo Eilijfann Sigur odlaſt mættum.

Þegar vor Frelſari ſtie hijngad nidur i Holldid, ſkiedi þad i hiñi diwpuſtu Faatækt, hann uñgieckſt og hier aa Jordnñi i Þioons-Mynd, Phil. 2. v. 7. 8. hafandi ei hvar hann kynni ſijnu Hofdi ad ad halla; Eñ nær hañ foor hiedañ til Himins aptur, ſkiedi þad i hinni Vegleguſtu Majeſtatis Dijrd og Æru. Al lijkann Hæatt hegdar hann enn Hlutſkipti

ſiña

sinā Ast Vina: Hañ Lijtilæckar þa fyrst, og upphefur sijdañ, hañ hriggir, og sijdañ gledur, hann þiaair og þiakar, hiwkar sijdann og Endurnærir, hann lætur alltijd swort gaanga undann sætu, þad fyrra er Undirbwningur til þess sijdara, hann byriar margt Barndoomslega fyrir Heimsins Augum, Jaa, undarlega, eñ endar þad næsta Wijsdoomslega, hann uppbyriar Weiklega, eñ endar þad Wolduglega. Seg þui ecki i þinni Neyd, þu Guds Barn: Eg geing til Grunna; helldur so: Drottiñ hañ giorir mier til gooda, þessi hañs Smyrsl eru mier til Læckningar, þvi skialldañ er Upphafid lijkt Endingunni. Þu sem alist hefur upp aa Jesu Brioostum, matt vel þeckia Hiartt hañs Rijkis og Hegdunar, vert þu ecki saa sem jafnlega lærir, og kiemst þo ecki til Þeckingar Sannleiksins, þvi þad er illur Lostur, og framar Ummerki Fordæmdra, eñ eilijfs Lijfs Erfingia. O Herra JEsu, hondla vid mig sem þier l jtst, þijn Vidhondlan hefur alltijd goodañ Enda, enn nær hann er goodur, er allt gott.

2. Skalltu Hugleida hier mijn Saal, hvort þinn Herra sie uppstijgiñ? Til Himins, segir Textiñ. Postuliñ Paall segir, ad JEsus sie hærri enn Himininn, Ebr. 7. v. 26. og enn segir hann, ad Jesus sie uppfarinn yfir alla Himna, Eph. 4. v. 10. Himinn kallast fyrst Loptid edur Skyenn er vier siaaum, til hvors Christur meinar segiandi: Lijtid aa Fugla Himinsins, Matth. 6. v. 26. Af þessum Himni giefur Gud Regn og Grooda,

Devt:

Devt. 28. v. 12. Þar er og Festingar Himininn, edur sa stirndi, um hvorn Gud taladi so til Abrahams: Lijt upp til Himins og tel Stiornurnar, Gen. 15. v. 5. Hier i þessari Hofud-Grein meinast ecki sa skapadi Himin edur Himnar, helldur Tignarinnar Himin, þad Hws, Lioos, Velldi, Dijrd og Lioomi sem einginn Madur kann wtsegia, hvar Guds allra kroptugasta, ollu stioornandi og allstadar nærverandi Dijrd og Majestatis Velldi byggir, þaangad er JEsus uppstijginn, so hann uppfyllli alla Hluti, Eph. 4. v. 10. Soddan Dijrdar-Vlst og Himneska Jerusalem med eilijfum Fognudi og Gledi Omælannlegri eiga Utvalldir allir fyrir Hondum, og munu þar hiaa Drottni vera eilijflega, og lioma þar sem Sool i Rijki Fodurs þeirra: Slijkt hefr oss Jesus afrekad. Adam tokadi fyrir oss þessu Heimkynni, i sijnu hryggilega Falli; Hinn añar Adam Jesus upplaukr þvi fyrir oss aptur, nær hann þaangad stie i sinni miklu Dijrd, so ad lijka sem vier hofum borid Lijking þess Jardneska Adams, so munum vier og bera Liking hinns Himneska, og ei hefr þad nockurt Auga sied nie Eyra heyrt, hvad Gud hefur fyrirbwid þeim sem hañ elska, 1. Cor. 2. v. 9. Þar af þerrar Hond Drottinns oll vor Augna-Taar, þar er eingiñ Kveinan framar, eigi Daudinn nie nockur Pijna, þetta hid fyrsta er þa forgeingid, Apoc. 21. v. 4. Hier til, O JEsu, laangar mijna Saal, og alla þijna elskulega, er so segia; Kom þu Drottinn JEsu; Kom þu snarlega,

lega! Þar til þessi Ösk fullkomnast erum vier þar uppi hia þier minn Herra i Voniñi og Trwnni, eg er þess fullviss af þier, ad þad Samband þverri ecki helldur aukist, og fullkomnest um̃ siider.

3. Skallt þu hugfesta þad, miin Sál, ad þiñ Herra situr til Guds Hægri Handar, þad ættu og ad skilia eptir hañs Mañdoome; Og fyrir Guds Hond, Hond Guds Fødurs; Eñ med þvi Gud er eirn Andi, Joh. 4. v. 24. þa hefur hañ hvørki Holld nie Bein, Hond edur Foot, þo so sie ad Ordi kvedid, eptir Mañlegri Viisu, vegna vors veita Skilnings, þvi skilst nu fyrir hañs Hønd hañs Almætti, Luc. 22. v. 69. Hañs Kraptur og Yfirburder yfer ølu, Ps. 118. v. 15. og 77. v. 11. Hañs allstadar Nærvera, Ps. 139. v. 10. Hañs Alvitska, Ebr. 4. v. 13. Hañs Tign og Majestatis Dijrd, Ebr. 1. v. 3. Og so sem þetta er na sa rietti Skilningur eptir Skriptiñi uñ Merking Guds Handar, so er og Frelsarans Seta a sama Veg skiliandi, edur, ad hañ sie eptir Mañdoomenum nærstur Gudi ad allri Makt, Krapti, Yfirburdum, Nærveru, Alvitsku, Dijrd, Velldi og Stiornon allra Hluta a Himni og Jordu, og þar sie eingiñ Munur Christi Guddoomlegrar og Mañdoomlegrar Nattura, nema hvad su Guddoomlega hefur af sier sialfri fyrir alla Eilijfd, þad hefur su Mañdoomlega odlast i Tijmanum, fyrir Guddoomsins Jbwd, so nu er þad eckert sem honum sie ecki undirgiefid, Ebr. 4. v. 8. Gled þig nu, Sál miin, gled þig seigi eg yfir slijku, Phil. 4. v. 5. ad þiñ Brooder JEsus stiornar bædi og rædur øllu a Himni og Jordu, er og allstadar med þier og hia þier, hañ bidur fyrir þier, hañ er þijn Huggun moot Syndiñi, hañs Blood hroopar Naad og Myskun yfir þier, hvør kañ þig þa ad aklaga, Rom. 8. v. 33. Hañ er þijn Hialp og Huggun moot Diøflenum og øllu hañs Naudanepti, fiær og nær, upp og nidur og allt um̃ kring; N. adslage þesser a mooti þier, JEsus

Qvist-

vnijtir þau Rꜳd. Hañ er þijn Huggun moot Daudanum, þvi hvad er nu þiñ Daude? Añad eñ þijn Himna-Før, hañ burtslijtur þetta Samvistar-Band Sꜵlar og Lijkama, leysir frꜳ Lijkama þessa Dauda; so ertu laus mijn kiæra Sꜳl, og med þad fer þu i Himneska Sælu: Og so sem þad oteliandi Her Himneskra Guds Engla umkringt hefur JEsu Christi þijns Brooðurs Sigur Vagn i Himiniñ; So verda þeir og eirniñ þiñ Reisu-Vagn i Himiniñ a þiñi Burtferdar-Tijd, og þegar þu kvedur seinast Lijkamañ, sijngia þeir so yfir þier burtfarandi, under eins og þeir hefia þig i Himiniñ: Þetta er sꜳ Madur sem komeñ er wr miklum Harmkvælingum, og hefur yfirunid fyrir Lambsins Blood: Eñ Guds Børn hier, yfir eptirverandi Nꜳkølldu Hreiśi: Hañs Mootlæti Hrygd og Mæda, hefur nu øll Ending gooda, etc. Nu, O HErra JEsu! So sem eg af Hiarta vil treysta og treysti þier, fyrir allt gott, so bid eg þig, miñ Hiartans HErra, fyrir þitt Blood og Undir, samt alla þijna Verdskulldan, ad þu uñir mier, med øllum Guds Børnum, soddañ Endalyktar a miñi Hiervistar Mædu, so eg eilijfañ Føgnud med þier fꜳi. Mijn Von og Trw seigir hier til Amen, þijn Trwfesti og Sañleikur seigir og hier til Amen, Jꜳ sañarlega þad skal so vera. Eñ þier, hædsti HErra JEsu, sem ert A og O, Upphaf og Endir, ásamt þijnum Himneska Fødur og H. Anda, sie Lof og Prijs, Dijrd og Speki, Packer og Heidur, Kraptur og Styrkleiki, Amen, frꜳ Eilijfd til Eilijfdar,

AMEN.

SOLI DEO GLORIA.

